# I. Sókrates*).

Þessi nafnfrægi Spekingur fæddist 470 árum fyrir Krists hingadburd, í Þorpinu Alópeke hjá Gricklands Athenuborg. Fadir hans het Sóphróniscus, og var Steinbilæta smidur, en módir hans, Phænareta, var Yfirsetu-kona. Fadirinn ól hann upp vid handverk sitt, var þad litt vid sveinsins ged, sem hneigdist til ædri skylapa; þó tók hann vid þad þeim framforum, ad Gratianna (þocka-gydjanna) bílæti, sem hann mindadi, fengu

A

*) Lengi hefir Spekingurinn Sókrates verid á öllum öldum talinn frægastur allra heidinna Spekinga ad lærdómi, lifnadi og fyritaks dygd, svo ad mjer fannst vel hlýda hier ad birja þetta litla Safn med Agripi af hans merkilegu Lifs- og Dauda-Sögu, hverja itarlegra finna má hjá Diogenes Laertius, Platone, Xenophon, Brücker, Biskupi Dr. Bloch, Rollin og fleirum. Hier fylgi eg helzt Brücker og W. Enfields History of Philosophy from the earliest times. London, 1791 4to. í stuttsta ágripi; þó med nockrum vidurauka hier og hvar eptir hinum.

 

stodu í Athenuborgar Kastala. Lítilvægum fodurarfi svalladi náúngi hans brádlega burt, svo Sókrates neyddist til ad lifa af erfidi og handverki sínu, en vardi þó öllum þeim stundum, sem hann mátti, til ad nema Heimsspeki.

Ríkur madur í Athenuborg, ad nafni Criton, tók eptir námfýsi eda serlegri laungun til lærdóms menta og fyritaks gáfum hjá þeim únga Sókrates, og tók hann því ad sér, en fól honum á hendur kennslu barna sinna. Vid þad sagdi Sókrates skilid vid handverk sitt, en gaf sig allann vid lærdóms ydkunum; hlýddi hann á kenníngar helztu og fræaustu lærdóms-manna, sem þá vóru margir í Athenuborg, og nam fyrst Heimsspeki af Anaxagórasi, sídan af Archelaus; Náttúru-frædi, Málsnilld, Skáldskap, Hljódfæra-list og Jardar-mælíngu af ýmsum ödrum, þar á medal af lærdri og sidprúdri Konu, ad nafni Aspasia, þar í borginni.

Brádlega vard Sókrates talinn einhverr besti Borgar-madur í Athenu og mikill Spekíngur. Eins vottadi hann sig ágætann Kappa í herförum, t. d. vid umsátur Potidæu Stadar í Thraciu, hvar hann í vetrar-hörku bar ad eins vana búníng sinn, og geck berfætt-ur á ísum, þegar adrir Grickjar fenau varla klædt af sér kulda. Þar bjargadi hann Alci-biadi, hvern hann sá særdann falla, og vardi hann svo og vopn hans, ad bádum várd borg-id; urdu honum fyrir þad álýktud Hetju-





verdlaun ad lokum, sem hann þó qvad bera Alcibiadi sjálfum, og eptirlét honum þau til ad orka med dygd hans. I seinni herfør sá hann Xenóphon liggja særdann á vígvelli, og bar hann á herdum sér burt úr hershöndum; margopt bjargadi hann þannig ýmsra lífi, en vogadi sínu manndómslega fyrir Födurland sitt og vini.

Framt ad sextugur ad aldri tók hann fyrst vid verdslegum völdum í Fimhundr-ada-Rádinu. Létu honum þau ad sönnu stýrdt fyrst í stad, sem óldrudum og vid þau óvönum, en skjótt vottadi hann sig vitrastann allra þeirra og rádvandastann, þegar almúginn ódur krafdi daudadóm Admírála, sem eptir orustu vid arginusisku Eyarnar, ecki gátu, vegna stormvidra, safnad upp líkum fallinna Athenuborgar manna, eda slædt þau upp úr sjó og grafid, hvad frændur þeirra fölnu á-toldu; reis Sókrates þá, sem Ráds-Forseti upp, og qvad lögum gagnstædt ad dæma Ad-mírálana fyrir þetta til dauda; en þó atqvæda fjöldi lýdsins rédi fyrir daudadómi í því máli, neitadi Sókrates aldúngis ad samþyckja og undirskrifa svo ránglátann, en — sókti úr því aldrei Þing né Fólksfundi þar framar. Ecki gegndi hann heldur þeim 30 Thrönnum, sem innsettir urdu í Athenu vold seinna, þegar þeir ógnudu og fyrirbudu honum ad kenna úng-dóminum Sidalærdóm og Heimspeki fram-



ar, þvi hann kenndi þrátt fyrir þeirra vánn-kastadi grimd þeirra og undirokanir, en stödd-rokfamlega uppá rétt Medborgara sinna med óskélfdu stödugllyndi, þó hann med þvi egndi þá til brædi og legdi líf sitt í háska; hann óttadist samt hverki svikrædi þeirra né ofbeldi, og þegar þeir budu honum, ásamt ødrum, ad ferdast til Salamis, og handtaka þar ríkann Borgara, ad nafni Leon, hvern Thyrannar þeir af óvild einni vildu láta saklausann til dauda dæma, fór Sókrates hvergi, og qvadst fyrr láta líf sitt, enn verda dráps verkfæri þeirra á ødrum saklausum; voldu þeir hann þó til ferdar þeirrar, svo ad nýtt ákjæru-efni fengju gegn honum*). Eru nú framansøgd dæmi nóg til sanninda um, ad hann gódur, rádvandur, og einbeittur madur var, sem Borgari. En — lángmestann heidur ávann hann sér med speki sinni og Sida-lærdómi, honum samqvæmum staklega dygdugum lifn-adi og hugar-ró þeirri og stødugllyndi, med hverju hann tók sínum óverdskuldada dauda.

*) Þessa 30 Thyranna í Feilandsstjórnar stad, setti Lysander í Athenuborgar vald, 404 árum fyrir Krists burd, en Thrasybulus ljet þá drepa árinu seinna, og ávann Athenu mønnum frelsi og Frístjórn á ný. Á medan þeir sátu þar ad vøldum, linnti aldrei fánaelsi manna eda dómum til útlegdar, eigna- og lífs-tjóns, og segir Xenophon: ad þeir á 8 mánudum í fridi, hafi látid fleiri borgarmenn drepa, enn fiandmenn fellt hafi í 30 ára herførum.

Sterk bein þarf til ad þola góda daga, segir ordtakid. Svo hefir þad ollum fjolda manna og þjóda reynst, sem vid aukin vold, veldi og aud fallid hafa til ofmetnadar, til ydjuleysis, til óhófs og vellystinga, en frá dygd, heidri, dugnadi og ollu sidgædi. Þetta vottar veraldar sagan um Persa, Rómverja, Griekja og ymsar þjódir. Audur og aukin vold hofdu gjorspillt um Sókratis daga sidferdi manna í Athennborg. Óhóf, vellystingar og allur sá ódygda her, sem af þessum leidir, tóku þar yfirrád, en fornar dygdir gleymdust. Vinátta og skylda máttu vikja fyrir egin gagni og metnadar ósljórn; rádrikur og sávis almúgi styrdi ollu í Athenuborg ad egin vild; Login vanvyrdtust; Dómstólar megnudu engum Rétti ad vidhalda; Embætti og Atqvædi gengu þar kaupum og solum, sem varningur, og dygdir vóru loks misvyrdtar, sem lestir, en lestir gjordir ad dygdum. Ungdómur allur inndrack lastanna eitur med vaxandi árum og uppheldi. Vitringar (Sóphistar) svo nefndir, sem leida áttu til sannrar dygdar, breyttu kenningum sinum eptir lydsins, almennings og voldugra spillta dagfari og munadarlifi, kendu loksins: „Ad Rettur væri „einungis þeim voldugri; allar athafnir væru „ósaknæmar; mannleg farsæld sé falin í ad „skapa sér sem flestar fysnir og þarfir og ad „fullnægja þeim. Ærlegheit og hófsemi væru „ad eins skylpur fyrir fávisa og gagnstædar

„mannlegri farsæld." Einkum kénndu þessir vitringar þá ment, ad slækja allt svo í skarpvitrum, en rángsnúnum fortølum, ad hid rånga syndist vera satt, vondt målesni gott og rett, snúa út úr og umsnúa svo ollu, einkum vid målasóknir, laganna ordum, ad einúngis rånglæti og dygd yrdu metin, sem rettur og skylda, hvar med þessara Vitringa (Sóphista) nafn vard eins hatad og vanvyrdt, eins og þad ádur — á medan þeir kenndu sannann visdóm og dygd — var allstadar tignad.

Þetta rann Sókrates, sem sonnum Vitríngi og dygdugum manni, til rifja. Hann umgeckst ydugleg allar Stettir med gladværd, hógværd og gódsemd, til þess ad kynnast og komast ad almennings brestum og þorfum, og rjedi því af ad offra tíd, ydn og æfi sinni til ad innræta monnum dygd og skyldurækt, vyrdíngu fyrir løgunum og þeirri ædstu Veru, um hverja, hennar dyrkun og manna ásqvordun og skyldur hann hafdi myndad sèr vissari og håleitari þánka, enn nockurr heidinn Spekíngur fyrr eda sídar. Hann kenndi: „Ad hin ædsta Vera, edur Gud, enn þótt „ósýnilegur, sæist gloggt í verkum hans, sem „undir eins vitnudu um hans tilveru, hans „visdóm og gódgjornu forsjón. Hyggid ad,„— sagdi hann í samrædum sínum vid Aristodemus og Euthydemus — „yckar egin sál stjórn„ar yckar líkhama ad vild sinni, og þad má „sanna yckur, ad sú ædsta stýrnjandi Vera

„yfir öllu skopudu, rædur eins ad vild sinni
„öllum hlutum. Fáid þid smindad yckur,
„fyrst yckar augu fá adgreint fiarlæga hluti, ad
„Guds auga megni ecki í sama vetfángi ad
„yfirlíta allt? eda, fyrst yckar sál ofirvegar
„ástand og athafnir í ymislegum löndum, ad
„Guds vísdómur megni ecki allt í einu ad
„granskoda allt, sem skédur í öllu skopudu?
„Sá er náttúra Guddómsins, ad hann sjer
„allt, heyrir allt, er allstadar nálægur og sífelldt
„rádur fyrir öllu, sem skédur. Hann, sem
„nidurskipar og stjórnar öllu; hann, sem er
„uppspretta til alls, sem nefnist gott og ágætt;
„hann, sem midt í ymislegum umbreytingum
„hlutanna vardveitir Náttúrunnar óveikrann
„gáng, og hvers legum allar verur eru undir-
„gefnar; hann, þessi ædsta Vera, enn þótt
„sjálfur ósýnilegur, er samt audsjen í hans
„dýrdlegu verkum. Lærid því af skopudum
„hlutum ad vidurkenna ósýnilegt almætti og
„ad heidra Gud."

„Þessi sama guddómlega forsjón" —
kenndi hann enn framar — „sem stjórnar öllu
„Skopunar-verkinu, elur sérlega önn fyrir
„manninum, hvern Gud mindadi ágjætari
„ödrum dýra tegundum, og særann um ad
„þeckja og dýrka Skaparann. Vilja sína
„birti hann bædi med Náttúrunnar eilífu lög-
„um og samvitskunnar ádvarandi röddu, líka
„med spádómum og kraptaverkum. Fyrir
„þessum allstadar nálæga og alvitra Gudi ber

„manninum ad blygdast, dyrka hann med
„þeim trúarbragda sidum, sem lög sérhvers-
„lands fyrirskipa; en þó helzt med heilagu og
„dygdugu framferdi ávinna sér Guddómsins
„hylli."

Auk þess ædsta Guds heldt Sókrates adrar ágætar Verur edur hærri Anda (Engla) til vera, hverjir, sem undirgéfnir erindisrekar Guds, styrdu Náttúrunnar mikla ríkis vidburdum, og einkum gegnudust manninum margvíslega; þessar gódgjörnu Verur vildi hann því láta elska og heidra og blygdast fyrir þeirra ósýnilegu nálægd. Einkum rædði hann opt um vissann Anda (Genius), sem smámsaman birti honum hid tilkomanda og varadi hann vid vondu og skadlegu. Ad sönnu er þad líklegast, ad hann med honum meint hafi einúngis þann guddómlega krapt hjertans skynsemi manna, med hennar vondudu dómum edur samvitskunnar hugvekjum, ad fá adgreint rétt frá raungu, gott frá illu; ad hverrar stjórn og bendingu Sókrates og alla æfi lagadi allar athafnir sínar, samt er ecki ad fortaka, ad hann hafi eignad þær advaranir innblæstri einhvers sér géfins Verndar-Engels, hvern Gud hjeti sér, sem fleitum, birta óordna hluti, hvers vegna hann og rédi til ad géfa spásögnum gaum; hefir þad og verid mörgu Stórmenni tamt, sem fundid hefir kall sitt til framqvæmdar merkis hluta á jördu, einkum í trúarbragda efnum, ad halda sér þar til send-

ans Styrktar-Engil af Gudi; en hér fann Sokrates sitt kall vera, med krapti og stødugleyndi ad leida villuráfandi medbrædur sína til verdugri Gudsþeckíngar og dýrkunar med dygdugu líferni, og til apturhvarfs frá løstum og gudleysi.

Hann kenndi, eins og ádur er ávikid: ad hverjum vitrum manni bæri ad dýrka Gud, samqvæmt átrúnadar sidum og løgum síns lands; kenndi þó miklu rettari átrúnad enn ádur, og gjørdi ræka marga dikti almúgans um Godin. Vildi þarámót ei ekki Ceremoniur eda sidi í Gudsdýrkun einúngis sem útþýdandi teikn fyrir sansalega menn, til ad leida med gudrækilega tilbeidslu einfaldra, en þó hjartans hreinskilni og gódann tilgáng ad vera markverdust vid alla gudrækni; og þar hann var sannfærdur um veikleika mannlegrar skynsemi, til ad sá grublad til gagns útí Guds veru, hvad dæmi gerrgátna fyrri Spekinga um uppruna allra hluta vottudu honum, vildi hann med varúd og lotníngu láta tala um Guddómsins edli, en matti annad hjal þar um syndsamlegt og fliflsku eina, einkum þá trúar-dikti, sem eigna Gudi mannlega breiskleika og lesti, og eins þá svo nefndu Speki, sem rakti uppruna orsakir alls svo lángt, ad Guds tilvera þar med gjørdist efasøm.

Eins skynsamlega dæmdi hann um krapt Bænarinnar, sem er svo mikilvægur hluti af Guds-dýrkun; því ecki sleppti hann þeirri

drottnandi hjátrú, sem vonadi med audmjúkum fagurgala, fögrum heitum og fórnum, ad fá sér afrekad hylli Guds, edá med særingum Anda ad fá umbreytt þeim óraskanlegu Náttúru-lögum. Hann bad þá allsstadar nálægu Forsjón, sem veröldinni stýrir, vegur og úthlutar kjörum manna, en aldrei um neitt sérlegt edur án forords, en fól óskir sínar Forsjónarinnar vilja þanninn: „Gud! vyrdstú ad gefa „oss ávalt þad, sem er sannarlega gott, þó „vér beidumst þess ekki; en afstýr óheillum frá „oss, eins þó vér af fávitsku beidumst þeirra.“

Mannlega sálu adgreindi hann verulega frá líkhamanum, og hélt hana nátengda Guddóminum, ekki vid hlutdeild sömu veru, heldur vid násvipada líkingu. Manninn hélt hann bera lángt af öllum ödrum dýrum vegna skynseminnar, og ad gódir menn lifa mundu Andanna lífi eptir daudann og medtaka umbun dygda sinna. Þó vyrdist hann ekki fullviss verid hafa um þetta, en sú huggun, sem hann gjördi sér vid yfirvegun síns dauda, vyrdist samt grundvöllud verid hafa á trú hans og von um ódaudlegleika. Ciceró segir hann trúad hafa: ad mannleg sál sé af guddómlegu undirstödu efni, sem, þegar hún skilur vid líkhamann, hverfi aptur til himins, og ad sú ferd þángad verdi þeim audveldust, sem í lífinu mestum framförum hafi tekid í dygdum. Þar á mót skeytti hann alls ekki Skáldanna nístárlegu og ótrúlegu diktum um Nedri-bygdin




og þegar hann einusinni var spurdur: hverssu ástadt mundi þar? svaradi hann: „hverki „kom eg þangad nockurntíma, né sann „neinn þadan kominn."

Sókratis Sida-lærdómur allur var bygdur á óbifanlegum grundvelli heilagra trúar-bragda. „Fyrsti grundvöllur til dygdugrar „breytni, og sem nær til alls mannkyns, eru „— sagdi hann — Guds løg, og enginn vikur „ad ósekju frá þeim. Opt tekst ad skjóta sér „undan hegningu eptir mannlegum løgum, „en engum vinnst ad vera ránglátur eda ó-„þacklátur án þess honum sé hegning viss; „af hverju eg ræd, ad þau sakalog sén gefin af „ædri Løggjafara enn monnum." Allar þjód-ir og menn, vill hann segja, hafa innvortis til-finníngu um rétt og órétt innplantada þeirra samvitskum af Gudi, hann hefir og med sjálfri náttúru manna sameinad þær afleidingar dygda og lasta, sem enginn fær undan komist; því eru oll Guds bodord gædskurík og verulig farsæld, ætíd sameinud dygd og visdómi: en vís-dómur sé, ad þeckja, heidra og æfa dygdina: ánægja fylgi þeirri æfíngu fortakslaust og þess vegna farsæld, og því sé einúngis rádvandur madur sæll, en engin sonn sæla annars bundin vid aud og eignir; sé því fásinna ad reyna til ad skilja þad sundur, sem Náttúran eins ná-qvæmlega hefir sameinad, eins og dygd og farsæld.



I stad þess ad grubla til hlýtar yfir uppruna hins vonda í heiminum, qvad hann af villu þeirri, sem skilníngarvit manna leida þá í, med skockum áminndunum og raungu áliti hlutanná, sprottna alla þá fordóma og hjátrú, sem blinda skynsemina, svipta viljann frelsi og gjora manninn tilhneigíngunum ánaudugann, „en — sagdi hann, „birti skilníngiun upp, hverfa mis„skilníngarnar; dygdin verdur inndæl, löstir „vidbjódur. Hann upplýsta mann leidir sann„færing til dygdar, til rjettvísi; því hann veit „annara heill og fullkomnun sinni egin samfara; „til hófsemi, því hann sjer vellystanna hættu„legu afleidíngar, og til gudhrædslu, því „hann þeckir undirgefni sína vid Gud og skyld„ur þær, sem af henni leida." Til egin sidbóta og heilla átti madurinn ad elska hófsemi, forðast svall og óhóf í mat og dryck og klædnadi, vellystir, dramb og ágirnd, halda fýsnum og gedshræríngum sínum í taumi, fara skynsamlega med efni sín. „Pad giörir manninn hraust„ann" — sagdi hann — „bædi til sálar og „líkhama, ötulann og duglegann til starfsemi, „ástsælann og vyrdtann í lífinu, en heidrad„ann og saknadann eptir daudann." Rjettvísina ljet hann innibinda allar skyldur mannsins vid land og lýd; þacklátsemi vid Foreldra og velgjordamenn; lotníngu fyrir landsins lögum og þess Embættismönnum; ráðvendni og gódvild í framferdi, eins vid fjandmenn og vini, hvad Sidalærdóms kennendur fyrir og

nockrir eptir hann þó aldrei kendu, heldur toldu hefnd med dygdum og hógværd sinnisbrest. „Enginn má áreita annann" — sagdi hañ — „því verra miklu er ad gjöra enn ad líða „óréttinn. Þjódirnar láta strid skéra úr „þrætum þeirra, en login ein ega þad ad gjöra „medal Borgaranna, svo öllum verdi óhult."

Þetta var höfud inntak hans sidalærdóms og hefir aldrei nockurr heidinn Vitríngur haft hreinni og háleitari þánka um Gud, Manninn og Skyldur mannsins enn Sókrates og hañ innsiglaði líka þenna sinn lærdóm med samsvarandi frábærlega dygdugu líferni og merkilegum dauda. Í stuttu máli: hann var eins og hans vitri og dygdugi Lærisveinn Xenóphon lýsir honum: „svo gudhræddur madur, ad „hann eckert tók sér fyrir, nema hann tæki „Gud med sér um þad til rádaneytis; svo „réttvís, ad hann aldrei áreitti nockurn mañ, „en veitti mörgum mikla góðvild; svo hófsamur, ad aldrei mátti hann neina lystisemd meir „enn dygdina; svo vitur madur, ad hann var „fær um, jafnvel í vandræda-mestu tilfellum, „án annara rádleggingar, ad ráda til þess, „sem hollast og réttast var, og sérlega vel fallinn „til ad styrkja adra med gódum rádum. Ad „sjá menn út, finna ad brestum þeirra, en „hvetja þá til skylduræktar, var honum gefid. „Þar eg — segir hann — fann alla þessa yf„irburdi hjá Sókrati, hefi eg ætíd heidrad hañ, „sem hann dygdarikasta og farsælasta mann."



Heidurlegt er og Cicero's vitni um Sókrates: „ad hann fyrstur manna hafi leidt „Spekina frá himnum ofan á jördina, svo ad „hún bygdi hjá mönnum, og breiddi heill og „blessun út yfir lönd og lýdi;" eins og Plato's Spekings, sem nefnir Sókrates himinfallinn skenk gefinn Athenu mönnum.

Eg minntist þess, ad Sókrates hafdi verid vel laginn til ad sjé menn út, edur þeckja náttúrufar og bresti þeirra af andlitsfalli, hvad og fleirum náttúrufródum mönnum er gefid. Hann hjeldt fagurt útlit optar boda góda sálar eginlegleika, edur ad minnsta kosti hæfilegleika til betrunar; því sagdi hañ vid Xenophon, þegar hann sá hann fyrst í þraungri götu, en honum leitst vel á hann, svo hann lagdi staf sinn þvert um veg hans: hvar fást naudsynjar lífsins keyptar? Xenophon hitadi vid med svar, svo Sókrates spurdi hann aptur: hvar góda og rádvanda menn væri ad finna? enn þá stód svarid í Xenóphon, svo Sókrates svaradi sjálfur til: fylgdú mér til ad læra þad! Vard Xenóphon úr því Lærisveinn Sókratis og aldavinur. Sjálfur var Sókrates mjög svo ófrídur sínum, því sagdi náttúrufródur madur, ad nafni Zópyrus, vid Lærisveina hans: ad Sókrates liti út til ad vera vellystugur og lastafullur; þeir þycktu þad fyrir Lærimeistara sinn og færdu honum þau tídindi, en Sókrates qvad hinn rétt hafa dæmt af útliti sínu, og einúngis skynsemi sína,

og stjórn síns náttúrufars, hafa hvertveggja nidurkjæst. Hann var madur hóſſamur, lifdi heima og eins í heimbodum ætíd spart, gódgladur og skemtinn í samqvæmum, ætíd blídur, jafnlyndur, hógvær og mesti stillingarmadur. Á þad reyndi og sífelldt í hjónabandi hans med sér-gédstyrdri og óstýrilátri Konu, mesta skassi, ad nafni Xantippe, hverr optarst tjáist hann ángrad hafa med heimilis ófridi, sífelldri jogun, þverlyndi og áreitíngum, en enginn sá hann samt nockurntíma skipta gédi sínu eda neinn þyckju svip á áliti hans, en hann áminnti börn sín til hlýdni og þacklátsemi vid þeirra órulu Módur.*) Einhvern tíma misbraut

*) Medal fiölda dæma þar uppá, sem sögurnar telja, nefni eg þessi fáu: Hún elti hann einusinni út í brædi, og reyf af honum kápuna á almanna færi. Vinir hans sögdu slíka medferd óþolandi, og ad hún hefdi átt Lödrúng skilinn fyrir handtakid. „Já," — sagdi hann — „þad hefdi „í rauninni ordid allsnotur leikur og skemtilegur „áhorfendum, hefdum vid hierna farid ad snopp-„únga hvert annad. Eg býst vid ad þid hefd-„ud ordid til ad eggja þann leik og sagt vid ock-„ur á víxl: þar gafstú vænann lödrúng, „Sókrates! — dável hæft, Xantip-„pe!" Þegar hún á annann tíma hafdi spúid út yfir hann öllum þeim brixlum og hádúngum, sem ædi hennar hafdi til, flúdi Sókrates út fyrir húsdyr sínar og settist þar. Vid þad spaklyndi hans æstist hún enn framar svo upp, ad hún rann skyndilega upp stiga, og út um loptsglugga steypti ofanyfir hann úr — Næturgagni. —



þræll hans stórum vid hann og þá sagdi Sókrates: „nú skyldi eg berja þig, væri eg „ecki reidur." Hafdi hann og bedid vini sína ad benda sér, ef þeir yrdu þess varir, ad honum rinni svo í skap, ad sæi á svipi hans eda heyrdi á rómi, þvi þá mundi best ad læcka han eda þegja. Fátækur var hann og opt í þraung, þvi hann vildi aldrei neitt kennslu-kaup þyggja þó honum margbydist, en kenndi ókeypis, þar sem adrir villu vitríngar, honum samtída,

Sókrates hló dátt ad þvi og mælti: „Þess „var öll von ad Þvilíkri skruggu mundi „steypiregn fylgja!" Alcibiades rædde einusinni vid hann um Xantippe, og qvadst undrast, ad hann hjeldist vid í sama húsi undir hennar sífelldu skammaryrdum? „Eg er nú ordinn þeim svo alvanur" — sagdi hann — „ad þær fá engu meira á mig, enn „vagna skröltid á götunum." Svo vildi líka einusinni til, ad honum var rekinn lödrúngur. Hann brosti vid og sagdi einúngis: „Þad er illt ad vita ecki fyrir, nær „hollast muni ad bera hjálm á höfdi „sér." Svo rósamann gjördi góð samvitska hann vid bakbit ofundarmanna, ad þegar vinir hans einhverju sinni nefndu honum til mann, sem talad hefdi hádúngarlega um hann á bak, ansadi hann til: „hann má berja mig „líka, þegar eg er hvergi nærri." Þó hann væri fráleitur öllu ofirlæti og munadarlífi, áleit hann samt þrifnad, hreinlæti og þockalegann búning ad vera skyldu manna, og qvad: „hreina sálu ecki eira í skörnugum „líkhama eda búníngi."

feldu dýrt þeirra afvegaleidandi og ónýtu kénníngar. Ungmenni, ad nafni Æskines, sagdi vid hann: „Æ! Sókrates! feginn vildi eg „hlýda á kénníngu þína, en — eg er öregi „og hefi eckert ad bjóda þér, nema sjálfann „mig og þacklátt hjarta." „Hvi betra" — ansadi Sókrates — „engann stærri skenk gét„ur þú bodid vini þínum." Aldrei vildi hann þyggja tilbod nálægra Fursta í Gricklandi, ad kénna vid Hird þeirra, og ødlast hjá þeim heidur og álitleg laun, en kénndi heldur kauplaust í Athenuborg. Þegar hann komst í þraung, sendu vinir hans honum opt mat og adrar naudsynjar, en aldrei vildi hann af þeim meira þyggja í senn enn hann sparlega komst af med í brád, en skiladi því aptur, sem umfram var. Þegar hann sá í Athenuborg mikid glíngur og óhófs varníng settann fram til sölu, sagdi hann: „margt sje eg mér hér óþarft" (og sama mættu fleiri vídar segja). Þó hann fátækur væri og lifdi á óbreyttum kosti daglega, baud hann samt til bords med sér á stundum tignarmönnum. Þegar konu hans einhverju sinni þókti litid af honum til þess lagt, svaradi hann: „Séu gestir vorir vitrir menn, vyrda „þeir vel, hvad efnin leyfa fram ad reida, en, „ef ecki, er ecki verdt ad skenta því par, því „þegar sumir lifa einúngis til ad eta, eta vitr„ir menn einúngis til ad lifa." Svo var

B



hann sjærlægur drambsemi, enn þótt Pythia, Hofmey Appollins, bæri þad Goda-svar fram: „ad Sókrates væri vitrastur allra manna á „hans døgum," ad hann qvadst „alls eck„ert vita, nema þad eina, ad hann vissi „ecki neitt."

Svo mikill lærdómur og dygd, svo uppbyggileg kenning um hana og sidabót og þad ókeypis, feck ecki annad enn dregid skyluna frá mørgum ádur blindudum augum, synt sannleika og dygd sigrandi yfir løstum og villu í dyrdlegum glansa; afrekad þvílíkum Lærimeistara ódaudlegt løf medal allra gódra og vitúrra manna sídan um allar aldir; betrad uppvaxandi úngdóm Athènu manna, en kastad rírd á hinna Villu-vitrínganna hégómlegu og háskalegu kenníngar. Þeirra álit fór því hrørnandi ár frá ári, eptir því, sem Sókratis heidur vóx. Vinir hans fjølgudu ad sønnu, en undir eins — hvad og tídast er hlutfall afbragds mañna — fjølgudu øfundar- og haturs-menn hans, sem fundu sér halla og vanheidur af honum standa, en brádvandir og vellystugir: ad med lærdómi hans lagdist hapt og hneisa á þeirra munadarlífi. Þegar hann var 46 ára gamall, keyptu øvildarmenn Sókratis gásadann skálk í skaldi, ad nafni Aristophanes, til ad samsetja Gledispil honum til hádúngar, og létu leika þad í Athenuborg, þá fjøldi mikill framandi manna var þángad kominn til Bacchusar hátídarhalda; þad var kallad Skýin, fullt af bitrasta hádi.

og smánunum. Sókrates var aldrei vanur ad vitja Gledispila, en þá kom hann þángad og horfdi á til endaloka med mestu rójemd, athygli og jafnlyndi. Adkomumenn spurdust þá fyrir: um hvern spilid væri samsett? Sókrates vard þess áskynja, stód upp medan spilid var leikid til enda, og sýndi þeim sig, sem þann. Þeir spurdu enn framar: hvert þessi hádúng rinni honum ecki til rifja? „Öldúngis ecki — „ansadi hann — eg íminda mér þetta Spil, „sem opinbert heimbod, vid hvert eg er veit„andi Géstum mínum," en brá alls eckert svipi eda jafnlyndi sínu. Ecki gédjadist mönnum samt par ad Spili þessu, og enn sídur leyfdist þess ítrekan sídarmeir. Sókrates heldt fram kénningum sínum eins eptir sem ádur í 24 ár, og átti þó vid marga ofundarmenn ad skipta; því ofundar eldurinn lifdi alltaf í oskunni hjá óvinum hans. Bædi jafnlyndi þad hann vottadi vid sjón þessa Hádúngar-spils, grúndvallad á gódri samvitsku og medvitund sinna egin miklu verdugleika, og líka ált hans kénnínga og sjálfs hans í Borginni, sem frægasta Spekings og dánumanns; eins nafnfræg Embættis forstada hans, sem Rádsherra og mótstada allra frelsis og réttar undirokara fyrr og sídar, fjölgadi loksins svo ofundarmönnum hans, ad þeir bundu samtök gégn lífi hans, leitudu allra bragda, eptir þad þeir 30 Tyrannar vóru frá völdum, til ad vekja almúg-

 

ans hvild gegn honum. Critias, einn af þeim 30, hafdi í úngdæmi sínu verid Lærisveinn hans, og Alcibiades var ákjærdur um ad hafa spjallad Merkúrii bílæti, og þar med smánad trúarbrøgdin, en framsett til spotts eleusinska helgihaldsins leyndardóma hjá Athenuborg, (sem haldid var Gydjunni Ceres til æru, og þókti einna mest í varid), hvad þá var eignad Sókratis kennîngu.

Þegar minnst vardi, framkom úngur skjalari, ad nafni Melitus, med svarna klógun yfir Sókrates til Hæstarettar í Athenuborg, og vóru þeir Anythus Sútari, og annar ad nafni Lykon Talsmadur, med hana honum samtaka. Hún var svolátandi:

„Melitus Melitus'son frá „Pýthos, áklagar skriflega Sókrates „Sophroniskusson frá Alopeke, „sem sakfallinn ad lógum, þar um, ad hann „ecki vidurkennir þá Gudi, sem landid „dýrkar, heldur innsetur adra nýa Gudi. „Þar hjá um lagabrot med afvegaleidslu „úngdómsins. Hann er því dauda sekur."

Þessi klaga var Rádinu afhendt, og vard Criton vinur Sókratis ad ábyrgjast komu þessa á þíngid í áqvedinn tíma. Anythus Sútari, sem mikid hafdi hjá Borgarlýdnum ad segja, af því hann var ríkismadur og folgdi fast fram afsetníngu þeirra 30 Týranna, sendi Sókrati brádlega bod: ad vildi hann hætta adfinníngum um hegdun sína, skyldi hann ecki ákjæra hann.

— en Sókrates hafdi átalad Anytbusi fyrir ad meina syni sínum lærdóms mentun, af ágirnd einni og meiri ábata-von af, ad halda honum vid sama lélega handverk. — Sókrates ansadi: „Medan eg tóri mun eg aldrei dylja „Sannleikann, né annad mæla enn skyldan „býdur!" Festinum til þíngdagsins vardi hann til lærdómsriks samtals vid vini sína; um allt annad þó enn málefni hans. Hermogenes vin hans furdadi þad, og spurdi: því hann byggi sig ecki undir málsvørn? „Vegna „þess — ansadi Sókrates — ad eg aldrei æfi „minnar hefi þad unnid, sem varnar vidþurfi." Vinir hans og Lærisveinar sáu háskann fyrir og løgdu allt-fram honum til frelsis; rjedu honum ad rýma Borgina til málaloka; nockrir vildu bidja lýdinn ad þyrma lífi hans, og safa atqvædi manna þar um, en Sókrates afbeiddi allt þvílíkt. Mælskumadurinn Lysias setti upp varnarskjal fyrir hann, og beiddi hann kannast vid. Sókrates afsakadi sig frá því og mælti: „Þó þad sé ágætis vel samid, sómir „mér þetta ecki." Hann vildi: ad einúngis sakleysid skyldi frikenna sig, og helt þar hjá, ad Forsjónin nú vildi kalla sig hedan, saddann armædum lífsins.

Þíngdagurinn kom, og Sókrates á þíngid. Hans 3 fyrrnefndu áklagendur héldu rædur gégn honum hverr eptir annann; reyndu med tál-tølum og keyptum ljúgvottum ad sanna, ad hann spillti úngdóminum, en Anytbus einf-

um: ad ætti Trúarbrøgd og Stjórnarforms-brøstud ad vardveitast, pvdi Sókrates, sem Gudneitari og ofríkis-madur, ad rádast af døgum, hvad hann med ákésd krafdi og feck sú ræda mjøg svo á Almúgann. Sókrates vottadi vid allt þetta venjulegt stødugl yndi og edallund, sem grundvallast á gódri samvitsku einni. Vinir hans nockrir héldu rædur honum til varnar, og Lærisveinn hans Plató og eptirfylgjari reis upp til sama, en — á medan hann var ad bidja Réttinn ad umbera fákjænsku síns úngdóms, skipadi Rétturinn honum ad setjast nidur aptur og þegja. En Sókrates þurfti ecki heldur Talsmanns vid. Sjálfur stód hann upp, gladur í bragdi, og héldt fremur ad saga fyrirmælum enn til ad verja líf sitt, med manndómsfullum og tignarlegum rómi, óforhugsada, snjalla rædu til málsvarnar, hverrar heizta innihald var: „Ad hann þá í fyrsta sinni „á æfi hans, fullt 7tugur, mætti fyrir þeirra „Dómstóli, beiddi því Dómendur framar ad „meta gøgn hans og ástædur enn ordfæri, því" — sagdi hann —, „ydar er skyldan ad æfa „Réttvísi; mín ad segja ydur sannleika."

Hann rakti þeim sídan gáng þessara samhanda gegn sér upp frá fyrstu rótum, og sannadi þau ad vera sprottin af øfund einni og hatri þeirra, hverra fáfinnu hann hefdi leidt í ljós, hverra lesti hann hefdi vítt, og ansadi greinilega hverjum ákjæru-pósti í Melitusar ákløgun. Til sønnunar, ad hann enginn Gud-





neitari væri, vitnadi hann til sinna ydugleigu kirkjuferda á helgum tídum. Í tilliti þess, ad hann ákjærdur var um innleidslu nýrra Guda, ad líkindum helzt vegna þess, ad hann qvadst vitranir fá frá ósýnilegri Veru, qvad hann þad enga nýlundu: ad menn leitudu ráds hjá og fengju fyrirskipanir frá Gudum. „En — sagdi hañ — „eg er ákjærdur um afvegaleidslu „og spillingu Athenuborgar Ungdóms; hver- „jum hefi eg þá spillt? hverr sær sýnt eitt „einasta dæmi þess? Hér sje eg marga til- „heyrendur og vini mína, komi þeir nú fram „og vitni mót þeim, sem leiddi þá afvega! „en hlífist þeir vid þad af vordingu, sem þeir „máske enn bera fyrir mér, því kresja þá ecki „Fedur, Brædur og Frændur þeirra laganna „hefnd yfir mér? því kallar Melitus þá ecki „hér fyrir, sem vitni? — efalaust veit hann þá „hingad komna, ecki til ákjæru, heldur til vatn- „ar mér."

„En — Melitus og Anytus fá mig ecki „felldann med þessari klögun. Samt má eg „vel falla, sem aðrir, fyrir hatri þeirra óráð- „vandu, frá hverra fásinnu og löstum eg á stund- „um skyluna dróg. Ofund þeirra hefir svo „margann ágætann og gódann mann fellt og „mun enn fleiri fella, því hversu má eg vona „þess, ad vondska þeirra verdi fullsödd med „mínum dauda?"

„Mér er dável kunnugt, ad ofund og hat- „ur óvina mína einkum dafnadi vid auglýsingu



„Pythiu Hofmeyar á þeim helga Goda-dómk-
„ad eg væri vitrastur mér samtida manna—
„(en vid þetta urdu Dómararnir hams-
„laussir), og ad eg sídan hefi med því ad eyda
„hjátrú, smelpa hræsni, lækka dramb manna,
„ablad mér margra ómildra ofsókuara, en—
„eg hefi miklum ærinnar hluta varid til ad
„uppgøtva sannleika og frama upplýsingu; því
„hygg eg vera mitt kall og verk, sem Forsjón-
„in fól mér á hendur hér á jørdu. Eins og
„eg í strídinu ætíd trúlega gætti þess, sem vor-
„ir æruverdu Herforingjar budu mér, eins þó
„líf mitt í háska stædi, svo skal eg aldrei held-
„ur bregdast í því kalli, sem Gud fól mér
„ydar á medal, annars mætti eg blygdast og
„byrda sjálfann mig."

„Þó þér, mínir Dómarar! vildud í dag
„frikénna mig med skilyrdi: ad eg framvegis
„þegja skuli, mundi eg svara: ad sønnu elska
„eg ydur og virdi, en— Gudi ber mér
„framar ad hlýdnast enn mønnum. Á
„medan eg lifi og anda dreg, skal eg ecki þagna,
„en ávarpa hlutadegendur, sem ádur þanninn:
„Skammist ydar, þér Athenu menn! ad sýk-
„jast eptir audi og metordum, svo ad þér skeytid
„ecki þeim vísdóms og dygda fésjódi, sem
„tigna og prýda má sálir ydar! med spurn-
„ingum mínum *) skal eg ama þeim svo, ad

*) Þess ber hier ad minnast: ad Sókrates tídast
hafdi þann kennslumáta, ad leida þá, sem hann

„hefr vodni fyrir þær ímindudu dygdir og þau
„einkisverdu gædi, í hverjum þeir leita farsældar.“
„Allt þetta hefir Gud bodid mér daglát-
„anlega ad kunngjöra úngum og gömlum, fram-
„andi og landsmönnum; en þad er ydar sañá
„gagn ad eg hlýdnist þessu heilaga bodordi.
„Þér hafnid því med móthróa Drottins vel-
„gjördum, ef þér látid deyda mig, því varla
„munud þér finna þann, sem med jafnri á-
„hyggju vilji eins einlæglega taka sannleikans
„og dygdarinnar góda málsstad. Því er ydar
„velferd öllu framar enn mín í dag í vedi.
„Anythus og Melitus orka ad sönnu, ad
„klaga mig, og med áburdi þeirra ad svipta
„mig frelsi og fjöri, en skada mig megna

---

fræda edr sannfæra vildi, med mörgum saman-
hángandi spurningum og á stundum laungum ad-
draganda til vidurkenningar þess sannleika, sem
hann vildi þeim innprenta, svo ad svar þeirra
seinustu urdu náttúrleg afleiding hinna og þeirra
vidurkenndu sannindi. Bædi kennsamátann og
innihald kenninganna hafa lærisveinar hans sýnt,
nefnilega: Spekingurinn Plato í Samtölum,
í hver hann þó blandadi miklu af egin hugviti,
og eignadi Sókrati, til þess ad gjöra þau álit-
legri, svo þegar Plato las þessum Tal sitt Lysis
nefnt, kannadist Sókrates ecki vid allt, en mælti:
„Margt lætur þessi úngi madur mig
„sagt hafa, sem mjer aldrei kann í
„húga.“ En vissara miklu hefir Xenophon
frá hverjutveggja skírt í hans ágjæta Riti:
Sókratis Minníngu.

 

„þeir ecki; þvert á mót eru þeir framar annt-
„andi enn eg, þvi, ávalt er sú ógjæfan meiri
„ad fremja illt, enn ad verda fyrir þvi“

„Þad sé fjærri, ad ea mér til frelsis noti
„mér þau meddøl, sem sakbitnir opt vidhafa til ad
„halla Réttinum og vinna þar med mál sín;
„eg ber ósmikla vyrdingu fyrir ydur, mínir
„Dómarar! til þess, ad eg annadhvert sjálfur
„reyni til med tárafollum ad hræra hjörtu
„ydar, eda lídi ad born mín og þessir vinir
„mínir beidist ydar medaumkunar; á Sjón-
„plágum og í Sorgarspilum ber ad vekja
„þvílíkar gødshræríngar med hrærandi afmál-
„unum, sem Skáldin vidhafa; en hérna, í
„þessu Réttvísinnar heilaga musteri á sann-
„leikurinn einn ad mæla fram med sér.— Þér
„hafid allir hátídlega svarid, ad vilja dæma
„løgum samqvæmt, og eg mundi breyta ógud-
„lega, ef eg reyna vildi ad leida ydur til mein-
„særis. Þar eg nú er sannfærdur um til-
„veru Guds, fel eg mitt saklausa málefni
„Forsjónarinnar velþóknun og ydar stránga
„réttlæti.“

Dómararnir, sem ádur vóru fullir af fordómum og óvild gegn Sókrates, vóru flestir af supplóstum almúga, sem skorti hyggindi og vyrdingu fyrir speki, roksemdum og gódu sidgædi, høfdu því gefid þessu fagra forsvari lítinn gaum, hotudu gjarnast Spekíngo, og skeyttu því lítt ad ransaka gogn og roksemdir þessa máls. Nockrir mottu stodugl yndi og hug-

yrdi Sókratis, sem frekju; adrir flerrtust vid hans sanna og verdskuldada lof, sem sjálfshælni. Áklagendur hans tóku enn ákafar enn ádur ad sakfella hann og krefja hans Dauda-dóm. Einúngis 3 urdu þó fleiri til ad sakfella hann um Melitusar ákjæru-pósta, nefnilega alls 281, en 278 frikenndu hann af þeim; en — nú bar ad ákvarda straffid. Melitus krafdi hann, sem Trúarníding, líflátinn, en Dómararnir leyfdu Sókrati sjálfum ad ákvarda straff sitt med því, ad velja um álitlegar fébætur, eda útlegd, ellegar æfinlegt vardhald. Sókrates qvad vardhaldid verra vera enn daudann — en útlægur fengi hann ecki gagnast sínu elskudu Fósturjördu — og ad hann ætti alls 1 mínu (hér um 12 rdla vyrdi) til ad leysa med líf sitt. Nockrir nálægir budu strax fyrir hann 30 mínur (360 rdli) í launsarsgjald, en Dómurunum þókti þetta ofllítid, og þocktust vid Sókrates fyrir einþyckni hans, sem þeir svo mettu. En — nú ljet þessi vitri Öldúngur fyrst í ljósi ad hann fann sjálfur allann verdleika sinn; lýsti þessvegna hátt: ad ef hann kysi sér nockurt straff, vidurkenndi hann þar med sekt sína, þar sem hann þó vel vissi ecki einúngis saklepsi sitt, heldur ad sér bæri, vegna verdleika síns, frí forsorgun á opinberann kostnad í Prytaneo *),

*) Prytaneum nefndist Hallarbygging gjörd á kostnad Ríkisins, í hverri einúngis Öldúngar, sem med fyritaks speki eda frægdarverkum höfdu gagnast



sem velgiörara Födurlandsins. Þessu grömdust Dómararnir enn framar, sem sjálfhælni saka felldz manns og dæmdu hann strax — þá enn fleiri mótfallnir honum enn ádur — til dauda af eitur-dryck *).

Sókrates hlýddi á Dóminn med fullkomnustu stillíngu, og vottadi eínúngis med brosi, vanvyrdu þá, sem hann fann bædi sínum áklagendum og Dómurum hera, en undir eins, ad hann lengst æfinnar hafdi hugsad um dauda sinn. Snérist svo ad harmþrúngnum vinum sínum og huggadi þá med þeirri hugleidíngu: „ad vitur og dygdugur madur, hverki í lífi „né dauda géti ordid ófarsæll, en sín ánægja „væri fullkomin vid yfirvegun. sins umlidna lífs, „því viss væri hann um ad eptiröldin mundi „verda svo réttlát vid minníngu sína ad vidur„kenna, ad hañ hverki hefdi áreitt né tælt nock„urn mann, heldur eydt dögum sínum til ad „gagnast medborgurum med því ad úthýta þeim

landinu, og únglíngar, hverra Fedur höfdu í þjónustu Födurlandsins fallid, vóru forsorgadir á opinberann kostnad. Sókrates þóktist því hafa þetta, edur med ödrum ordum: Heidursmerki, en eckert Straff verdskuldad.

*) Eitrid, sem hjá Athenu-mönnum jafnadarlega var valid til aflífunar sakamanna, var saft eda vökvi af eitradri jurt, sem þar í landi og eins í Danmörku og jafnvel Norvegi, en ecki hier á landi vex, eda er hjer enn fundin, og nefnist hun Conium maculatum, á Dönsku Skarntyde, en á Norsku Flæk-Sleik.

„bleyppis þeim lífsreglum, sem Spekin einn býd-
„ur." En áklagendum og Dómurum sínum
ſpádi hann því, ad vond samvitska mundi bagstát-
anlega brixla þeim og dæma þá fyrir þetta framda
ránglæti og nídíngsverk, undir eins og sann-
gjarnari eptirvöld vitna mundi um sakleysi hans.
Daudinn sjálfur væri honum svo mikill ávinn-
íngur, ad hann qvadst gleyma ránglæti þeirra.
Loksins lyktadi hann sitt tal þanninn: „Nú
„vel! mál er ad halda burt hédan — mér
„til ad deya — en ydur til ad lifa — en
„Gud einn veit hvers ockar hlutfall verd-
„ur heilla-mest."

Honum var sídan fylgt frá Réttinum í fángelsi honum fyrirbúid*), í hvert hann géck med glödu yfirbragdi og sálar hátleika, en med megnum hörmum vina, sem fylgdu honum og grétu forlög hans. Ad þeim snéri hann sér og sagdi: „hví grátid þér helzt í dag? vissud „þér ecki, ad náttúran skóp mig daudleg„ann og ljénti mér lífid med skilordi, ad „eg einhverntíma yrdi ad missa þad apt„ur?" „Ad vísu" — sagdi Apollodorus — „en eg syrgi ad þú verdur saklaus líflát„inn." „Á! svo!" — ansadi Sókrates — „vildir þú þá heldur ad eg dæi sekur?" Á

*) Seneka segir skarpviturlegá, ad á medan Sókrates sat í fángelsinu, hafi þad hús tapad nafni sínu, ad vera vardhald sakamanna, því þá vard þad adsetur dygdar og rádvendni.

 

leidinni til vardhaldsins sá hann Anythus gånga framhjá þeim og sagdi vid vini sína: „Skod„id þer hversu þessi drambsami madur stærir „sig af sigri yfir mer í dag, en ecki skynjar „hann, ad Dygdin ætíd sigrar hennar mót„stødu-menn!“

Í vardhaldinu vard Sókrates strax lagdur í járn og hlecki, en dauddagi hans hefdi þá strax ad borid, hefdi ecki viljad svo til, ad skip þad, sem árlega var vant ad senda frá Athenuborg med offur-fórnir til Godahofsins á Eyunni Delos, sigldi út sama qvøldid; en þad var gagnstædt løgum Athenu manna, ad nockurt daudastraff innan Borgar framfæri medan á ferd þeirri stód. Þetta dróg því fullnustugjørd Dómsins í fulla 30 daga — en sá fyrir hvern annann ad líkindum qvidafulla lánga bid, vottadi enn auglýsara stødugl yndi Sókratis, sem áleit daudan einúngis, sem endir lífsins mædu og umskipti til annars betra lífs. Lærisveinar hans sóktu daglega fund hans og uppfrædingu í hans fángelsi; hann taladi vid þá um edli sálarinnar og ástand hennar eptir daudan og mørg ønnur markverd efni. Þeir komu þángad honum til huggunar, en hjeldu dag hvern heim þadan aptur sjálfir betur huggadir og frødari af hans lærdómsríku vidrædum. Ætíd var hann jafn-gladvær vid þá eins og hann átti vanda til. Í fjærveru þeirra skemti hann ser med ad yrkja ljód, og seinasta qvøldid, sem hann lifdi, orkti hann qvædi til heidurs Guds.

ins Appollinis og Gydjunnar Dignu og snéri í ljód einni Esópusar dæmisögu; svaf sidan sérlega vært um nóttina og fram á dag, ad vitni vinar hans Critons, sem dag hvern vitjadi hans og beid lengi hjá honum morguninn ádur, uns hann vaknadi. Hann skírdi honum þá frá heimkomu skipsins frá Delos, og ad líflát hans mundi ad morgni fyrir höndum. „Í „Guds nafni þá! — ansadi Sókrates — „fyrst sá er hans vilji."

Criton og fleiri vinir hans lögdu þá fast ad Sókrati um ad flýa, eda leyfa þeim ad koma honum undan daudanum; hvárutveggja hafa svo undirstúngid Fángavaktarann, ad vardhaldid yrdi honum opid, og budu honum óhultann stad og undanfæri í Thessalíu landsbygd. En Sókrates afstack þad öldúngis, sem lagabrot og bleydilegt, en spurdi þar hjá brosandi: „hvar sá stadur mundi vera fyrir utan Attíku" — í hverju landsplátzi Athenuborg var — „hvar fólk ecki dæi?"

Þeir beiddu hann samt ad leyfa þetta, vegna vina og barna hans, svo ad þeir fyrstnefndu ecki hefdu varanlegt brixl af, eckert ad hafa reynt eda útrétt til frelsis svo dýrmætu lífi. „Hvad börn mín áhrærir" — sagdi hann — „munu vinir mínir líta til þeirra, svo „mörg vináttu merki hafa þeir veitt mér, ad „eg er þess óqvídinn, þó ber þeim helzt ad „hugsa um siálfa sig — en hvad vini mína á„hrærir, þá vita þeir þetta gagnstædt sinni



„tilsitu og kenningu; með 70 ára dvöl hefi eg
„undirgengist að hlýðnast hér lögunum; en að
„skjóta mér undan því og leyfislaust yfirgéfa
„þetta fángelsi, er rángt og miðar til að um-
„turna þeim og Stjórninni. Eg átti kost á,
„eptir þeim fyrsta dómi, að forða mér, en fann
„það órétt, og qvaðst heldur kjósa mér dauða
„enn útlegð. Á eg nú að brygða orð mín?
„Ega aðrar þjóðir að sjá gamla Sókrates
„landflótta, minnimann og landráðamann til
„að eyða annarsstaðar fáum og vesælum dög-
„um í hrumri elli? Á eg svo að smána minn-
„íngu mína og gjöra breiskleika og sekt lengi
„minnisstæða? Hversu mætti eg þá án blygð-
„unar og samvisku noguaar nefna dygðar og
„réttlætis heilögu nöfn? Verið því rólegir,
„vinir mínir! og leyfið mér með hlýðni að
„halda þá leið, sem Guð bauð mér! en hvað
„dagdóma annara snertir, á enginn að skepta
„þeim par, heldur því einu, sem satt er og
„réttvíst."

Árla morguns daginn eptir komu þeir 11
menn, sem í Athenuborg höfðu umsjón fánga-
húsa og fullnustugjörðar Dóma á saungum, í
varðhaldið til Sókratis, til að birta honum
Dauðadóminn og hans væntanlegu framqvæmd
þann dag, og ljetu um leið, eptir lögunum, leysa
fjötur hans. Árla þann dag vitjuðu líka Vin-
ir hans þangað og funðu þá Xantippe Konu
hans sitja þar fyrir með eitt barn þeirra í
kjöltu sinu. Hún brast í grát, þegar leit þá

og mælti: „Þessi er seinastur fundur þinn, „Sókrates! og Vina þinna" og fêck þá fyrst, rétt sem frávita, megnann sorgar ecka. Hann bad Vin sinn Criton ad fylgja henni strax heim, svo ad hún ecki raskadi ró sinna sídustu stunda. Hóf sídan og heldt allann daginn út lærdómsríkar samrædur og hugleidingar vid vini sína, einkum um Sálarinnar ódaudlegleika, svo alla nálæga furdadi stórum þolinmædi hans og hugprýdi. Kebes Lærisveinn hans frétti hann einkum ad: „hvert ecki væri „leyfilegt þeim, sem ættu vid leidt og armædufullt líf ad berjast, ad stytta sér aldur?" „Nei," sagdi hann, „Gud áqvardadi sér„hverjum sína stödu og verk í þessum heimi; það „á enginn leyfislaust ad yfirgefa, en þarámót vera „ferdbúinn, þegar Forsjónin kallar hédan; því „lángar mig nú eptir því augnabliki, ad Gud kalli „mig. því viss er eg um, ad daudinn flytur mig til „sælla ástands, hvar eg safnast med sælum og ó„daudlegum öndum, og nýt fullnadar sælu. Efa„laust mun sú sama sál, sem var hjá Gudi, ádur „enn líkhaminn vard til, lifa andanna lífi, þeg„ar líkhaminn rotnar, og eptir daudann upp„skera hvad hún med breytni sinni í lífinu nidur„sádi. Fari hún hédan hrein og óflecked, en „prýdd med gódri þeckingu, sem undirbýr hana „til eilífdarinnar, er líklegast ad hún sameinist „þeirri ódaudlegu og vísu Veru, hverri hún



„likist, med hverri hún, frí frá villu og for-
„dómum, frá fjotrum gedshræringanna, frá
„ótta og mannlegum breiskleika, njóta mun
„æfarandi gledi og allrar sælu; en — se þessi
„min von midur grundvollud, gjörir hún mig
„nú samt sælastann manna, burtnemur dauds-
„ans bitru ógnanir, og gefur mér í þessum
„sídustu augnablikum hreinustu gledi. Sá,"
— sagdi hann enn framar — „sem prýdir sálu
„sína med réttvísi, hófsemi og ödrum dygd-
„um, fær rór og gladvær bedid sinnar burt-
„farar stundar. Þegar ydar kémur, gódu
„vinir! skulud þér breyta eins; nú er min fyr-
„ir höndum; eg heyri þegar hans raustu, sem
„kallar mig hedan."

Criton spurdi hann sidan: hvernig hann vildi láta grafa sig? „Eins og þá vilt og
„venjulegt er — ansadi Sókrates brosandi —
„en þid megid sjá fyrir, ad eg skreppi
„ecki úr höndum yckar!" Snéri sér sidan
ad Phædoni og mælti: „Er þad ecki kátlegt,
„eptir allt, sem eg hefi talad, til ad sannfæra
„yckur um, ad eg fer til sælla samfélags, ad
„Criton enn þá heldur kropp þenna, sem á
„svipstundu verdur líflaust lík, vera sama, sem
„hann Sókrates, og telur mig vera sama,
„sem likid mitt? Látum hann ráda fyr-
„ir líkinu eins og hann vill, en ecki vid greft-
„run þess syrgja þad, eins og þar sé hann
„Sókrates kominn."

Sidan

Sídan geck hann afsídis í adra komenitu, til ad lauga sig. Criton fylgdi honum, en vinir hans hörmudu sárlega, ad þeir nú missa skyldu svo födurlegann leidtoga, en verda ad sjá bak honum, sem munadarleysingjar. Hañ kom brádlega aptur frá lauguninni, qvaddi kjærlega sín 3 börn, hverra 2 vóru kornúng, fól þau umsjón sinna edallundudu vina, og lét stúlkurnar, sem med þau komu, fara heim med þau aptur. Ad sólarlagi leid, svo þénari þeirra 11 manna kom og kunngjördi: ad nú væri mál komid til, ad Sókrates renndi út eitur-bikarinn. „Þetta er mjög svo hryggi„legt erindi,“— sagdi hann— „sem lögin „og mitt kall bjóda mér ad útrétta, fyrir „hvad margir og bölva mér, en aldrei sá eg „nockurn fánga votta stödugløndi líkt þínu, „Sókrates! því vona eg þú þyckir eckert vid „mig, eda kennir mér um þína ógæfu. Vær „þeckjum ofvel hennar frumqvödla.“ Hann retti honum nú eitur-bikarinn og sagdi: „Nú „vel! leggdú þig nú í nafni Drottins á „forlaganna vald!“ hann kom ecki meira út fyrir harmi, en geck afsídis til ad gráta. „Já,— ansadi Sókrates— „já, í nafni Drott„ins! eg skal hlýda þínum rádum!— En „hvad gód þessi mannskepna er“— sagdi Só-krates vid hina— „því medan eg dvaldi herna, „kom hann opt til mín. Skodid þid, hversu „hann grætur mig!“



Sókrates tók vid eitur-bikarnum, án þess ad skipta grand litum eda svipi, en spurdi þénarann ad: „hversu hann ætti ad hegda sér, „þegar hann útsopinn væri?" — „Gánga „aptur og fram," sagdi hann, „uns fætur „kólna og úr þeim dregur fjör, en leggjast síd-„an útaf á bakid." Sídan beiddi Sókrates Gud: „ad unna sér sællrar burtfarar frá „þessum heimi," og renndi bikarinn út, án þess ad fölna eda umbreytast par í útliti. Vinir hans allt um kring felldu tár, einkum vard sá úngi Apollódórus, sem allann daginn hafdi grátid, öldúngis óhuggandi, svo undir tók í fángelsinu af harmaveini hans, en Sókrates einn var rólegur og sagdi: „Því grát-„id þér, vinir! qvennfólkid ljet eg frá mér, „svo eg skyldi ecki horfa á breiskleika þeirra; „verid hughraustir, sem vinir dygdarinnar, því „þeim ber ad deya rósamlega og blessa Gud. „Þeim er og daudinn góds viti." Sídan geck hann fram og aptur medan hann gat dreg-id sig, fleygdi sér sídan útaf og þagdi stundar-korn, en mælti sídan vid Criton, og þau vóru sídustu ord hans: „Vér erum skyldugir „Eskulapi um Hana; gleymdu ecki „því heiti!*)" Svo skal vera, ansadi Cri-

*) Med þessum ordum þykir líklegast ad Sókrates hafi viljad þacka Læknisdómanna Gudi — hjá Grickjum og Rómverjum nefndum Eskulap — fyrir lækningu sína, med eitur-





ton, en hvad vilrú framar fyrirmæla? Sókrates dró fötin upp yfir höfud sér, þagdi og gaf upp andañ, þá fullt 70 ára gamall, 400 árum fyrir Krists hingadburd. Criton veitti honum nábjargirnar og kyssti likid.

Þessi vard endalykt ens vísa og dygduga Spekings Sókratis. „Þegar eg les þá sögu" — sagdi Ciceró — „fæ eg aldrei tára bundist." Vinir og Lærisveinar þessa nafnfræga Vitrings hörmudu hann hiartanlega, og veittu hans moldumr sómasamlega útför; en — óttaslegnir um frelsi sitt, fundu þeir samt rádlegast ad lauma sér skömmu seinna undan, þar á medal Plató — en Xenophon var þá í Asíu — til Euklidis í Megara Stad, sem skaut skjóli yfir þá, og hafdi fyrrmeir vogad lífi sínu, til ad heyra Sókratis kenningar.

Ódara enn spurdist sá rángláti daudadómur og líflát Sókratis út um Grickland, tendradist þar allstadar megn gremja og

---

dryckinum, af lífsins meinsemdum. Þeir gömlu offrudu honum helzt Hana. Med ödrum ordum vildi hann segja: Gudi ber oss ad þacka mína lausn! Þessi Eskúlap var sagdur Sonur Apollinis og Gydjunnar Coronidis, og var um hann sagt ecki einúngis ad hann læknad gæti allar meinsemdir, heldur lika heimt dauda menn úr helju; því bar Plúto, sem rjedi fyrir Nedribygdum, sig sárt upp um þad vid Júppíter, og qvad þær mundu audar verda færi þvílíku fram til lengdar.

 

forakt í allra gódra manna hjörtum gegn Athenumønnum, ad svo nafnfrægur Spekingur og Dygda-Kennari skyldi fyrir vitsmuna yfirburdi og rádvendni eina, saklaust og velgjørd vid Fødurland sitt og honum samtída menn, hverja hann svo góđvildarsamlega ókeypis upp-frædđi allstadar ad, falla sem píslar-vottur fyrir ofund og illvilja. Framandi Þjódir og innlendir brigsludu Þeim biturlega fyrir Þvílíka óhæfu í frammi hafda, en lítid vildi Þad stoda. Yfirvøld Athenumanna, ad Þeir med lagasetningu fyrirbudu bædi ad tala og skrifa opinberlega um hans Mál, Því samvitskur Þeirra og ordrómur, sem vard hradskeygur med illar fregnir og dóma Þar um út um allt og land frá landi, Þøgnudu ecki fyrir Þad. Evripides reit Sorgarspil sitt, Pakamedes nefnt, til ad sýna: ad Sókrates hafi verid rádinn af døgum, allt eins saklaus, og Pakamedes fordum (Sonur Nauplii Kongings, einhverr hinn mesti gáfumadur, hvern Ulysses í Trójuborgar strídi ljet med herfilegustu slægd, undirferli og launsvikum saklausann sakfella og grýta í hel, af einberri ofund og hatri, hér um 1215 árum fyrir Krists fædingu). En Þegar Leikari Spilsins med mikilli vidqvæmni mælti fram Þessi ord í Því:

Æ! ydar grimd! til dauda dæma
Dygdugann Vitring, fram sem bar
Saklausast tal og sid heilnæmann,
En sóminn allra Grickja var.




hrucku tår af augum åhorfenda, sem minntust þå strax Sókratis, sem nýlega lifláttins.

Athenuborgar menn, opt illræmdir fyrir sérlyndi, ofund og vanþackklæti við þeirra Forstøkomenn, hverja þeir sjaldan vissu rétt ad vyrda fyrr enn lidna, såu samt brådlega fåsinnu sína og sekt, ad hafa rådid Sókrates af døgum, sem var Borgar þeirrar adal-heill og prýdi og åsamt þeirrar aldar, tóku alvarlega ydrun fyrir þad ódådaverk, hvers rånglætis sorti blasti þå vid fyrir allra augum. Þeir álitu pestar-sótt, sem þå geysadi í Athenu-borg, fyrir gudlega hegningu þess Stadnum senda, og snéru allri heipt sinni ad åklagendum Sókratis; (en Dómararnir vóru þó enn fremur sakfallnir, sem felldu saklausann ærumann svo åstædulaust til dauda). Militus vard frå lifi dæmdur åsamt hinum, en Anythus fordadi sér straffinu med burtstroku úr landinu og lifdi sídan, allstadar smånadur, í æfilaungu útlegdar volædi, og svo geck med fleiri. Allt í borginni vitnadi þå håstøfum um og lofadi Sókratis sakleysi og dygd. Allir soknudu hans innilega; allir hormudu hann sårt. Øll Athenuborg bjóst sorgarbúningi og, ad bodi Yfirvalda, huldist harma-blæum; allir vóru sem frå sér numdir. Allar lærdóms og adrar opinberar æfingar og stjórnar adgjordir hættu um tíma; Dómhúsum og Skólum var lokad. Sókratis flónu Vinir og Lærisveinar vóru kalladir heim aptur. Plutarchus segir: ad allir, sem



att hafi þátt í ad sakfella og ákjæra hann, hafi verid medal allrá Athenumanna svo smánadir, ad enginn vildi gefa þeim eld, enginn ansa þeim, þó þeir spyrdu nockurs; enginn lauga sig med þeim, en hvar þeir hofdu sig laugad, vóru laugarnar þur-ausnar, svo ad vatn þad, sem þeir fóru í, ecki skyldi odrum spilla; hvad allt leiddi fjolda þeirra til ítrustu orvæntingar, svo ad margir styttu sér aldur.

Athenumenn þóktust samt ecki hafa fullbætt fyrir þetta mikla afbrot med straffun Sókratis ofsóknara, heldur ljetu þeir þann nafnfræga Bilætasmid Lysippum — hvern einn Alexander hinn mikli vildi láta smida líkneski sitt eptir Appellis málverki — smida kostuleg-ann heidursvarda úr kopar-málmi og reisa hann upp til æruminníngar Sókratis á einhverjum þeim augljósasta og heidurlegasta stad í Borginni. Þeirra heidrun og þacklátsemi vór svo, ad hún geck nærst átrúnadar lotníngu, þá þeir helgudu honum Kapellu, sem þeir kendu vid nafn hans.

## II. Sancti Pétur Franski.

Játvardur Englands Kongúngur III. hóf blódugt strid, mót Fránkarikis Kongúngi Philippusi VI. af Valois, um þessa Rikis Kó-




rónu, vegna þess ad Módir hans, Drottníng Isabella var dóttir Philippusar IV. Fránkaríkis Konúngs; en Sonur þessa og Eptirmadur, Karl Væni, deydi 1328, og ljet enganu nidja í karlegg eptir sig borinn til ríkis. Brædrúngur Karls Væna — Philippus VI. af Valois — var því kjörinn þar til Konúngs, og hafdi Játvardur III. vidurkennt hann rétt borinn þar til Stjórnar; en seinna yfirþtist samt þetta vafamál, tók Játvardur sér því, árid 1340, ásamt titil, sem Fránkaríkis Konúngur, bætti þess vopna-merkjum vid sín edur Englands, med þessari einkunn: Gud og minn Réttur! en sókti þod strid med svo stakleari heill, ad 50,000 Enskra, undir forustu Játvardar Sonar hans — sem nefndist Blacki Prinsinn (af Wales) vegna vopnalitar hans — þá 16 vetra gamals, felldu vid Crecy í Fránkaríki árid 1346, milli 30 og 40,000 Franskra, þar á medal fjölda tignudustu Adalsmanna, 1200 Riddara og 1400 Yfirmenn, en Enskir mistu vart 100 manns alls, þó Franskra her væri talinn 120,000 manna. Þessi feykilegi munur á beggja mannfalli, eignast einkum brúkun skotelda úr byssunum og alls 4um fallstyckjum, med hverjum enski en ecki franski herinn var útbúinn, því þá vóru byssu-púdur og byssur nýuppfundnar, her um 1340, en fallstycki jafnvel einna fyrst 1346, eda þá í stridi tídkud. Játvardur Konúngur fagnadi mjög þessum

 

frægu sigri, fadmadi Járvard Blacka Prins Son sinn og mælti: „Haldt þú fram, frægt „Sonur! sömu heidurs herför! Þig þecki „eg, sem minn Son, þvi svo frækilega hef„ir þú barist i dag, ad þú hefir vottad þig „verdann Konúngs-stjórnar.“

I 11 mánudi hafdi enski herinn umsetid Stadinn Calais i Fránkariki, sem liggur med sjóarbacka vid rennuna milli hans og Dofra á Englandi, ádur nefnda Helsíngjaport, svo ebluge, ad oll tilraun Franskra med ad koma vista- og lids-hjálp inni Stadinn, kom þeim framar ad engu haldi. Samt vordu Stadarbúar sig undir forustu Greifans af Wienne, þeirra frækna Hofudsmanns, sem mannómslegast. Enskir brutu dag hvern skard i Borgar-múrana, og hugdu sér med komanda morgni ad hertaka hann med áhlaupi, en þá daga tók fundu þeir jafnan vel hladid upp i skordin med nýkra-tofunum. Þegar á annad sumar héldt Járvardur þeim umsátrum fram. Adrar þjódir fysti ad vita endalokin, þvi Enskir rjedust hvad eptir annad á Stadinn, en urdu hvervetna reknir á hæl med manntjóni.

Hvad vopn ecki fengu afrekad, fèck húngrid loksins, Járvardi til sigurs; þvi þegar Stadarbúar hofdu algjorlega lokid ollum ætilegum vistum og fænadi, grófu þeir loksins upp i húngrinu orma og poddur úr jord og rústum, sudu ledur, skinn og illgresi sér til bjargar, en moli af mygludu braudi þókti þeim loksins

mesta sælgæti. I hvílíkri neyd og örvæntíngu gjördu þeir loksins hardt útfall úr Borginni á fiandmanna herinn. Enskir bördust vid þá med miklum hetjudómi, og tóku loksins, eptir blódugar orustur, Hofudsmanninn, Greifann af Vienne, til fánga, en þeir Borgarmanna, sem enn uppistódu, horfudu undan inn aptur í Stadinn. Eptir hertöku þeirra Hofudsmanns vóru ædst vald þar fengin í hendur manni, skírdum nafninu Evstathius Sancti Petur, hverr ad sönnu var af lægri stigum, en gædd-ur sialdgæfri dygd, og fann hann sig skiótt neyddann til ad gefa upp Stadinn, med öll-um hans innbúum og eigum, í Enskra vald, med skilyrdi: ad allir hans innbúar fengju ó-hult burtfarar leyfi.

Játvardur Konúngur, madur skapstór og óbilgiarn, vegna fengins mikils sigurs þá og ádur, bjóst laungu fyrri vid ad fá setst á Fránkarikis Veldisstól, og þvi gramdist hon-um, ad hetjudómur þessara Stadarbúa hafdi svo lengi giört þá von hans ad engu, sárar enn svo, ad hann taka vildi þeim kosti; rjedi þvi af — ödrum til eptirdæmis — ad hefna sin eptir-minnilega, enn þótt hann vildi kvmast hjá brixl-yrdum fyrir grimd. Hann ljet þvi færa þeim þad svar: ad þó þeir allir, sem hardsvíradir landrádamenn gegn sér, sem þeirra sanna og rètta Landsherra, séu dauda sekir, vilji hann samt láta hèr nád meira megna enn rèttinn, og hyrma öllum almenningi, þó med skilyrdi, ad



þeir framseldu sér 6 tignustu Borgarmanna til verdskuldads forlíkunar-offurs fyri þeirra uppreist.

Allir Borgarmenn, sem eptir tórdu í þessum eydilagda Stad, vóru safnadir á torginu og væntu med skélfingu eptir andsvari sigurvegarans; þegar þetta loksins bárst þeim med Sira Walther Manny, dreifdi þad nýrri skélfingu og ángist út medal hvers manns barns, og lýsti náfölvinn í ásjónum allra, ad hverr og einn bjóst vid dauda sínum. Því hverr mátti þar skjóta sér undan fordæmingu? hvern var þar ad framselja, nema foreldri, náfrændur, frægá vini og nábúa, sem svo opt höfdu vogad lífi sínu til varnar og frelsis öllum? Megnt harma-vein og ecki gaus því upp medal fjöldans eptir lánga þögn, líka daudans, uns Sancti Pétur steig uppá litla hæd og ávarpadi þadan mannfjöldann þanninn:

„Ná erum vær, kjæru Vinir! ordnir „hvad lengst leiddir. Annadhvert er nú ad „undirgángast skilmála vors grimma og hreck„jafulla Sigrara, ellegar ad framselja konur „vorar og börn miskunarleysi blódþyrstra her„manna."

„Vér megum glöggt sjá Játvardar til„gáng med þá vægd, sem hann lætst veita vil„ja. Honum nægir ecki ad steypa oss í eymd, „því vill hann gjöra oss seka og forsmánar„lega, en ecki gefa oss líf med neinu skilyrdi „ödru, en ad vér sjálfir játum oss þess överduga."

„Litid

„Litid nú kríngum ydur, gódir Vinir!
„og kjósid þá úr, sem þér framselja viljid til
„slátrunar offra, svo ydur verdi óhult. Hverir
„þessara mundud þér girnast áqvardadann til
„píntínga, undir bödulsins exina eda til heng-
„íngar í snöru? Er nockurn ad finna medal
„vor, sem ecki hafi vakad eda barist eda særst
„ydar vegna? nockurn, sem alla þá skélfilegu
„lángvinnu umsátra tíd út, ecki hafi þolad þú-
„sundsinnum þjáníngarmeiri qvída og ángist,
„enn sjálfur daudinn er, svo ad þér og ydar
„allir mættud enn lifa rósamari daga á ný
„og njóta fridarins heilla? Viljid þér núna
„framselja þá til ad tortýnast, sem heldu vid
„ydar lífi? nei, þad viljid þér víst hverki né
„fáid af ydur. Réttvísi, æra ydar og mann-
„elska munu gjöra þau fjör-rád ómöguleg."

„Hvad er oss þá framar leyft? med hverj-
„ju fáum vér komist hjá sekt og smán á adra
„hlid, en hins vegar eydileggíngu og skélfíng-
„um vid Stadarins rán? Eitt er oss med-
„alid enn þá geymt, nádar-ríkt, ágætt, gud-
„dómlegt og mikid hjálparmedal! Finnist þá
„nockurr hér, hverjum dygdin er lífinu dýr-
„mætari, bjódi hann sjálfann sig fram til
„offurs fyrir frelsi medborgara sinna! hann
„mun ecki sakna blessunarríkrar velþócknunar
„þess Volduga, sem framseldi sinn eginn Son til
„mannkynsins endurlausnar."

Þanninn mælti hann. — Djúp og almenn
þögn vard samt andsvarid. Hverr og einn

 

frygndist um kring eptir dygdar og edal-lundar eptirdæmi, sem hann vildi ad einhverr þá yrdi fyrstur til ödrum ad bjóda, sem hann eñ skorti uppburdi nóga sjálfann til.

Loksins tók þessi sami Sancti Pétur svo til máls á ný: „Skomm mín væri — sagdi hann — „ad beidast þess offurs af ödrum, „hjá hverju eg sjálfur vildi hlidra mér; en „eg áleit mér ecki sóma, ad svipta neinn for-„rétti þeim og heidri, sem fortakslaust fylgja „mun þeim, sem vid svo nistárlegt tilfelli yrdi „fyrstur til fríviljugur ad bjóda sig hér „fram; þvi ecki efast eg um, ad hér munu „margir allteins fúsir og eg eda framar mér, „til ad keppast um þessa píslarvættis kórónu. „Líklega aptrar þeim annadhvert einber sid-„semi ellegar ótti, ad verda haldnir metnadar-„gjarnir eda gortsamir, vilji þeir verda ödrum „fyrri til ad láta nú dygd sína í ljósi.“

„En — í raun réttri gefur sú vyrding, „til hverrar herteckning vors ógæfulega Greifa „af Vienne, hefir mig upphafid, mér rett nú „ad verda fyrstur til ad bjóda fram líf mitt „fyrir ydur, og þad gjöri eg med gledi. — „Hverr verdur þá nærstur mér til þess?“

„Sonur ydar!“ — kalladi úngur mad-ur í hópnum upp, midt í æskunnar besta blóma — „Æ! þá, barnid mitt!“ — qvein-adi Sancte Pétur hátt — „á eg þá tvisvar „ad verda framseldur? — Onei! eg gjet „þig nú ölIu heldur í ödru sinni. Ar þín

„ eru enn þá, en fullgjörd, Sonur minn! slát-
„ runar-offur hvert, sem dygdin framberdur,
„ hefir því ytsta og ædsta takmarki lífsins nád.
„ En hverr verdur svo til nærstur? gódir Vin-
„ ir! þessi stund er hetjanna stund? — Brædr-
„ ungur þinn — sagdi Jóhann frá Aire. —
„ Náfrændi þinn — hrópadi Jakob Vissant.
„ Ættingi þinn! — kalladi Pétur Vis-
„ sant upp."

Nú hrundu tár ofan vánga þess enska Sira Walthers Manny's, sem hlyddi á, og kalladi hann upp: „æ! ad eg nú væri einn af „ Calais's Borgarmönnum!" Enn þá vantadi samt hann 6ta þadan og vard loks ad draga um, hverr sá vera skyldi, þared fjöldi manna baud sig þá fram og hverr keipptist vid annann um ad ödlast þann sóma.

Ad því búnu vóru Borgar-lyklarnir afhendtir Sira Waltheri Manny, sem tók med sér þá 6 fánga, ljet Portunum lúka upp og sól fylgd sinni ad leidbeina hinum Borgarmönnunum med ættum þeirra út og í gégnum herbúdir Enskra. Skedi þetta þann 3ja Aug. sama árid, edur 1346.

Adur enn útförin hófst, beiddust borgarmenn leyfis ad qvedja þeirra Frelsara. En — hvílíkur vard sá skilnadur! hvílíkt þad sjónarspil! Fólkid flycktist utan um St. Pétur med konum og börnum, og um Medfánga hans, fadmadi þá ad sér og hjeldt sér fostu, fjell þeim til fóta, snöckti, veinadi hástöfum, og sama n-



ad harma og ástar qvein allra heyrdust gløggt út um Stadar-portin gégnum allar herbúdir Enskra.

Nú vjedu Enskir í hvad í Calais mundi framfara. Ómur þessara veina mýkti allra hiortu til medaumkunar. Hverr Dáti (hermadur) tók til matarbita af eginn kosti sínum, til ad fagna med þeim húngrudu Borgarmønnum, og hlódu þeir þá loksins med svo miklum vistum, sem þeir, þá mátrdregnir mjøg ordnir, borid fengu, svo ad þeir á ferdinni kjæmust ecki í þraung.

Loksins leiddi Síra Walther fram St. Pétur og medfánga hans undir vardmanna gætslu. Allir Enskir þustu nú á augabragdi út úr herbúdunum og hverr Dáti hljóp allstadar ad inní her-radir þeirra, til ad skoda þenna litla hóp kappa og Fødurlands vina, já, granskoda þessa menn og dádst ad þeim. Bádumegiñ hneigdu radirnar þeim eptir því, sem þeir gengu hjá, tautudu fram lof þeirra fyrir svo staklega dygd, hverja þeir eins hjá fjandmønnum heidra máttu, en álitu snøru þá, sem þeirra hálsum búin var, ad eginn frivillja þeirra í slíku tilfelli, sem teikn ædri verdugleika øllum Riddara-ordu-rødum fremra.

Undir eins og Játvardur Konúngur leit þessa, spurdi hann Manny: „eru þessir þeir „tignudustu af Calais's Borgar-mønn„um?“ — „Pad eru þeir víst, nádugasti Herra! — ansadi Manny — og þad ecki ad

sins í Stadnum Calais, heldur í öllu Fránkaríki, se dygdin annars sannur adall. — „Voru þeir fridsamlegá framseld„ir? var enginn mótþrói, eckert upphlaup „medal fólksins?" — Alls ecki — nádugasti Herra! — allt fólkid hefdi fyrr látid líf sitt, enn þad hefdi nockurn einn framselt; en þessir hafa frívilíuglega bodid sig fram, og eru nú hingad komnir til ad útgreida hid dýrkeyptasta lausnargiald fyrir mörg þúsund manna, med þeirra egin höfdum. Jádvardur bistist heimugleaa vid þetta svar, en þeckti samt forrétt friálsra Þegna Stór-Bretalands í svörum, og vard ad seckja gremju sína yfir þessu svari.

Reynslan — sagdi hann — hefir hvervetna kennt, ad mildi er til einkis annars enn ad lada fólk til nýrra afbróta. Því er harka allopt oldúngis naudsynleg til ad halda mönnum í taumi, en án straffa og fælandi eptirdæma, verdu lögin smánud. Far þú — sagdi hann vid einn Hundradshöfdingjanna — og leidtu menn þessa til aftöku uppá pallinn — ydar mótþrói — sagdi hann enn framar, og sneri sér ad Sancti Petri — gegn mér, sem rettbornum Arfa ydar Konúngsríkis, vard enn miklu saknæmari vid ydar nú vottudu ofdirfsku og spottun valda minna. „Vær beidumst „einkis af ydar Hátign" — ansadi Sti. Petur — „nema þess, hvers þer ecki faid



„ oss sinjad. Svo sem hvers? — spurdi Játvardur — „ Ydar heidrunar, nádugasti „ Herra!" — sagdi Sancti Petur — og heldt ásamt medfaungum sinum burt þadan til aftokustadarins.

Rett i sama vetfángi gall vid mesta fagnadar-hróp med ysi og hávada um allar herbúdir Enskra, vegna þess ad Drottning Játvardar Konúngs, ad nafni Philippa, sem i fiærveru þessa rikti á Englandi, hafdi med enskú herlidi unnid sigur á Skotlands Konúngi David, hverr 6 vikum eptir Enskra sigur sama árid vid Creci (sjá bls. 41), ódd med herskildi uppá England, en hún hafdi þá tekid hann til fánga og kom nú med oblugt hjálpar-lid ad herbúdum Játvardar Konúngs. Sira Walther flaug á fund hennar til ad fagna henni, en slutti undir eins stutta sögu af þeim 6 slátrunar offrum frá Calais, sem lífláta ætti samstundis.

Undir eins' og Játvardur med fylgd hans hafdi heilsad Drottningunni, beiddist hún eintals vid hann.

„ Herra! — mælti hún — umtals efni „ mitt ad þessu sinni áhrærir ecki líf fleiña hand„ verksmanna, ónei! þad vardar ómætara „ hnossi enn líf allra Fránkaríkis Innbúa „ reynist, nefnilega: æru ensku þjódarinnar og „ ordsthri mins Játvardar, mins Ektaherra „ og Konúngs."

„ Þes

„ Þér haldid ydur sellt hafa dauda-dóm
„ yfir einum 6 af ydar fiandmönnum, en þeirra
„ lífslát yrdi fullkomnan egin óskar þeirra, en
„ ecki bodords míns Játvardar. Menn þessir
„ hafa hegdad sér gøfugmannlega og tignarlega.
„ Eg verd ad heidra, þó eg ætti máske segja
„ ad hata, þá, undir eins og eg nú misann þeim,
„ ad þeir leyfa oss enga adra hlutdeild í þessu
„ frægdarverki þeirra, enn ad veita þeim ve-
„ sæla, en þar hjá öldúngis naudsynilega fyrir-
„ gefníngu. Ad sönnu fellst eg á, ad þeir hafi
„ til ydar hefndar unnid, þvi þeir hafa tjád sig,
„ sem ydar þrálátustu og hardsóktustu fiand-
„ menn, tálmad ydar sigurvinníngum, neitad
„ ydur þeirri Kórónu, sem ydur þó rettilega ber.
„ En — viljid þér fyrir allt þettad umbuna þeim?
„ láta ad ósk og sedja ærugirnd þeirra, en
„ krýna þá vegseind og eilífum lofstýr? En—
„ þegar þvílíkur daudi vesælla Handverksmañá,
„ hefur upp þeirra heidurs-minníngu lángt yfir
„ mestu kappa, hversu mun hann þá ecki skygg-
„ ja á minníngu míns Játvardar og deyfa
„ glampann af sigurvinníngum hans! mundi þá
„ ecki sagt verda: ad gøfuglyndi og dygd væru
„ einkis vyrdt í augum Breta Kongúngs, þared
„ hann dæmdi þá meñ til dauda, sem áttu hvers
„ manns hrós og heidur skilid? Fyrir þá yrdi
„ aftøku-pallurinn ad vegsemdarinnar sjónar-
„ plátzi, en fyrir minn Játvard ad smánar-
„ innar, og sá pallur mundi sletta bútskafan-



„legum skammar-klicki á nafn hans og sigur-
„vinninaar."

„Nei, Herra! Þenna losstyr mega þeir
„ecki ødlast med tjóni vors. Þó ver ecki orkum
„aldúngis ad svipta þá þeim verdugleika, ad
„hafa med edallyndi sjálfkrafa bodid sig fram
„til offurs fyrir Medbrædur þeirra, megum vær
„samt láta adra verdugleika mæta þeirra, í stad-
„inn fyrir ad láta þá ávinna sér fulla veg-
„semd med þesshättar dauda, látum oss sæma
„þá stór-gjøfum og sneipa med velgjørningum.
„Vegna þvílíks vors gøfuglyndis, mun þeirra
„fyrr fyrnast." — „Þú hefir sigrad! — sagdi
Járvardur Konúngur — „eg er nú sannfærdur
„og se því svo! þeir skulu ecki dræpir — en —
„komi þeir híngad."

Fángarnir komu, en Drottníng ávarpadi
þá med víngjarnlegu vidmóti og blídum rómi
þannin: „Þér innfæddu Franskmenn og Inn-
„búar Stadarins Calais! þér hafid látid oss
„kosta til miklu blódi og audi til ad sækja vorn
„løgmæta arfa-hluta híngad, en hafid samt —
„enn þótt eptir xaungu áliti — breytt í besta
„máta. Vær dáunst ad og heidrum ydar
„hardfylgi og gøfuglyndi, þó oss med þeim hafi
„neitad verid um vorar réttvísu krøfur. Já,
„edallundudu Borgarar! ágætu Stadarbúar!
„þó þér værit tifaldt verri fjandmenn vorra
„Persóna og Konúngs-stóla, hafid þér nú samt
„áunnid ydur alla vora heidrun og góduild.
„Ydar dygd er nú reynd. Vær brjótum sund-

„ ur ydar járn-fjotur, þrlsum ydur ofan af af-
„ toku-pallinum og kunnum ydur þock fyrir
„ þann oss audmykjanda lærdóm, ad saññarlegt
„ fyrirtaks ágæti er hverki í ætt, né metordum
„ eda tign fölgid; ad dygdin ein gefur þá tign,
„ sem laungt yfirgengur Konúnganna, og ad
„ þeir menn, hverra hjortum sá Alvaldi inngef-
„ ur þvílíkar tilfinníngar, eru upphafdir yfir sér-
„ hverja stétt. — Þér erud framvegis frjálsir og
„ fríir menn og megid snúa vid aptur til ætt-
„ manna ydar, vina og Landsmanna, sem ega
„ ydar edallyndi líf sitt og frelsi ad þacka. En—
„ medtakid samt ádur þann vott vorrar heidr-
„ unar, hvern þér egid vel skilinn. Þér meg-
„ id velja um stór-giafir edur heidurs merki,
„ sem Játvardur Konúngur fær ydur veitt.
„ O! ad vær, sem leitum oss ad sonnu frægd-
„ ar, en unnum fyrir þad hvervetna Dygdinni,
„ fengjum nefnt ydur, sem vora og Englands
„ Syni!"

Svo mælti Drottníng Philippa. —„Æ!
„ mitt Fødurland! kalladi Sancti Petur
hátt upp —„ nú skelf eg ollu framar á beinun-
„ um þín vegna! Játvardur hertók einúngis
„ Borgir þínar, en Philippa hjortun!" —
„ Frægi Sancti Petur!" — mælti Drottn-
íng — „ því ertú nú svo nidursleginn?" —
„ Æ! Drottníng!" ansadi hann til, „ veitist
„ mér annad jafn hentugt tækifæri til ad deya,
„ mundi eg ecki syrgja framar, ad eg nú lifdi
„ á þennann dag."

# III. Mikill Ældur af litlum Neista.

Frlöndin og Stadirnir Genúa og Feneyar (Venedig), liggja efst á Vallandi, þessar austanmegin þess, edur vid nordvestanverdann Fenedi-botn (adriatiska Hafid), en Genúa nordvestanverdt vid Valland og vid haf-vik, sem nefnd er eptir Stadnum. Bædi þau Frlönd blómgudust snemma á öldum vid kaupverdslum, hverja Stadir þeirra færdu mjög út um allar Nordur- Sudur- og Austur-álfur heims, og nyttu sér á fyrri tímum, ad Norduralfu-búar adrir skeyttu þá litt eda þecktu störverdslunar ardsemi og fyritaks medal til veldis og velmáttar auka. Þessir Stadir bygdu sér því fjölda kaupfara og herskipa til varnar verdslun, siglingum og veldi þeirra á hernadar tímum og fyrir víkingum, en færdu Norduralfu-búum mestar naudsynjar þessara bædi úr Afriku og Asíu, ádur enn Vestur álfa heims, árid 1492, fundin vard; skeyptist þá hvert þessara Frlanda vid hitt med þanninn ad leita sér fjár og frægdar. Genúa og Feneya Stadir stofnudu miklar kaupverdslunar-búdir og bólfestur í öllum þá þecktum Heims-álfum. Þeir áttu þvílíkar eigur og voru-byrgdir miklar í Akursborg (Acre) á Sýrlandi nálægt Jórsölum, hver höfn hentug þókti til verdslunar á Sýrlands ströndum, því rúmgód var höfn í Akursborg. Þeir eignudust loksins allann þridjúng hennar,

og liside þar fiölmenni frá bádum Stödunum: eptir lögum, sem gengu í Genúa og Feneyum, hvadan fólk þetta upprunnid var og þessum undirgefid.

Mismunur laga og sida og misgefin verdslunar heppni hverra fyrir sig, hvad þó fágætt er medal Kaupmanna, vakti alls engar óspektir medal þeirra, en þeir lifdu saman um lánga tíma í besta samlyndi, eins og þeir væru hverjirtveggja hin sama þjód, og beggja heillir þeim sameiginlegar. En — þar venjuleg óspekta tilefni medal manna fengu ekkert kif qveikt millum þessara tveggja þjóda, brá því meira vid ad sjá þær herbúgjast hér um árid 1258, hverja gegn annari vegna hégóma eins, sem undir eins vyrdtist fáheyrt hernadar efni.

Tvo manntetur af argasta skríli, annad frá Genúa, hitt frá Feneyum, sem drógu fram líf sitt med því ad bera varnings bagga fyrir Kaupmeñ á milli hafnariñar og varnings búda, komust einusiñi í ordakast saman nidur vid höfnina um nockra vöru bagga, sem þeim var bodid ad bera á milli. Þeir skömmudust þar lengi og flugust loksins á. Kaupmenn flycktust strax utan um þá til ad gamna sér vid deilur og stimpíngar þeirra, og tóku loksins þátt í þessu þrasi svo, ad hverr veitti lid landa sínum. Meñ urdu þar brádir og börduft, særdu hverr annann og skemmdu, en báru sig þúnglega upp um þessar árásir eptirá bædi í Genúa og Feneyum. Yfirvöld beggja Stadanna sættust á,

ad bætur hæmu fyrir skadann, eptir mati flestra gjørdar-manna, sem til þeis urdu kosnir tvíd-ir eins. Genúu menn urdu þá undir og dæmdir til meiri útláta enn Feneyíngar, en vóru samt tregir á ad lúka skadagjøldin. Feneyíngar eirdu hinna brygdmælgi illa, og rjedu af ad ná sjálfir rétti sínum; yfirféllu þvi hvørum øll Genúínga skip, sem láu þar á Akursborgar høfn og brenndu þau upp. Genúu menn vildu sama í frammi hafa til hefndar vid Feneyínga skip, en þeisir gættu þessara svo vandlegá, ad hinna áform tálmadist, en í nýann miklu blódugri bardaga enn ádur sló útaf þessu vid høfnina.

Stadirnir Genúa og Feneyar tóku sídan taum Kaupmanna sinna. Bádir gjørdu út álitlega herskipa flota, en Genúíngar báru ósigur af þeirra bardøgum og urdu knúgadir til ad yfirgéfa kaupverdslunar bólfestur sínar í Akursborg, hvar Feneya menn umhverfdu hinna húsum øllum og kostulum og gjøreyddu þeirra vøru-byrgdum. Genúíngar urdu hamstola vid þann ósigur, en vørdu øllu, sem orkudu, til ad koma nýum herflota út til ad rádast á ný ad Feneyíngum. Hvert Borgarmadur baud sig og eigur sínar fram til ad hefna grimmilega þessarar smánar vid þeirra Fødurland, en Feneyíngar, sem fréttu af hernadar útbúníngi hinna, bjuggust sem oblugast til mótvarnar. Hafþøk urdu af herskipum beggja, sem bordust med mikilli grimd og felldu margt manna, en bádir

mistu þar vid fiölda bestu Borgarmanna. Loksins urdu bádir, eptir lángvinnt og blódugt stríd, ur hverju þeir báru einbera smán út hýtum fyrir ad hafa stofnad þad útaf smámunum einum, leidir og þreyttir á því og sömdu ófrægjann frid.

## IV. Bontekú's Ferd til Austindia, Arid 1618—19.

Vilhjálmur Isbrand Bontekú het Skipherra nockurr Hollendinga, sem þann 28da Dec. 1618 let út med hagstædu leidi i fyrstu frá eyunni Texel vid Holland á leid til Austindia, med Stórskipid Nyahorn nefnt, hverju hann stýrdi; bar þad 550 lestir vöru, en 200 farmanna töldust med því.

Þegar þeir lögdu fyrir vestasta oddann af Englandi, sem nefnist Landsendi, skell á þá hastarlega feykna ofvidri, svo skip þeirra lagdist undir áföll af hafoldum, sem sprúngu á þilfari og fylltu ad miklu leiti efsta skipsrúmid nedanundir. Vær sockvum! vær sockvum! veinudu strax hundrad óp i einu um skipid, og farmenn stódu, sem agndofa af felmtri og úrrædalausir, nema Bontekú einn, sem hljóp um nedsta skipsrúmid til ad skoda, hvert þar væri ecki ólæst lúka, sem sjór fengi runnid um nidur i farm-

inn, en þegar hann eiga svo fann, ljet hann med skyndi ausa sjóinn úr rúminu upp med ledurskjólum, en vegna slíngurs í ósjónum, vard margar kistur og tunnur ad mølva sundur og varpa útbyrdis. Ofvidri med helliregni hvein svo í reidanum, ad enginn heyrdi þar til annars nè fèck fótad sig, og fór svo fram í full 6 dægur; úr því lægdi stórvidrid, skin kom, sem vant er, eptir skúr; en — í ofvidris-lokin sáu menn, ad það lamad hafdi Stóra-mastrid, 5 fadma hátt fyrir ofan Þilfar. — Mørgum brá mjøg svo vid þad; en Bontekú lèt strax leggja upp med því dygra seglstaung, og reira hana fasta vid lamada mastrid, sem úr því halladist ecki. Heldu menn því fullkátir fram ferd sinni, og sigldu fyrir Kanarisku og Grænhøfda Eyløndin, en nálægt Midjardar-línunni gjørdi haf-logn allopt, sem einusinni hjeldst vid í fullar 3 sár-leidinlegar vikur, því framar, sem sólin gengur þar lódrètt upp yfir høfud manna, med steikjanda bruna hita.

Þegar gusta tók á ný heldu þeir áfram, en ofvidri bægdi þeim sídan frá ad ná hofn vid Gódrar vonar-høfda, til endurhressíngar farmønnum, hverrar menn því hugdu ad leita á þeirri frjófsemu eyu Madagascar, sem Portúgisar fyrst fundu, árid 1506, vid austanverda Afriku, og stefndu því þángad; en skjædar sóttir qveiktust þá svo mjøg á medal farmanna, ad 40 þeirra láu sóttveikir, þegar skipid um sídir nádi undir nefnda Eyu, hvar

þó ecki fannst hentugur botn til ad varpa út atkerum.

Bontekú ljet Skips-bát síga ofan á sjó, baud Styrimanninum ad slaga fram og aptur nálægt landi, á medan hann fór sjálfur med nockrum farmönnum til lands. Þó þar reyndist ófærandi fyrir brimi; en þared nockrir Eyarbúar sáust þar vid sjóinn, stöck einn fullhuga farmadur þar út og svamladi gegnum bodaföllin til lands. Ad sönnu lögdu Eyarbúar þar eckert íllt til hans, en enga fregn fieck hann ödlast um höfn eda vista-byrgdir, og svamladi því út aptur til bátsins eptir ónýta erindisgjörd; hjeldt Bontekú því út til skips síns, og rjedi þá af ad sigla til Eyarinnar Bourbon þar fyrir austan í grend, til ad ödlast endurhressíngu, hvad vel tókst, svo ad skipid lagdist þar fyrir atkerum. Allir, sem skridid gátu, drógu sig strax, bædi sjúkir og heilir, úr ödlunum uppá þilfarid og sárbeiddu ad koma sjer í land, sem Bontekú leyfdi; en Kaupmadur Roll, sem stód fyrir sölu farmsins, vildi þó med engu móti leyfa þar landgaungu, af ótta fyrir ad stormar kynnu láta þá reka fyrir atkerum, en mótvindar bægja þeim frá ad ná fólkinu í tíma um bord aptur. Bontekú qvadst þad ábyrgjast mundi, og fór sjálfur med alla, sem missast máttu frá skipinu, strax í land, tók med sjer segldúk í tjald, ýmislegar naudsynjar og áhöld og einn keck. Gladir stigu menn þá á land, litu blómlegar merkur, og sjúkir, sem ad eins veltu sjer

í grasinu, qvádust þegar hálfdata verda vid það. Þar var land hentugt mjog til endurhressing-ar, fullt af trjám, af Dúfum og ødrum fugl-um á heim. Vid sjáar-strendur mergd af Villi-gjæsum svo spøkum, ad sjølda þeirra fengu þeir þar veidt og slegid. Þar vóru og Skjelpødd-ur, sem reyndar eru eins hollar veikum sjófar-endum, eins og ljúffengar átu.*)

Bontekú fagnadi, sjúklinganna vegna, yf-ir svo ágætum endurhressingar efnum, fór um bord aptur, en skildi eptir mann í landi til ad hjúkra þeim. Atkéra-botn fann Bontekú þar svo litt areidanlegann, ad hann strax ad morgni tók ad leita sér upp betri legu og fann hana góda 5 mílum þadan. Sigldi þvi skipinu og flutti í bátum sjúklingana þángad. Skammt frá sjó fann hann þar stoduvatn ferskt, feitar villi-

*) Skjelpøddur, hvar af hin græna (testudo-Midas) telst stærst og best átu, eru af stærsta Pøddu-tegundum og Skrid-dýrum (Amphibiis), sem lifa bædi í vøtnum og á þurru landi. Finnast þær í India-hafi og því ná-lægum løndum. Sú græna getur ordid 4ra álna laung og 2gja álna breid, og vegid 70 til 80 fjórdúnga. Verpir hver árlega hjer um 1000 eggjum á Gjæsareggja stærd; hefir yfrid þycka skjel ofan og nedan, og getur gengid med 7 menn standandi á baki hennar. Kjøt hennar þykir mesta ságæti og er likast kálfakjøti ad smeck og mjøg svo hollt; þess vegna er hún til heilsubótar á laungum sjóferdum, og til stórveitsla í Nordur-álfunni opt flutt þángad af India-førum.

gjæsir, dúfur, Papagøa og fjølda aňara fugla, en allt eins spaka; lika 20 Skjelpøddur á landi, sem láu í skúgganum af stór-trje. Þar hresstí sig fljótt hverr madur vid og skemti sèr margvíslega, sumir med veidum á landi, adrir med fiskiabla, en sudu eda steiktu feng sinn. Eckert var þar ad óttast, hvar sem farid var, því Eya sú var þá enn óbygd, en sídar lögdu Franskir hana undir sig, og 1776 bjuggu þar 6340 hvítir menn, sem hjeldu 26,175 þræla til hennar yrkingar. Þadan koma hær nú svo nefndu bourbonnsku Kaffe-baunir, sem bestar þykja næst arabiskum.

Þegar menn vóru fullhresstir ordnir á þessari Eyu og höfdu flutt vistir nógar um bord, var siglingum framhaldid, en ásett ad koma vid á nærstu Eyu — *Isle de France* — hverju mótvindar tálmudu, svo nú var ferdum heitid til Maríu Eyar, nordanverdt vid stóru Eyuna Madagascar. Þegar þeir nálgudust hana, komu innbúar nockrir í bátum út til skipsins og budu hrísgrjón, hæns og ávexti til kaups fyrir smá glera-rusl, bjöllur, blick-skeidar, hnífa og þesskonar lítilrædi, ljetu og ráda, ad margt mætti meira fá á Eyu þeirri, svo sem kálfa, kyr og saudi. Þar fannst gód lega í hand, var þar því ackerum varpad. Menn fóru til lands og víxludu sèr til handa miklum forda af fyrrtjedum vistum fyrir Nordurálfunnar ymislegt glingur og hégóma prjál. Einhverr farmanna hafdi med sèr Fiól í land og tók ad leika á



Þad fyrir Eyarbúum, vid hvad þeir urdu ræt sem frá sér numdir af fögnudi; stuckú hátt upp, sem frávita, hrópudu upp og súngu. Þeim var færd full skál af víni, en svo hlæilega druckú þeir úr henni, ad þeir stúngu hofdunum ofaní hana, líkt hestum, og svelgdu vínid þanninn upp. Þessir Eyarbúar vóru dock-svartir á lit. Allur þeirra fatnadur var leppur einn bundinn um kroppinn. Ltiñ sem engañ átrúnad þeirra vard vart vid, þó sáust kyrhausar settir uppá stjaka fyrir utan kofa þeirra, fyrir hverjum þeir á stundum fjellu fram á kné sín, líkt sem til bænagjørda. Þarna hresstu nú farmenn allir sig ágætlega vel vid enn þá um 9 daga, og litu þá eins hraustlega út, eins og þegar þeir fjetu fyrst út frá Hollandi. Skipid var þá og fágad og vel útbúid, svo gladir ljettu menn atkerum og hjeldu fram leidar sinnar til nyrra-þeim þá hulinna hornúnga.

Þann 19da Jan. 1619, vóru þeir lengst úti á regin hafi, þegar Skenkjari þeirra, eptir venju, fór med qveikta lykt eda skridbittu í hendi sér ofan í nedsta rúm skipsins, til ad tappa brennuvín á flát úr ámu, og hengdi skridbittuna opna á adra ámu, sem lá ofaná þeirri, er hann tappadi úr. Ad því búnu ætladi hann ad taka ljósbittuna ofan, en svo var hún þá fost ordin, ad orku vard hañ til þess ad beita, og hrøck vid þad einstakur neisti einn úr ljósinu ofan um spons-op nedri brennuvíns ámunnar, sem qveikti svo í brennuvíninu, ad hún á

augabragdi stód í ljósum loga. Skenkjarinn var annadhvert svo heimskur, ad vita ecki fyrri hversu eldfimt brennuvín er, eda vareygdarlaus vid medferd ljóss hjá svo miklu af því á þvílíkum stad, en orgadi strax med skelfingu: bál! bál! og orgid: bál! bál! flaug strax óttalegt allra munna á milli í skipinu. Fjöldi ruddist ofan í skipid og sá med daudans ógnun, hversu brennuvínid logandi sprengdi sundur ámu-botnum og læsti sig í brennandi lækjum strax í steinkola-bynginn skamt frá í sama skips-rúmi. Hverr madur vard sem frávita, nema Bontekú, sem lét reyna allt, er mögulegt var þeim til frelsis, í mesta skyndi bera vatnsmegn mikid ad og ausa í eldinn, hvar vid hann vyrdtist svo slöknadur, ad allir gloddust og fögnudu. Bontekú sjálfur var því uppá þilfar aptur kominn, en — ad hálfri stundu lidinni tók á ný orgid: bál! bál! óttalega undir-um allt skipid. Frá þessari nýu ólucku er nú best ad Bontekú segi her sjálfur:

„Eg vard — segir hann í Ferda-sögu sinni — skelkadur, og rann ofan í skipid nedst. Þar sá eg ad steinkolin, sem hid loganda brennuvín hafdi læst sig í, stódu í ljósum loga. Vid jusum óhæfu sjóar í eldinn, en vid þad vard brennusteins-ortud svæla og stibba svo megn og óþolandi, ad hverjum manni lá strax vid kosnun þar nidri í skipinu. Þó dvaldi eg þar lengst, og skipadi fyrir öllu eptir því, sem eg helldt heizt haga mundi, og ad fólkid



skiptist bæði um, til að ná hollara andrúmi upri; því lá morgum svo nærri við kofnun, að varl komust upp um lúkurnar. Mér sjálfum varð svo illt, að eg vissi á stundum eckert af mér, en varð að halla mér útaf á tunnu, og snúa andlitinu upp á móts við lúku, til að ná nockru andrúmi. Þegar eg nú loksins ormagnadist, sagdi eg við Roll: vorpum púdrinu útbyrdis, áður enn eldurinn nær því, en það vildi hann með engu móti; „því" — sagdi hann — „að sonnu brennir það oss þá „ecki framar, en hvað verður oss til mót„varnar, ráðist nockrir að oss?" Kolabrennan vóx nú ákaft, og svælan af þeim, svo allir — eins sjálfur eg — urdum að forda oss úr nedsta skips-rúminu, til þess að kafna þar ecki, en hjuggum gat á nedsta þilfarið, og helltum ógn af sjó ofan um þau og lúkurnar í eldinn."

„Stóri skips-báturinn var fyrir laungu settur ofan og drógst á eptir skipinu; minni bátinn settum við líka út, því hann var þeim í vegi, sem hella áttu sjónum ofanum lúku niðrin. Háski og örvænting vóx ödum af skipsbálinu, en af hafi einu umhverfis og engri björgar von. Farmenn struku frá skipsbordi og sondru í bátana. Roll undradist það, en þeir budu honum að verda samferda þeim til hafs, og beiddu hans rak hann til þess, en þegar hann steig í stóra bátinn, baud hann þeim að bída eptir mér; en — hverki boð né bænir vógu þar

þar;

var; ádara enn hann komst í bátinn, hjúggu þeir á togid og undu upp segl."

„Strax komu nockrir þeirra, sem eptir urdu, til mín, medan eg var í fasta fari ad slöckva, og spurdu: hvad er oss nú leyft bræda, Kapteinn! bátarnir sigla frá oss? Eg ansadi: sigli þeir burt, ætla þeir sér ecki aptur komu. Strax rann eg uppá þilfarid og sá þá sjálfur halda brott; baud því ad vinda upp segl og elta þá. Siglum þá upp, sagdi eg, og þessa þræla í kaf, hiki þeir vid ad innbyrda oss, og muni þeim lærast, hver skyldu þeirra se."

„Segl vóru strax undin upp, en þegar vid nálgudumst þá, heldu þeir út af leid og fjarlægdust. Nú megum vær, brædur! sagdi eg, fela oss miskun Drottins, en reyna þó hvad til bjargar verda má og enn þá til ad slöckva. Skundid ad púdur-húsinu og varpid púdurtunnunum fyri bord, ádur enn eldurinn nær þeim; tók sídan med mér Timburmenn, og baud þeim í flughasti ad bora gat á hlidar skipsins, svo þad fyllast mætti sjó á tíu alin dýpi; en — til allrar óhamingju vóru þær járnskeanar, svo nafrarnir komust ecki í gegn."

„Þegar þetta rád brást, urdu allir bví nær úrvinda og veinudu; þó jusum vér sjó í skipid medan gátum, svo loginn vordist tjena, uns í pöllunni qvíknadi, og þá var öll hjálpar-

E

von oss þrótin; þvi logann lágdi úr þvi þess hærra, sem meiri sjó var í steypt; ollan rann logandi um allt og qveikti í ollu. Þá rann mér einkum til rifja ad heyra farmanna qveint og vein, sem kaldt vatn milli skinñs og hørunds."

„Búid var þegar ad varpa 60 púdurtunnum útbyrdis, en 300 vóru eptir, þegar eldurinn læsti sig í púdur-húsid, svo skipid med allri áhøfn og farmonnum flaug í lopt upp, med óttalegasta hvelli. Fyrir þeirri ógæfu urdu 119 manns. Eg stód á effta þilfarinu skammt frá stór-segls kødlunum, og vóru þá 63 mér nálægir ad ausa sjó. Á augabragdi fóruſt allir, svo eg vissi ecki hvad af þeim vard."

„Eg Vilhjálmur Jøbrandur Bontekú fórnadi upp høndum minum, og bad Gud mér miskunar; fann, ad eg flaug um loptid og hjeldt þar mitt skapadægur komid; hjeldt þó óskerdtri rænu, og fjell loks í sjóinn milli skips flakanna. Þar vóx mér óvæntur hugur á ný; stóra og aptasta mastrid flutu mér til beggja hlida. Eg komst á stóra mastrid, og syrgdi nú skipid mitt. Í sama vetfángi sá eg mann kafa upp og komast á bugspjótid, og heyrdi hañ segja: „Þar komst eg í heiminn aptur." Hann hét Hermann, og flaut dálltid mastur hønum til hlidar; en af þvi ad stóra mastrid valt sifellt undir mér í hring, og olli mér mikillar mædu, bad eg hann skjóta til min litla mastrinu, svo eg kæmist á þvi til hans, og þetta tókst, þvi annars hefdi eg murist í sundur á

hoppinu. Allt hak niitt var ordid aumt, og á 2ur stodum sprángid fyrir á hofdi minu."

„Vid hjeldum handlegg ockar um dygra enda búaspjótsins, litudumst um kring, og engd-um loksins bátana lángt frá ockur undir sólset-ur. Kjæri! sagdi eg, nú er oss öll von þrot-in! nóttin fellur á, bátarnir eru fjærri ockur; her sáum vid ecki haldist vid til morguns; fel-um ockur Drottni! Vid bádum til Guds, og bátarnir nálgudust, uns eg kallad feck hátt: bjargid! bjargid! Kapteini ydar! — Farmenn nockrir heyrdu þad loksins, kölludu upp: Kapteinninn tórir enn! og heldu ad skipsflökunum; þeir þordu ecki ad leggja ad mer af ótta fyrir ad flakarnir mundu hvelfa undir þeim bátunum, en Hermann, sem ecki hafdi fengid neinn merkilegann áverka vid flugid eda fallid, syndti til þeirra og vard innbyrdtur. Eg þaramóti treystumst ecki til þess, sem lam-adur ordinn og murinn, svo einn farmannsa hljóp fyrir bord og syndti til min med færi, sem eg batt yfir um mig og vard svo dreginn ad stórq bátnum og þar innbyrdtur. Vóru þeir Roll og Undirstyrimadur minn Meyndera medal annara þar fyrir, og furdudu þá fund-ir vorir."

„Í skuti stóra bátsins hafdi eg búa látid skyli yfir 2 menn. Þar valdi eg mer hvílu, þvi svo var eg máttfarinn, ad eg hugdi mig ega skammt ólifad eptir; svo tók mig sárt i



allt bakid og hofuds sárin. Læknirinn var ad sonnu lífs, en medala laus; þó tuggdi hann skipsbraud og lagdi vid sárin, sem læknadi þau."

„Þegar eg lagdist fyrir, rjedi eg Roll ad halda kyrru fyrir vid flakana til morguns, ef vid þá fengjum einhverjar vistir vid þá fundid, og máske á þeim einhverja Kompáss-mind, til ad sigla eptir og leita lands; en Roll virdti rád min ad vettugi, og lét róa rosklega þadan, rétt sem ætti sér visst land fyrir stafni. En þá er birta tók sást hverki neitt til lands eda skips-flakanna framar."

„Farmenn skygndust eptir hvert eg væri lífs eda lidinn, og fréttu hvad nú skyldi ráda af? Vér sjáum hverki land, sogdu þeir, né hofum braud, sjóarkort eda kompás framar. Þér áttud, Vinir! ansadi eg, ad gegna mér í gjærqvoldi, ad halda ydur í nánd vid flakana, því eg sá gloggt, þegar eg sat á mastrinu, hversu svínakjøt, ostur og onnur matvæli flutu þar allt um kríng, og hefdi því mátt bjarga nockru í dag. Æ! komid þér nú til, Kapteinn gódur! sogdu þeir, og rádid fyrir ferdum vorum! Eg orka því ecki — ansadi eg — því svo vesæll er eg nú, ad eg fæ mig alls eckert hreift. Þeir báru mig samt át á þilfarid og settu þar nidur."

„Eg sá marga en undir rádri og spurdi um vista-byrgdir? en þeir sýndu mér alls 7 eda 8 pund af braudkokum. Leggid upp árar, sagdi eg, því þér gángid fram af ydur til einkis, en hafid þó hverki mat né dryck til endurhressing-

ar. Sídan baud eg þeim ad fara úr skyrtum sínum og búa til segl úr þeim, en saumgarn ljet eg snúa saman úr kadal-stúfi í stóra bátnum, sem rakinn vard upp til þess. Sama gjörðu hinir í litla bátnum. Skyrtunum var uppsprett og tengslad saman aptur í smá-segl. Nú töldum vær skipverja, vóru þá 46 í stærri, en 26 í minna bátnum, alls 72 manna. Eg baud líka fram skyrtu mína í segl, en, vegna lasleika míns, var hún ecki þegin, en hvert á móti gásu samferdamenn mér bláann farmanna kjól og sessu, sem fannst í stóra bátinum, og hjúkrudu mér eptir megni."

„Fyrsta daginn ljetum vær reka undan á medan seglin urdu stögud saman, uns vær undir úthall dags fengum undid þau upp og siglt eptir leidsögu-stjarnanna. En þared vér vórum þá nálægt Midjardarlínunni, svo ad sólin leid fram beint upp yfir höfdum vorum, þjádumst vær á daginn mjög svo af óþolandi hita, en um nætur af megnum kulda."

„Daginn eptir bjuggum vér oss verkfæra mindir nockrar, eins og þá vard best, med hverjum vær nockurnveginn ágvardad fengjum þann hluta heims, sem vér þá vórum í, og eg skar út á botninn á stóra bátinum Sjóarkort (afmálun), á hvert eg mindadi Eyarnar Java og Súmatra og sundid á milli þeirra. Eptir adgærslum mínum reiknadist mér ad vær þá værum einar 20 mílur frá landi; en — hver

mátti



mátti ábyrgjast vissu þeirra athugasémda eptir svo grófum og ófullkomnum verkfærum."

„Af þeim fáu pundum braudkaka úthlutadi eg sérhverjum dagtega sinn skamt; vard hverr ad láta sér hann lynda á stærd vid þumalfingur manns. Í fyrstu höfdum vær eckert ad drecka, en þar regn kom seinna meir, felldum vær seglid, breiddum þad yfir bátinn og fylltum 2 litlar tunnur med vatnid, sem af því rann, sem vard ad duga oss um regnlausu dagana; mér var unnt ad sápa svo mikid af þessum litlu vatnsbyrgdum, sem eg villdi, en eg misbrúkadi aldrei þad leyfi og lét mér lynda jafnann skamt þess vid hvern annan."

„Minni báturinn reyndi ad sönnu ad halda sig vid oss á siglingu, en þar vær sigldum betur og enginn á hinum bar skyn á leidarstjórn, bádu farmenn hans oss innilega ad taka sig inní stóra bátinn, þegar þeir nálgudust oss, því þeir óttudust, ad stormur kynni ad skilja bátana; en vorir skipverjar villdu med engu móti leyfa þad, og qvádu þad valda mega tjóni allra."

„Að fárra daga fresti urdum vér enn á ný aumastir manna. Braudkökunum var lokid, og þó sást enn eckert annad enn loptid og hafid. Eg vardi allri alúd til ad sannfæra þá óþolinmódustu um, ad vær ecki gætum lengur átt ókja lángt til lands; en þeir mottu hana lítils, tóku ad verda mér gramir, qvádu mig villtann í reikníngi mínum og halda á haf út, en ecki til lands."

„Megnasta hángur þjádi oss, þegar vær sultum næringarlausir um heila daga og sáum hvergi land. Skipverjar urdu þá oldúngis módfallnir. Bárurinn minni kom enn til vor og grátbændu skipverjar hans oss enn þá um ad taka sig í stóra bátinn, og kom ollum þad loksins ásamt, svo allir mættu í einu torthynast, fyrst ecki var añad þá sýña. Vær tókum vid þeim og ásamt vid segli þeirra og árum. Alls vóru þær þá ordnar 30 og rodudum vid þeim yfir þóptirnar, til þilsars mindunar, sjet eg helsing skipverja sinjúga á vixl inn undir þad hvern eptir annañ til hvíldar; en orvæntíngin stód ásmálud í allra andlitum.“

„Forsjón Guds þóknadist samt med dásamlegu móti ad vidrétta vora von og traust med endurnæringu. Vakur mikill af Flugfiskum, á Þorska stærd, kom upp úr sjó vid byrding vorn, nockrir stucku upp í hañ, og logdumst vid ofanyfir og tókum þá, skiptum þeim og átum þá hráa med grædgi. En — oss sókti fljótt megnari þorsti enn húngur. Ymsir vildu drecka sjó, en eg bannadi þeim þad, qvad hann engann þorsta fá slockt, en valda mega banvænu húkhlaupi. Sumir sleiktu blýkúlur eda hostu þær uppí sér, og nockrir drucku þ v a g s i t t. — Eg líka — en þessi vesælu úrrædi komu oss ad litlu haldi.“

„Med vaxandi húngurs neyd gèck vor örvænting fram úr ollu hófi. Hvert leit grimdarlega til annars, eins og reidubúinn væri ad yfir-



kalla hann og eta. Nockrir qvádu þá uppúr: ad enginn gæfust önnur úrrædi framar, og stúngu uppá ad birja med dráp Skipsdrengsins til bjargar þeim. Eg vard vid þad svo skélkadur ad eg því nær fiell í ómeginn, og bad innilega til Guds um líkn og ad afstýra þvílíkri óhæfu, en sá med skelfingu, ad nockrir farmanna lögdu þegar hendur á drenginn til þessa. Eg kalladi hárómadur til þeirra, bad þá sleppa þvílíkri ódædi, ákalla Gud og vona líknar frá honum; qvad oss komna nálægt landi, og leiddi þeim þetta fyrir sjónir eptir mínu útskorna sjóarkorti og siglingum vorum. En — þeir tjádu mig rangvilltann í reikningunum eda villa þá; þó gáfu þeir mér enn 3gja daga frest, en sæist ecki land ad þeim lidnum, skyldi eckert framar hamla þeim ad fremja hvad helzt þeir vildu; þetta ómanneskjulega skilord vard eg ad láta mér lynda, þó vidbjódur þess gengi mér til hjarta, og bad eg Gud heitt ad afstýra því ódædi, ad vær saurgudum hendur vorar med þeirri áformudu hrylliligu óhæfu."

„Tídin leid, en neydin vóx svo, ad eg feck sjálfur vart fordast megna örvæntingu. Værum vér komnir einhversstadar á land — sögdu nockrir — gætum vér bitid gras eins og fénadurinn. Eg hughreysti þá, eptir mætti, en daginn eptir þraut mig bædi fjör og dug. Fáir orkudu þá ad standa eda rétta sig upp. Roll var svo máttfarinn, ad hann ecki framar feck hreift legg eda lid. Eg var med þeim særustu, þó lík-





nidr væru ad sár min hefdu hilad mig, og gat enn þá hreist mig um byrdinginn endilángann."

„Á 13da degi frá tjóni skipsins dró upp, og fell regn mikid, sem endurnærdi oss til hlýtar. Logn gjördi, svo vær felldum segl og breiddum þad út yfir byrdinginn til ad safna því í. Vær druckum nægju vora, og fylltum en bádar tunnurnar. Eg stýrdi, hjeldt oss vera nálægt landi og ad brádt mundi birta upp, vildi því ecki fara undan stjórn; en þyck þoka og stregn gjördu mig svo innkulsa, ad eg orkadi því ecki lengur, kalladi annann til stjórnar, og smaug undir ára-þilfarid til hinna ad hlýa mér."

„Nú var svo lángt lidid á frestinn, ad slátra átti drenginum; en lofadur veri Gud, sem í hæfilegann tíma afstýrdi þeirri grimd! Varla hafdi sá, er vid stjórn tók eptir mig, haft hana eina kluckustund í höndum sér, fyrr enn upp birti og hann sá — Land. Hann hrópadi svo hátt, sem hann gat: Land! Land! og gledin flaug gegnum allra merg og bein; hún styrkti jafnvel þá vesælustu til ad skreidast uppá þiljurnar, til ad sannfærast um þá gledi fregn med egin augum. Þessi sjón eyddi fljótt öllum efa og fyllti öll hjörtu fögnudi. Þegar vær nálgadumst strendur þess, sáum vid brimgarda velta inn ad þeim, og árædum því ecki ad leggja þar ad landi, sigldum því med landinu uns vík varst inni þad, leggdum inn þángad og vörpudum ackeri. Flytti þá hverr madur sér,

sem

 

sem hradast hann mátti þar í land." — (Þetta er allt eptir Bontekú sjálfum).

Landid, sem þeir komust á, var lítil óbygd Eya, í grend vid adra stærri, sem Súmatra neinist. Soltnir Farmenn rásudu þar um allt, ad leita sér bjargræda, en Bontekú qvadst, undir eins og hann steig þar fæti á land, hafa fallid þar fram endilángur, kysst jördina faganandi og prísad Gud fyrir fengid frelsi. Þar fundust Kókos-nytur *) á Eyunni, en eckert dreckandi vatn; en vökvi sá, sem Nytur þær í sér geyma, var dável svalandi, og mundi Farmönnum vel hafa gefist sú fæda, hefdu þeir vitad hófs ad gæta vid hennar nautn; en ódœru vard þá nær, og leiddi sú ofneytsla húngradra maga megna ydra-qveisu þeirra eptir sig, sem þó svadi, þegar þeir grófu sig ofaní brennheitann jardar-sand þar og huldu holin med honum; leiddi þar af megn bûkhlaup, en bata allra degi sídar. Hér og hvar fundust mannaspor á Eyunni, en hvergi nockurr vottur til manna bygda. Til ad ná þessum var því afrádid ad sigla til Eyunnar Súmatra, sem lá 12 mílur (3 þíngmannaleidir) þadan. Fylltu

*) Þessar ydra á vissum Pálma-trjám, og eru heldur afláungar enn hnöttóttar med hardri, þyckri skorpu ytst, á mannshöfuds stærd, innan fylltar dýrindis kjarna, líkum Mandelum ad smeck og ylmandi ísúrum ágætlega svalandi og ljúffengum hollum vökva; og eru þær allopt fluttar út Indium til Nordurálfunnar, rett til sæl-gætis.

þeir byrding sinn med Kókos-nytum, og hjeldu út um qvøld. Ad morgni sáu þeir strendur þessarar stóru Eyu, en lengi vard med henni ad sigla og leita forgefins, uns tækileg lending fannst, hvar fljót fjell þadan út í sjóinn, sem hentugt þótti áformi þeirra. Rif lá fyrir ósnum, sem bodar gengu á. Bontekú vildi eckí leggja þar til lands, en allir adrir eggjudu til þess, og vard því svo gjørt. Í þrennum bodaføllum fyllti svo byrdínginn, ad lá vid hann sockva mundi, en Bontekú ljet alla ausa svo ákast med lúkum þeirra, hottum og skóm, ad þeir komust vel af og í land, fundu gott neytsluvatn í fljótinu, og gleymdu því glæfraferd sinni ad þeirri lendingu.

Þar uxu margar jurtir og gros og smábauna tegund, svipud hollendskum, sem Farmenn átu med grædgi, svo þeim vard illt eptir. Nockrir fundu þar á tánga einum Tóbak nóg nálægt eldstó, í hverri eldur lifdi. Hverttveggjo, og vissan, ad þeir nú væri í mannabygd komnir, gladdi þá mjøg, þeir felldu þar nockur tré, kindtu bál, settust í kringum þad og reyktu af tóbakinu, sem þar var fyrir.

Bontekú skipadi mønnum, þegar qvølda tók, til vardhalds á 3 ymislega stadi. Túngl var minkandi. Allt var med spekt framan af nóttu, nema hvad margir urdu illa haldnir af qveisu flogum af offreku bauna áti. En — þegar þeir vóru svo hvad lasnastir, bodadi einn vardhaldsmanna, ad fjøldi innbúa sækti ad þeim.



Hverr og einn spratt upp og bjóst vid fiandskap einum af hvilkum nætur-fundi. Vóru þá, til allrar ógæfu, engin vopn heim leysd til varnar, nema eitt gamallt og rydgad sverd og tvær axir. Þó var afrádid ad verjast sem best og lengst yrdi; tóku farmenn sér logbranda úr eldinum til varnar og gengu óruggir mót óvinum sínum. Þessir logbrandar, neista-flugid úr þeim og óvissa Eyarbúa um, hver vopn farmenn hafa kynnu til áhlaups, gjördu þessa þeim óttalega, svo þeir hurfu á hæl og fólu sig í skóginum. Snéru farmenn þá ad eldinum aptur, en voktu þad eptir var nætur í megnum ótta. Bontekú og Roll mönnudu strax byrdinginn, svo þángad yrdi þeim ecki afskorid undanfæri.

Um morguninn gengu 3 Eyar-búar med fólu ofan til sjóar. Bontekú sendi 3 menn á fund þeirra, sem ádur hofdu í Indíum verid, og þecktu því til þeirra landa sida og túngumáli. Indíánar þeir frettu farmenn ad hverjir þeir væru? qvádust Farmenn vera ógiæfulegir skipbrots-menn, hverra skip brunnid væri, en ad þeir vildu þar kaupa sér vistir. Vid samtalid færdust Indíánar nær byrdinginum líklega til ad skygnast eptir, hver vopn í honum væru, en Bontekú hafdi þá varúd vid haft ad breida seglin yfir skip sitt, svo enginn sæi ofan í þad. Og þegar Indíánar fengu ecki dulid forvitni sína um vopna byrgdir farmanna, qvádust þessir vel útbúnir med byssur, púdur og kúlur. Sídan keyptu farmenn af þeim hæns





nockur sodin og hrisgrjón, sem þeir höfdu med sér, og ljet Bontekú farmenn setjast nidur ad þeim nálægum, eins og alls eckert væri ad óttast, og borda þessar keyptu vistir med svo gódri lyst, ad Indiána furdadi á; ljetust þessir ásáttir med andvyrdid og héldu á brott med spekt.

Farmenn girntust þar einúngis ad ødlast vistir til ferdar þeirra til Batavíu Stadar (Hollendsks á Eyunni Java, einhvers þess stærsta í Indíum). Bontekú rédi því af med nockrum skipverjum hans, ad róa í indíanskum báti, sem þar vid árbackann stód, til bæa-þorps, sem hann sá kipp-korn burt þadan. Þar keypti hann hrisgrjón og hæns, og sendi þeim, sem eptir urdu, en feck sér sjálfur góda máltíd ásamt fylgjurum sínum. Vínlegund nockra, sem útpressud var af vökva (Palma) tráviðar nockurs keypti hann. Innbúar flycktust kríngum þá, og toldu, svo ad segja, hvern bitann ofaní þá. Eptir máltíd keypti Bontekú af þeim villi-uxa svo ljónstyggann, ad honum vard ecki nád. Bontekú tjádi 4um fylgjurum sínum, þegar qvölda tók, ad rádlegast mundi ad halda aptur til bordíngsins, en þessir héldu sér engann háska búinn, bádu hann svo innilega ordlofs ad vera þar til morguns, ad hann loksenn þótt sárnaudugur — ljet þeim þad eptir, en héldt aleinn ofan ad bátinum.

Bontekú sagdi sjálfur svo frá glæfra-för þeirri: „Þegar eg kom ofan ad Indiána-bátinum vid ána, hitti eg þar fyrir fjölda



Indiána, sem vóru í megnu Þrasi; eg helldt nockra vilja leysa mér ótálmada burtför, en hina vilja taka mig fánginn. Eg herdti upp hugann, Þreif í handleggi tveggja og keyrdi Þá út í bátinn, eins og eg væri Yfirbodari Þeirra. Ad sonnu sveipadi Þeim illa vid Það, Þó gegndu Þeir, og settust annar á fram- en hinn á aptur-Þóptuna, en eg stód í midju og med Það hjelum vid frá landi. Þeir hofdu bádir mord-kuta í belti sínu, en eg var vopnlaus madur og líf mitt Því á valdi Þeirra. Þegar vid vórum nockud á leid komnir, kom sá, sem aptar sat, ad mér og bendti mér, ad hann vildi peninga sá. Eg tók litinn pening upp úr vasa mínum og feck honum; hann vyrdti hann fyrir sér um hríd, og rédi loks af ad vefja hann inn í dulu, sem hêck vid belti hans og settist nidur aptur. Hinn gjordi eins, en ea gaf honum annann pening álíkann hinum; hann skodadi hann grant og vyrdtist enn vradnari, hvert hann Þyggja skyldi, ellegar rádast á mig. Eg sá Þar mér forirbúinn bana, og sló Því hjartad ótt í brjósti mínu. Hradt geck samt ofan eptir fljótinu, en á midri leid komust rædarar mín-ir í megnt Þras, sem eg rjedi vera mundi um, hvert ad mér skyldu veitast edur ecki. Eg vard óttasleginn vid Það og titradi. Það var rétt sem mér Þá væri sagt: „ad eg skyldi reyna til ad syngja," og saung eg Því af ollum mætti, svo undir tók bádumeginn fljótsins í skóginum. Sannadi eg Þá, hvad eg ádur reyngt hafdi:

ad ytti megi koma skelkudum til ad skyngja. Bádum þókti þeim saungur minn svo kátlegur, ad þeir skelli-hlóu, en eg þóktist ecki var verda á svipum þeirra, ad þeir heldu mig grunsamann ellegar ottasleginn um þá."

„Á medan eg þannin saung, skreid bátorinn svo hradt áfram, ad nálgudumst byrding vorn; bendti eg þá farmönnum minum, sem skundudu til sjáar. Ljet eg rædara mina fara bæda framm og þannin leggja til lands, svo hverigur fengi skadad mig á baki mér; komst eg svo heill á land, en Indiánar reru heimleidis aptur. Um nóttina eptir var allt med spekt, en þeir 4 farmenn komu þó ecki med villi-uxann, svo eg tók ad undrast um þá. Skömmu seinna komu 2 innbúar med annann villi-uxa, enn þann, sem eg keypti í giær. Einn af oss, sem dálitid skildi í málinu, spurdi: þvi hinn ecki kæmi ellegar farmenn vorir? Indiánar qvádu hann ecki hafa ordid leiddann þangad, en ad farmenn kiæmu brádum med annann, sem fridadi oss nockurnveginn. Villi-uxinn, sem þeir færdu mér, var þvi nær jafn ovidrádanlegur, sem hinn, ljet eg þvi fótbrjóta hann med öxi. Odara enn hann fell, tóku Indiánar ad ad góla og orga ottalega, sem vyrdist undirlagt teikn þeirra á milli, þvi undir eins þusti fjöldi innbúa fram úr skóginum, og hlupu hér um 40 eda 50 þeirra beint á oss. Piltar! sagdi eg, verjist nú vasklega, og skal skríll þessi ecki vinna á oss! En — þá sá eg flock minn þar



ad auki æda fram, flesta i honum vopnada skjöldum, sverda-mindum og smáum kast-spjót-um og stefna ad byrdíngi vorum. Njedi eg því af ad skipa þeim flyta sér sem hradast of-an til hans, því ella væri oss brádur bani bú-inn. Allir hlupum vid þá, sem skjótast máttum, en hverr, sem ecki komst full-fljótt uppí, stöck útí sjóinn og syndti til byrdíngsins."

„Fiendur vorir drógu oss uppi vid flædi svo brádlega, ad ecki tókst ad yta undan landi svo hradt, sem þörfin krafdi; seglum var tjald-ad yfir allt skipid, geck því seint ad koma sér fyrir, og ráku Indíánar nockra skipverja í gegn med kastspjótum, svo garnir þeirra ultu út, en vær bördumst sem vasklegast med öxunum og ryd-sverdinu. Akkerid vard ecki losad; ljet eg því höggva á streng þess, og yta frá landi. Innbúar vódu út eptir oss medan þeim vard stædt, en snéru þar vid aptur. Þá Farmenn, sem syndtu í kríngum skipid, innbyrdtum vær, en bodafoll af brimgardi vid oss mynnid skyndi oss enn í tvo heimana. Fiendur vorir toldu oss þar af, þustu því fram á tángann til ad horfa á og umsitja oss. En — þá gustadi nock-ud af landi, en ecki hafi, sem ádur, sem lægdi fljótt öldurnar, svo byrdíngur vor risti sig far-sællega í gegnum bodann út á rúm-sjó."

„Þá fyrst fengum vær tóm til ad ransaka vort manntjón. Bátsmaturinn, sem vasklegast hafdi barist, fannst særdur vid nablastad af eitrudu kast-spjóti. Holdid sortnadi umhverfis, þó sá-





augnablik þaru frálidin. Eg reyndi ad skera burt allt hid sortnada, svo eitrid æti-sig ecki lengra út, en — honum til harmqvæla einua, þvi á augabragdi hneig hann örendur, og vorþ-udum ver líki hans fyrir bord. Sídan töld-um vér skipverja og sóknuðum alls 16 þeirra med þeim 4um, sem gistu í Indía bænum, hverja nú mátti telja af."

„Þó vindur stædi af landi (svo segist Bontekú frá), hjeldum vær þó med landi fram. Matarbyrgdir vóru þá ecki adrar fyrir enn hæn-nockur og hrísgrjón, sem nádu skammt medal 56 manna; urdum vèr því ad leita þar lands á ný í fyrsta firdi. Þar sáum vær fjölda In-díána vid flædi, en allir hlupu þeir á brott, er vær lögdum til lands, hverju vèr fögnudum, því litillar stodar var von af þeim mannhund-um. Þar fundum vèr samt gott neytslu-vatn og á nærstu klettum mergd af Ostra-skelja- og Kúfúnga-fiski; vildi þá svo vel til ad vær höfd-um fullann hatt af pipar, er eg keypt hafdi í Eyar-bænum, og kryddudum vær skeljafisk þann med honum. Hverr og einn át sig saddann, fyllti vasa sina med skelja-fiski, og vèr þær tvær tunnur med vatn, snèrum med þetta til skips og lètum svo frá landi, hèldum djúpt, svo skjót-ar tækist ferdin. Ofvidri fell á um nóttina, en byrdingur vor vardi sig þó vel. Annars, ef vær hefdum haldid, mundi vedrid hafa rekid oss





til lands og inn í nærsta ár-ós, vid hvern grim-
ur India skrill bjó, sem ádur hafdi morgum
Hollendíngi slydt úr þessum heimi."

„Þegar dagadi sáum vér 3 Eyar fyrir
oss, og rédum af ad lenda á einni þeirra, þó
óbygdar vyrdtust, í von um ad finna þar eitt-
hvad ætilegt. Þar fundum vér Reira-tegund
nockra á dygurd vid manns fót, holudum úr
merg þeirra med stafi allt ad nedsta lidi, fylt-
um þær reir-pípur vatni og tepptum svo ofan-
til; þanninn odludumst vær nægar vatnsbyrgd-
ir. Þar uxu og Pálmatré þau, sem ofantil
bera ætilega blómkáls-tegund, en eckert ann-
ad oss nytilegt."

„Einn daginn, medan vér dvöldum þar, stód
eg undir háum kletta-tindi og lángadi til ad kom-
ast uppá hann til ad litast þadann um, hvert eg eckí
sæi oss neitt þarflegt. Vonin um ad hitta á rétta
skipa-leid til Eyarinnar Java, var þá öll bygd á
tillögum mínum, því adrir þecktu lítt til hafsigl-
ínga mentar; þó hafdi eg aldrei til India ád-
ur komid, né þá vid hond Kompás edur ann-
ad gott verkfæri, sem mér leidbeina mætti; vard
eg því ad halda stefnu eptir líkindum, en þó
til óvissu. Af tindinum sá eg endalausann him-
in og haf, en eckert land. Eg féll þar fram og
gjördi bæn mína, en í því eg geck ofan, litad-
ist eg enn þá um; vyrdtist mér þá, sem skya-
bólstrum, er lá med hafs-brún, létti nockud
frá, og þóktist eg undir þeim grilla í mikilli
fjarlægd tvö há og bláleit fjöll. Strax mist-

ist eg þess, ad eg í Hollandi heyrt hafdi eptir Hjálmi Schouten, sem tvisvar fór til Austindía, ad á hofdá Eyarinnar Java væru tveir háir tindar tilsýndar lángt frá, þeim líkir, sem eg sá. Eg gladdist þá af þeirri eptirtekt, sem sannadi mér, hversu gagnleg þvílík um allt, sem vér sjáum, heyrum eda skynja megum, opt verda má mønnum, sem ecki vita fyrir, nema þeim ad haldi koma megi. Gladur fetadi eg ofan aptur, gladdi samferdamenn mína med fregn af sjón minni. Þeir føgnudu og báru med skyndi vatn og Pálma-kál nóg í byrdínginn, bjuggu segl og héldum vær strax áleidis þángad med hagstædum byri."

„Eg stefndi midt á milli þeirra tveggja tinda, sem eg sjed hafdi, og eins um nóttina eptir leidsøgu stjarnanna. Um midnætti sáum vær eld, héldum hann í fyrstu vera á fiski-skipi, en þegar nálægdumst, tókum vér eptir ad sigldum framhjá lítilli Eyu, og sáum, þegar geck fyrir tagl hennar, annann eld hinumeginn; gátum því til ad eldar þeir vera mundu hjá fiskimønnum vid sjó. Í døgunina sló í logn; vórum vid þá komnir í fjørd nockurn, er skarst inn í Eyuna Java. Einn Farmanna klyfradi hærst uppí mastrid, qvadst þadan sjá fjølda skipa og fá talid 23. O! hann føgnud! vær stuckum allir og hljóddudum hátt upp rétt sem børn. Strax løgdum vær út allar árar og rérum, sem best vard, ad þessum skipa-flota."



„Þegar vær sáumst gloggt þadan, vat Forstjóri hans, sá hollendski Admíráll, Fridrik Hourmann af Alkmar staddur uppi á apturskansi skips síns og likti á oss med undrun, þui hann feck ecki skilid, hversu á ferdum vorum standa mætti; sendi hann þessvegna bát í veg fyrir oss, ad spyrja: hverjir vér værum? Þeir útsendu nockrir þecktu oss og hofdu farid med einu af skipum þeim, sem logdu út ásamt oss frá Texel Eyunni, en urdu oss viðskila. Þeir fluttu mig og Roll med sér og færdu Admírálnum uppá skip hans, sem hét: sá Dordrechtska Jómfrú."

„Admírállinn faghadi komu vorri, ént sá af útliti vorú, ad líkhamir vorir, sem neyd, húngur og mannraunir hofdu svo hart leikid, ad góð máltíd mundi oss ollu hagqvæmari enn lángar vidrædur, og ljet strax bera mat á bord fyrir oss. Þegar eg sá þar braud og adrar matarvistir framreiddar, rann svo ást fyrir mér, ad fegins-tár hruckú ofan vánga mína, svo eg um hríd feck einkis neytt. Fyrir hinum samferdamönnum mínum ljet hann líka ala kjærlega onn og skipta þeim nidur á skipin."

„Sídan þuldi eg Admírálnum allar vorar mannraunir á þeirri hrakfor, en hann furdadu þær mjog og sendi ockur sídan til Batavíu Stadar, sem er Hofudstadur á Eyunni Java, hvar hann fól ockur Röll Yfirstjórnara Hollendinga Eigna í Jndíum, en bjó ockur ádur út med Jndíána fatnadi. Fyrir

hann urdum vid þar strax leiddir og huldi eg honum greinilega oll vor hrakfelli. Hann hlýddi á med athygli og lagdi eckert ord til uns eg lokid hafdi sogu þeirra, en ansadi sídan med ollu jafnlyndi: „Þetta var ófall mikid, en „hvert vid sær þvi gjort? Ljet svo færa sér spanskt vín, og drack úr Gullbikar bædi mína og Rolls skálir, hvers fyrir sig, og vard þar vid opinskárri nockud og rædnari. Í vikú ljet hann ockur sitja ad bordum med sér. Lœksins fann hann hentugleika ad fá oss nockud til starfa; gjordi mig ad Kapteini (Yfirstjórnara) stór-skips, sem útbúid var 32ur fallstyckjum, en setti Roll yfir þess voru-farm, sem Kaupmann; hét skip þad Bergerboot. Þad gladdi ockur þá innilega, ad vid, sem vórum lagsbrædur saman í Fángum mannraunum, nú áttum ad þjóna saman á ný, bádir á einu skipi."



## V. Sonarleg Ást og afbragds Stodugl yndi.

Hrósbjartur, hnakksveinn nockurr, beid vid kjæru sína vid flædarmál hjá Stadnum Marseille *) í Fránkaríki eptir einhverjum, sem

*) Stór-stad á sunnanverdu þvi Ríki vid Midjardarhafid, med hier um 100,000 innbúa,



kaupa þirsti sér flutning þar um kring. Adkomandi tignarmadur settist í kjænu hans til flutnings, en vildi strax stíga á land aptur þegar honum leitst ecki par sjómannslega á Hróbjart, og fara í adra kjænu, fyrst Formadur hinnar væri ecki vid. — Kjænuna á eg, ansadi Hróbjartur, viljid þér sigla út fyrir hofnina? — Onei! ansadi Adkomumadur, því dymma tekur ad stundu lidinni, en eg hafdi í hyggju ad sigla nockrumsinnum fram og aptur um hofnina mér til gamans í svo gódu vedri. En þú litur ecki par sjómannslega út, og ert þeim í talshattum ólíkur. — Rétt mælid þér, sagdi Hróbjartur, enginn farmadur er eg, enda géf eg mig ad eins á helgi- og hátídar-dogum vid flutningum, til ad ávinna mér því frekari skildinga þá. — Svei nú þeim gródanum únglinga! og datt mér sá ecki í hug um þig, ansadi Adkomumadur. — Æ! vissud þér, Herra! því eg svo mikillega vil eignast skildinga rád, ansádi Hróbjartur, brixludud þér mér sídur um ágirnd. — Vera má, mælti hinn, ad eg gjori þér rángt til, en þú áttir þá ad ansa mér greinilegar. Vid skulum sigla herna fram á hofnina, en þá segja mér Æfinthýri þitt á leidinni. Nú! hvad liggur þér helzt á hjarta? mér er fysn á ad heyra þad. — Þad eina, gódi Herra! mælti Hróbjartur, ad Fadir minn gistir í þúng-

---

hvadan mikil kaupverdslan er til nálægra lands því hafi og tik Afríku.)

um þrældómi, er hverjum og einn þá ecki orka ad leysa hann. Fyrir litilsjorleg efni sín hafdi hann keypt sér hlut í voru-farmi Skips, sem fara átti til Smyrna Stadar *), og fór hann sjálfur áleidis med til ad selja vorur sínar, en vard hertekinn á leidinni af Ræningjum og fluttur fánginn til Tetúans Stadar í Konúngs-ríkinu Fez í Afriku Barbarii til þrældóms þar, ásamt samferdamonnum. Hann fæst nú ecki leystur út þadan fyrir minna enn 2000 dali; en — Gud veit, ad vid hofum engin úrrædi med þá. Þó vinna þær Módir og systur mínar eptir mætti nótt og dag, til ad reyna hvert þeir tokfins ecki aunglast saman, og eins eg, hjá Gimsteina-smidi þeim, sem eg þjóna, og reyni eg þar hjá, eins og þér sjáid, til ad vinna mér inn skilding á helgidogum; vid lifum líka svo spart, sem verdur, oll saman í litlum fátæklings kofa. Í fyrstu ætladi eg ad komast hedan til Fodur míns og bjóda mig fram til þræls í stad hans, en Módir mín komst ad áformi því, qvad þad ógjorlegt, og fyrirbaud ollum Skipsegendum, sem sigla til Midjardar-hafsins, ad flytja mig. — Fær þú samt á stundum fregn um Fodur þinn? spurdi Aðkomu-madur, eda veitstú hverr hann á í Tetúan fyrir þræl, og hvernig honum þar lídur? — Herra hans þar, ansadi Hróbjartur, er settur

*) Í Litlu-Asíu (Anatolia) í Tyrkja-veldi, med hier um 120,000 innbúum.

ysir aldingarda Konúngs; er og vægilega med hann farid og hann ecki framysir megn Þrælkadur; en — ockur vantar hann og hann ockur til huggunar og rauna-léttirs. Hann er Þarfiærri vesælings konu sinni og börnum, sem honum er svo sárt til. — Hvad nefnir hann sig í Tetdan? spurdi Adkomu-madur. — Sama, sem hérna — Hróbjart — ansadi sveinninn. — A! á! Hróbjart, hjá Umsjónarmanni aldingarda Konúngs, sagdi Adkomumadur; Þessar mannraunir og hjartalag Þitt fá nú á mig; Þad verdskuldar vægari forlög; eg vil og vona ad ár Þessu bætist fyrir Þér med lid; vonadu góds til Guds! Vid Þetta Þagnadi hann fyrir sljett, sat alltaf í Þúngum Þankum og taladi eckert uns dymma tók og Þeir lögdu aptur til lands; laumadi hann Þá um leid hann upp úr bátnum steig á land, peníngapyngju sinni í lófa Hróbjarts, en hljóp svo hradt úti myrkrid Þadan ad hinn feck ecki svo mikid, sem Þackad honum Þá miklu rausnargjöf. Í pyngjunni vóru 16 Pistólu-stycki *) og 10 dalir í silfri.

Hróbjartur hrærdist innilega vid Þvílika edallund, og hljóp aptur og fram um allann Stadinn daginn eptir til ad leita upp Velgjörara sinn og Þacka honum; en — hann var Þá hvergi ad finna. Ett hans héldt sama kappi fram med ad ávinna nockud med ydn sinni til

*) Mynt, sem gyldir 4 til 5 rdla hvert Stycki.

Utlausnar Fodur hans, ef mögulegt yrdi med framm d.

Þad bar til einhvern dag laungu seinna, þegar ættfólk þetta ætladi ad taka sér kljenann middagsverd saman, sem optar, af braudi og þurrum ávöxtum, ad Húsfadirinn, þeirra ástkæri Fadir, Hróbjartur, geck öllum óvæntur og til allra mestu furdunar inn til þeirra í hreysid og var tiguglega búinn. Hann fell um háls konu sinnar og barna og hrópadi upp: „æ! „hversu máttud þid svo brádlega orka ad fá „mig útleystann og þad þanninn, sem gjört er? „Sjáid! hversu stáztlega eg er útbúinn, og „þaradauki voru mér taldar 50 Pistólu myntir „út í hönd, þegar eg steig um bord, hvar flutn„ings kostnad minn og kost, var þar hjá búidfyr„irfram ad borga! Segid mér nú, í Drottins „nafni! æ! segid mér, hversu þid fengud svo „ærna peninga ávunnid í því bágindaástandi, „sem eg nú finn yckur?" Kona hans var í fyrstu svo frá sér numin af undrun og fögnudi, ad hún kom engu ordi út; allt lendti hjá henni í þegjandi fadmlögum og fagnadar tárum; eins geck med dæturnar; en Hróbjartur hugsi sat hreisingarlaus á stóli sínum, frávita, mállaus, og fell loksins útaf í ómeginn ofan á gólf.

Smámsaman hresstist Módirin svo vid, ad hún talad gat, bendt á Son þeirra í aungvit lidinn og sagt: „Sjádu þarna þ nu, er „frelsadi þig, og hversu glédin ad sjá Fodur „sinn gefinn sér aptur fær á hann! en — Aht.

 

„um vid ockur ad bjarga honum til rænunn-„ar!" Þær mædgur hlupu ad honum allar í einu og dreypptu svo á hañ, ad aungvitid leid frá; hann stardi þá veikum augum lengi á Fødur sinn, en feck eckert talad um hríd. „Vid „þurftum 2000 dali," sagdi Módirin, „til „þinnar útlausnar; núna fyrst hofdum vid lid-„ugann helfing þeirra fengid samandreginn og „mestallann þó med ást og ydni Sonar ock-„ar; en — þetta edallundada, góda Barn hef-„ir án efa hitt á vini, sem hrærst hafa til med-„aumkunar vid dygd og rækt hans og lánad „honum fé til frelsis þér. Honum munum „vid efalaust þacka mega heill ockar, og hefir „hann víst viljad gledja ockur óvart med heñi."

Fadirinn vard ordlaus allt í einu; fell í djúpa þánka, en snéri sér sídan ad Syni sín-um med óttafullu bragdi og mælti: „Óláns „drengurinn þinn! hvad hefir þú framid? því „leyndir þú Módur þína frelsi mínu, hafir þú „ecki keypt ockur þad med neinu ódáda-verki? „Hvernsu máttir þú á þínum aldri og í þinni „stett abla svo mikils fjár, án þess ad verda „sekur af óttalegum afbrotum? Eg titra af „qvídda fyrir ad fregna þad, en gack þú hreint „ad sök og láttu ockur oll deya, sértu hættur „ad vera ærlegur Drengur!"

„Æ! verid óqvídinn, Fadir miñ!" ansadi Erlbjartur úngi, og stod upp med veikum mætti, „leyfid Syni ydar ad fadma yđur! hañ „er ecki þessa fagra nafns med ollu óverd-

„ ugiir! Eckt mér eda neinu ockar egid þér
„ frelsi ydar ad þacka. Eg þecki ockar Vel-
„ gjörara. Só er þad vist, Módir mín! sem
„ gaf mér ókenndur peninga sjód sinn. Hann
„ spurdi mig svo itarlega um hann Fodur minn.
„ Hann skal eg uppleita, hvar helzt, sem hann
„ er; hann skal koma fyrir, njóta velgjörda sinna.
„ og taka hlutdeild i fögnudi ockar og tárum
„ út af hreinu inndæli hans." Sídan sagdi
hann Fodur sínum söguna af siglingum sínum
med Adkomumanni fyrrum, sem fridadi karls-
fuglinn allvel. Þessum tjer ár þessu dável i
bái, eptir þad hann komst i forna ró og reglu,
svo hann ad tveggja ára fresti vard audmad-
ur, feck vel rádstafad börnum sínum, og taldi
ætt sú öll sig svo heillasama, ad eckert annad
þókti hana ávanta, en heppni Sonarins til ad
fá sinn hulda Velgjörara þeckt, hverjum öll henn-
ar heill vyrdtist þá helzt vera ad þacka.

Svo vildi loksins til einn Sunnudags morg-
un fenna meir, þegar Hróbjartur ungi reik-
adi einsamall fram og aptur med höfninni, ad
hann hitti þar ad óvorum Velgjörara sinn. „Æ!
„ minn vardhalds Engill!" var allt hvad
hann feck mælt, ádur enn hann á svipstundu
fjell i ómeginn vid fætur hans. Só ókeckti
madur tók strax ad stjana vid hann og bar
ylmandi balsam ad vitum hans, uns hann rakn-
adi vid á ný og spurdi hann þá um orsök til
óvits hans? Æ! Herra!" ansadi Hróbjart-
ur, „ þurfid þér þess ad spyrja? hafid þér ucki



„ gleymt Hróbjarts nafni og hans ádur ógæfu-
„ legu ætt, hverja þer sæla gjørdud med end-
„ urlausn hennar Fødurs?“ „Þú villist, vin-
„ ur minn!“ mælti sá Ókenndi, „hverki þecki
„ eg þig né þú mig, því eg er nú gestur hér í
„ Marseille Stad og hingad kominn fyrir fá-
„ um døgum.“

„Svo má vel vera,“ sagdi Hróbjart-
ur, „en þér munid þó til, ad hérna vórud þér
„ staddir fyrir 2ur árum, og á rjátli med sjón-
„ um; tókud mikla hlutdeild í mædu miñi, frétt-
„ ud mig margs þar ad lútandi svo ad þér verda
„ mættud minn og minna Velgjørari. Fáid
„ þér, Frelsari Fødur míns! því gleymt, ad þér
„ undir eins bjørgudud heilli ætt, sem nú eink-
„ is annars óskar sér framar, enn ad nálega sjá
„ ydur? Æ! sinjid henni ecki þeirrar óskar, deil-
„ id med henni þeim føgnudi og blandid hans
„ tárum ad ydar leiti vid hennar. Æ! kom-
„ id þér nú med mér!“ — „Hægt! Hægt!
„ gódi Vin!“ ansadi sá Ókenndi, „eg hefi
„ sagt þér ad þú villist magnlega.“ „Onei!
„ Herra!“ mælti Hróbjartur, „ecki villumst
„ eg, því andlitsfall ydar er of djúpt innrafid
„ mér í sálu og hjarta til þess, ad eg nú ecki
„ skyldi þeckja ydur. Æ! komid! eg særi yd-
„ ur, edallundadi Herra! komid nú med mér!“
og tók hañ þá um leid um handlegg ens ókeñda,
til þess ad leida hann heim med sér, en fólk
margt, er áhlýddi, flocktist ad þeim badum. Nú
tók sá óþeckti madur alvarlegri róm og rádsett-

ann. „Kjæri Vin!" sagdi hann, „þetta fram-
„ferdi gedjast mer midur, ecki heldur er þad
„þer til bóta. Einhver undarleg svipliking
„má þinni villu valda. Gættu samt skynsemi
„þinnar betur og halltu heim aptur til fólks
„þins til ad njóta þar þeirrar rósemdar, á
„hverri þer vyrdist nú þorf."

„En hvad þer erud nú hardgedja! —
qveinadi Hróbjartur úngi hástøfum upp —
„skal eg nú forgefins liggja her flatur vid fæt-
„ur ydar, en þer forsmá þad þacklæti, sem ock-
„ar hjørtu eru ydur svo lángvarandi skuldug
„um! Æ! Medbrædur! hjálpid mer, hjálp-
„id mer til ad bidja Høfund ockar farsældar,
„ad koma nú med mer og skoda sitt egid verk."
Nú skreittist sá ókenndi Madur vid ad ver-
ja ollu sálar stødudglyndi til ad standast þessa
freistingu, til svo innidællar ánægju, sem honum
þá baudst. Hann sleit sig úr høndum hans
og hvarf, sem leyptur, inní mannþraungina,
en Hróbjartur stardi mænandi augum eptir hon-
um, þegar hinn leifdi þar forvidra manngrúa
þvílíkt dæmi edallyndar, hvers líka hann ald-
rei fyrri sá.

Hróbjartur úngi stód eptir hissa og frá
ser numinn, svo fylgd vard ad [illegible] honum heim,
en þar fossudu þegjandi tár nidur um vánga
hans og veittu loksins nockra hugar-fró.

Fyrst eptir Dánar-dægur þess ópeckta
Velgjørara, vard vid serlega hendingu þjód-
kunnugt, ad hann var sá, fyrir hvann lær-

dóm og fyritaks sálar-gáfur um alla Nordurálfuna vídfrægi Forseti (Præsident) Monteskjø (*Montesquieu*), fagurt ljós Fránkaríkis um hans daga *).

---

*) Charles de Secondat, Baron de la Brede, & de Montesquieu fæddist á Slotinu Brede hjá Bordeaux í Fránkaríki 1689, vard í nefndum Stad Parlaments Herra 1714, og eptir Forseti þess 1716 (Præsident a Mortier). Gaf út 1721 þau vídfrægu persisku Bref, full af lipi, anda og inndæli. Hans nafntogada Meistara-verk: Esprit des Loix (Laganna lif og andi), útkom 1748 í 3ur Bindum í 8vo á Frønsku, og hafdi hann safnad efni til þess í 30 ár, en til þess ad gjøra þad verk sem fullkomnast, sleppt frivilíuglega øllum tignustu Embættum, og ferdast um helztu Nordurálfunnar lønd, til ad verda ádur grann-kunnugur þeirra løgum og sidum. Er mælt ad hann sidan sagt hafi um Þýdskaland: ad verdt sé ad ferdast um þad rett sem snøggvast; um Valland: ad skaldra þar vid um hríd; um England: ad hugsa sig þar um; en um Fránkaríki: ad lifa og deya þar. — Hann reit og nafntogad verk á Frønsku, um Orsakirnar til uppgángs og undirgángs Róma-veldis, sem útkom 1734; var allstadar vídfrægasti gáfu- snilldar- og gædsku-madur — eins vid þá lítilmótlegustu bændur og almúga likt og þessi Saga sýnir — og deydi 1755. Sá enski lærdi Lord Chesterfield setti honum þau Eptirmæli: „ad dygdir hans „heidrudu mannkynid; ad hann auglýst hafi „med frjálsrædi, þess óhyggjanlega rett; hans





# VI. Ameriku Fundur.

Ferdinand V Kóngur í Arragón ektadi Isabellu Dóttur Hinriks IV. Konúngs í Castilíu, sem reyndi árid 1474 og sameinudu þau þanninn þessi tvo Konúnga-ríki, sem nú eru mestur hluti af Spánar veldi. Þessara Rikja sameining og fenginn sigur yfir Mórum (Maurunum), sem um sídir urdu útreknir úr Granada og Umdæmum þeim á Spáni, yfir hverjum þessir mahómetisku Afriku-búar (Saracenar) höfdu svo lengi drottnad*), giördu þá Spánar Veldi hid álitlegasta eitthvert í Nord-

„verk lofi hans minningu og muni lifa hañ, „á medan upplýst skynsemi, skyldur og rett-„vís Laga andi verdur skilinn, virdtur og „vidhaldinn." — Einginn má framanskrifad Sögu-dæmi uppá dygd hans, edallund og rausnarlega örlæti, fordildarlaust í leyndum, stadfesta Chesterfields og ótal annara dóm um dygdir þessa mikla manns.

*) Asamt Mórunum (Blámönnum, Blökkumönnum), komnum úr Mauritanalandi suñan fyrir Njörfasund), urdu þá 170,000 Gydinga, sem ecki vildu taka kristna Trú, útreknir úr Spáni, en landid eyddist þar vid mjög af mönnum, og vid farit Spanskra til Ameriku, þegar hún fannst. Andæsi mikil úr þeirrar álfu gull-grófum sídan flutt til Spánar steyptu innbúum hennar med ydjuleysi og vellyst í miklu meira volædi enn ádur, en Kristinndómurinn smánadist miklu meir enn hann vann, vid grimd kristinna



vrálsunni. Spanska Stjórnin sjet sér þá umast um ad grundvalla Herradæmi sitt og á-koma reglu í löndum sínum. Audæfi þau, sem Portúgals innbúar tóku þá ad sér ad draga úr Afríku, voktu hana lítt til álíkra útrettínga, og ecki dreymdi hana þá par, auk heldur meira, til landnáma eda Landa-fundar í fjarlægum höfum.

Madur nockurr af ótignum stigum, en þó lengra kominn enn öld hans í skynbragdi á stjörnufrædi og leidarstjórn hafskipa vyrdtist, sem vaknadur til ad ala önn fyrir Spánar veldis auka. Christóphor Colúmbus var heiti hans, og var sem honum væri blásid í brjóst, ad til mætti vera annad megin-land, enn þá var þeckt, og ad fundur þess mundi fyrir honum liggja.*) Ad Anfærlingar á hnetti vorum gæfust, sem þá var einber heimsku grilla haldin, og ad hjátrúar dómar allir um villu- og gudleysi ad

vid Indíána, og innleiddann Ransóknar-rett um Trúarbrøgd, sem á 4um árum brenndi á Spáni 6000 manna, þó Mahometa og Gydinga Trú væru þadan þá útrýmdar.

*) Hann var fæddur í Genúa Stad á Vallandi árid 1447, fieck þegar á barns aldri megna laungun til siglínga, og gaf sig í þær 14 vetra, sem þá þótti fáheyrdara. Í strídi milli Genúa og Feneya var Columbus þá, sem únglíngur; en þegar quiknadi í skipi hans, og eldurinn læsti sig nálægt púdurhúsinu, bjargadi hann sér til lands á stýri, sem hann sá fljóta vid skipid, ádur enn þad flaug í lopt upp.

leida sér þvílíkt í hug, var allt byggjandi sann-indi í þaunkum þessa Gáfumanns. Fulltrúa um það hugboð sitt, eitthvert hið djarfasta dauð-ligra manna, stack hann uppá við landa sína í Genúa, að leggja hinn hálf-hnöttinn jarðar-innar undir sig*). En — þetta hans fría Fóðurland virðti hans framvarp að vett-ugi; allt eins Portúgals Stjórn, við hverrar Hof hann bar sig fram, því hann dvaldi þá í hennar Aðsetursstað; sömuleiðis tók England ecki undir við hann, enn þótt líklegast þækti lið-sinni þaðan til allra leiðángurs-fara; varð Co-lúmbus svo lokfins að bera sig fram með hug-boð sitt og heilræði við Spánar Drottningu Isabellu.

Ráðgjafar hennar qvaðu strax hann að vera grillóttann mjög, sem hugði sér nhann



*) Af Mælíngar- og Stjörnu-fræðum vissi hann, að þær þá þecktu 3 Heims-álfur láu allar sama megina á jarðarhnettinum, eins og afmál-an hans við vora nú-útkomnu Jarðarfræði vottar. Hann ályktaði því, að eitthvert mikið megin-land halda mundi þeim álfum jafnvægi hinumegin; líka bar hafið upp á azorisku Eyarnar fyrir vestan Norðurálfuna, þegar hann var þar staddur, eptir lánga vestan storma, heil og útskorin trje og annað í þeim álfum óþeckt og einkum lík tveggja manna, sem vóru þessara álfa innbúum harla ólíkir ásýndum og að lit, hvað allt styrkti það hugboð hans.



heim ad finna; tóku honum lengi med drembi-
læti því og vanvyrdu, sem fávísum Embættis-
mönnum er alltamt í frammi ad hafa vid göfu-
menn. En — Colúmbus lèt sig alls eckt þat
med fæla; því, eins og allir forizaks menn, sem
lengi hafa ígrundad afbragds fyrirtækja fram-
vorp, framfylgdi hann sínu med þvílíkri ákefd,
ad þessi dafnadi, jókst og hardnadi mót sèr-
hverjum fávitsku hleypidómum, drambseminnar
vanvyrdu, ágirndarinnar nirfilshætti og dofinni-
leikans undanskotum. Hans stoduglynda, háa
og djarfa sál, forsjálni hans og framgirni gáfu
honum loksins sigur yfir öllum vandrædum,
sem í veginn lögdust. Konúngur Spánar
gjördi hann út med zur smáskipum med 90
manns á, og lètu þeir út med þeim (frá höfn-
inni Palos í Andalúsíu) þann 3ja Aug. 1492;
var honum til ferdar þeirrar veitt Admíráls og
Visi-Konúngs nafnbót og vald á Eyum
þeim öllum og löndum sem hann fundid gæti.

Eptir lángar og árdlausar siglingar tóku
Skipverjar ad fælast þann óra-veg regin-hafa,
sem þeir, þegar komnir vóru í fjarlægd vid
þeirra fósturjördu, og aldúngis ad örvænta sèr
alls landa-fundar. Þeir mögludu þar um hátt
og rádgérdu margsinnis ad varpa Colúmbusi
fyri bord, en halda heim aptur til Spánar.
Admírállinn lèt, sem hann grunadi alls eckert
þar um, uns hann tók eptir ad gremja þeirra
magnadist svo, ad út mundi bráar brjótast til
uppreistar, en þá qvadst hann sjálfur mundi

heimkeidis aptur snúa til Nordurálfunnar, hitti hann hvergi á nýtt land ad þur dögum lidnum. Nockru seinna stód sóckuvarp hans botn, og af merkjum ödrum, sem sjaldan bregdast, rédi hann, ad skamt mundi hann undan landi vera.

Þad var þann 12ta Okt. 1492 ad þessi nýa heims-álfa fannst. Lagdi Colúmbus þá ad Eyu nockurri (af þeim Lúkayisku eda Bahama Eyunum í Vestindíum), hverja hann kjrdi *Sanct - Salvador* (eda heilagi Frelsarinn — þessum til heidurs, vegna frelsis síns þar fengins. — Nú nefnist sú Eya Gúanahami, og liggja þær fyrir austan Mexikós-flóann, nálægt Mid-Ameriku). Eyu þá lýsti hann strax Spánar eign — í Isabellu Drottníngar nafni — þó þá heldt þad enginn madur á Spáni ránglæti, ad leggja undir sig þau lönd, sem Kristnir (ad nafninu) ecki rédu fyrir.

Eyarbúar, sem (þá fyrst) sáu hafskip, og farmenn mjög svo ólíka þeim, urdu strax skelkadir og runnu á flótta. Spanskir nádu fáeinum þeirra, en slepptu nockru seinna, þegar sæmt höfdu þá vina-hörum nögum og gjöfum, og þurfti þá ecki framar vid til ad tryggja þeim alla þjód landsins. Fólkid flocktist ad sjódarmáli verjulaust; margt fór út á skipin, granskodadi og undradist allt. Þad sjet einúnais gledi og grandvark trúnadartraust í ljósi; færdi skipverjum næga ávexti, og bar þá sér á herdum til lands. Sömu gódvild og sídi vott-



udu nábúa Eyanna menn. Farmönnum þeim sem Colúmbus útsendi til Landnáms-fara, var allstadar vel tekid, hvar helzt sem þeir komu. Karlar og konur og únglingar allir sjetu sér annt um ad afla þeim og færa vista-forda; hvílur þeirra sylltu þau med fínasta Kotúni (bómull) til ad sofna útaf í. En — Nordurálfu menn girntust helzt Gull, og þad kom þeim nóg fyrir sjónir, þvi flestir þessa villifólks báru þenna dýrmæta málm til skarts á kroppum sínum (t. d. í nefsjum, líkt ödrum þjódum í eyrnagullum), og gáfu hann þessum nýkomnu gestum sínum. Þessir urdu í sinni ölu heldur uppæstir til frekju vid nekt og einfeldni enn hrærdir af gódmennsku hinna, og báru ecki skyn á ad kannast vid náttúru-saklepsisins audkenni á fólki þessu, heldur furdudu sig mjög á eir-liti líkhama þess, og ad finna þar fólk skégg- og líkhára-laust, og álitu þad þessvegna sem ófullkomnar skepnur, hverjar þeir úr því hefdu strax miskunarlaust medfarid, hefdi þeim ecki verid árídandi í brád af því ad frædast sviarlegar um, hvad sémætast væri til í þar nálægum löndum, og hvar helzt gull-málmar væru nógir fyrir.

Þegar Colúmbus kannad hafdi ymsar medal-stórar Eyar, heldt hann ad Stór-eyu nockurri, sem Eyarmenn nefndu Hayti; hann skírdi þá sömu Hispaníóla, en nú ber hún nafnid St. Domingó. Nockrir Eyabúar adrir fylgdu honum þángad án minnstu tortryggni,

og höfdu þeir skírt honum frá, ad þar væri gullid ad finna á stóru Eyunni, sem þeir bæru, og sem Spanskir vóru svo sólgnir í. Eptir medilángri Eyunni Hayti, sem er 200 (fransk-ar) milur á lengd, en 60 til 80 sumstadar á breidd *), gengur vídarst hár fjallgardur frá austri til vesturs eptir midju hennar; og var hún þá skipt á milli 5 mjög svo fjölmenra þjóda, sem lifdu saman í gódri einingu. Riktu yfir þeim einvalds Konúngar, sem nefndust Casikar, med almennings ást og lofi. Vóru þar Eyarteyin bjartleitari enn á hinum; þeir litudu kroppa sína og gengu allsnaktir. Qvennfólk bar ad sönnu einhverja pils-mynd úr kotúni (bómull), sem þó ecki nádi ofaná knén. Þeir lifdu á indiskri korntegund, er nefnist Mays, af ávöxtum, rótum og skelfiski; vóru sparneytnir, léttir, slinir, burdalitlir og litt hneigdir til stritverka, á hverjum þeim ecki heldur var nein þörf. Því þær þjódir lifdu allar í ró og þeim þægilegu ydjuleysi. Æfinni eyddu þær mest til dans- og gaman-leika og til svefns. Spanskir töldu þá ófrid gáfu trega, og í raun réttri er hjá Eyabúum, sem afhólmadir eru frá umgengni annara þjóda, lítils frödleiks ad vænta, því upp-

*) Þad verda hier um 119 danskar milur ad lengd, og her um 36 til 45 milur ad breidd, litlu mjórri því, en hálengri enn vort Island. Töldust þá hier um 1 milljón innbúa á Eyunni; nú máskje talsverdt færri, eptir mörg og megn strid og dráp manna á henni.



lýsíngar ljós vill glædna seint og tregt hiá þeim samfélögum manna, af hvi þeim bætist lítil fregn af uppgötvunum þeim og mentaframförum, sem tíd og reynsla audgar önnur Samfélög med. Hendíngar, rögunar spil og glæfraferdir, sem opt eru svo lærdóms-rík, eru og lángtum færri og takmarkadri hiá hinum *). En — Spanskir sjálfir tjá oss þó, ad þiódir þessar vóru gódar og manndádlegar, óhefndargjarnar og spaklyndar. Þær vóru fákunnandi, en girnust líka fótt ad nema. Þetta sinnuleysi og þad ótortrygganda traust, sem þær báru til adkomumanna, sannadi ad þær lifdu þá sælu lífi. Öll þeirra saga og allar sidareglur samanbundist í litlu Vözda safni, sem þeim var kennt í bernæsku, og — eins og hiá ödrum þiódum ödrum — (engu meral þeirra nockrar dæmisögur um uppruna mannkynsins.

---

*) Sönn en sorgleg er tilgáta þessi um Eya-búa, fjarlæga og útilokada frá umgengni, vidskiptum og mentunum framandi þióda, og hryggileg tilhugsan, ef Íslands innbúa fjarlæga afhélman, dregur hier yfir Eyu vora álíkt þreifandi myrkur í sálum vorum, sem Ferdasögurnar lýsa hiá fiölda frá umgengni annara afskecktra Eya-búa vída um heiminn. Þar efna- og vörningsleysi hiá oss, banna nú innbúum hiedan margar utanferdir vída um heim og vidskipti, verdur einasta medalid oss leyft, til vidsörullar skodunar heimsins, ad kynna oss Veraldar- og Ferdasögurnar, til ad verja oss alblindu, en lesa gódar bækur, og láta þær kynna oss þad markverdasta af gódmentum.

Fátt er oss sagt af átrúnadi þeirra, ecki heldur vyrdtust þær láta sér mjøg um hañ añt; samt er ecki ólíklegt, ad þeir, sem eyddu þeim þjódum, hafi í því tilliti, sem mørgu ødru, fundid þeim ofmargt til hnjóds. Þeir eignudu hjá þessum Vestindia þjódum, ad þær tilbædu margar vondar Vættur; en — þad er ødrúnvis ótrúlegt, hvø þeir, sem dyrkad hafa Djøfla, hafa aldrei gódir reynst.

Engin løg medal þeirra áqvørtudu par, hverju margar konur hverr eiga mætti. Optarstnær hafdi ein medal hinna einhvern forrett eda audkenni, en þó enga yfirbodun yfir hinum; og vanalegast þvílíkt þeirri, sem var helzt vid mannsins ged og sem hann hugdi, ad sér mundi best unna. Sú liet og allopt grafa sig ásamt mañi sínum þegar hann deydi. Þad var ad sønnu hverki vidtekinn háttur eda skylda, né þókti vyrdíngar-merki þeirra á milli, heldur regna þess, ad kona sú treysti ecki til ad lifa þañ daudañ, sem hún unni best.

Eyamenn þessir høfdu alls engin vopn ønnur enn boga og ør var ór trje, og var oddur þeirra herdtur ad eins vid elds sqveikju og stundum hvasst stein brot fekid framan þar eller naal-bein. Ohondugleg for þeim og ad skjóta þeim ørvum, enda var hversdags fatnadur Spanskra fullnóg hlíf mót þeim. Þessi vesælu vopn og smá-kylfur, eda rettar nefndar lurka renglur, med hverjum sjáldan vard banahøgg veitt, gjørdu þjód þessa litt óttalega.

Ymsar stéttir manna vóru medal þessara þjóda, af hverjum ein taldi sér bera vissa tignar-tegund, en óljóst er samt um þalls-skyldur þeirrar Stéttar, eda hvad leida mætti til hennar forréttar. Lika toldust galdramenn, þessi alkunnugu born eda fedur hjátrúarinnar, algengir vera medal þessara fávisu villi-þjóda.

Colúmbus neytti allra bragda til ad hæna þessa Eyabúa ad sér; en þar hjá samnadi hann þeim, ad þó hann vildi þeim allt eckert mein vinna, væri þad samt sér í valdi. Þær furdanlegu verkanir hans fallstyckja, uppá hverjar hann í návist þeirra syndi þeim dæmi, sannfærdu þá þar um. Spanska héldu þeir sér því vera menn ofanstigna frá himnum á jordina, og gjafir þær, sem þeir þágu af hönum, vyrdtust þeim ecki einfaldt glingur, heldur helgir dómar. Só villa kom Sponskum vel í hag, og hún vard ecki upprætt vid neinn breisskleika eda grimd þeirra. Þessu villi-fólki gáfu þeir raudar húfur, perlur úr gleri, prjóna, knífa og bjöllur, en þad Sponskum gull og matar-forda í stadinn.

Strax, sem þessi góda einíng komst á, markadi Colúmbus sér stædi til adseturs þeim, hvadan hann ásormadi ad framqvæma allt, sem hyggjan baud honum ad ãtretta. Med adstod Eyarbúa mindadi hann dálitid Vigi og stédu þeir þar kátir ad smidum sinna eginn þrældóms hleckja. Þar skildi hann eptir 39 Castilin-manna, og þegar hann granskodad

hafdi mestann hluta Eyarinnar, sjet hann út þadan til hafs áleidis aptur til Spánar.

Þeir nádu aptur Palos's hofn, eptir 7 mánada og 11 daga burtu-veru, hvadan þeir fyrst létu út; héldt Columbus strax landveg þadan til Barcelona Stadar, hvar Kongúngur þá bjó med hird sinni. Sú ferd hans var, sem sigurfor. Adals- og almúga-fólk þusti át til ad mæta og fagna honum, og fylgdu honum á fjolmennum flokkum beint ad fótaskor þeirra Ferdinands og Isabellu. Þeim syndi hann Eyarbúa, sem fásir hofdu gefid sig honum til samfylgdar. Hann lét bera fram gull-stycki, fugla, kotún (bómull) og margt gersemi, hvers nyhángar gjordu þar dyrmætar; þvílík mergd af ádur óþecktum hlutum, logd fyrir sjónir þeirrar þjódar, hverrar hegóma-girnd og hugmindan gjorir dýrt úr ollu, taldi þessari trú um, ad í Ameriku fundin væri óþverranleg uppsprettu-lind audæfa, sem um aldur og æfi fljóta skyldi fram yfir hafid til Spánar. Almenníngs fíkn og óstjórn nádi jafnvel til sjálfra Einvalds-stjórnendanna. Vid erindera á heyrslu, sem þau Kongúngur og Drottníng veittu honum, bádu þau hann ad taka sér sæti og setja upp hattinn, eins og Sjómennum Spánar leyfist. Þeim þuldi hann sidan Ferda-rollu sína. Þau vottudu honum mikla blídu, lofstír og heidur, og litlu seinna lagdi hann út aptur med 17 skip til Ameriku til nýrra uppgotvana og landnáma.

manna lífs, hvar hann þóktist ráda fyrir landi. Eyabúar budu þeim alla hluti, en þeir heimt-udu upp frá því hvad eitt, sem skyldu-skatt, og af hinum sífellt gull og matar-vistir. Þeir ó-gæfusömu Indíánar þreyttust loksins ad yrkja jördina, stunda dýra- og fugl-veidar og fiski-ablu og vinna gull- og silfur-málma úr björg-um, fyrir ósedjandi sýkn Spanskra; en úr því hétu þeir samt sífellt eckert annad enn Drott-ins svikarar og baldnir þrælar, hverra saklausa blódi menn leyfdu sér út ad hella.

Columbus, sem framheldt rannsóknar-ferd-um sínum, frétti, ad Indíánar væru uppvægir ordnir vid þessa grimmu medferd, og hefdu upp-hlaup fyrir stafni, og sneri því þángad aptur. Hans áform var, ad sætta hlutadeigendur; en hann vard hrifinn af svikafullum hrópum sinna grimmu og grádugu Dáta til ad beita fjand-skapi, sem hverki var ad gedi né áformi hans, svo ad hann vyladi ecki fyrir sér med 200 fót-gaungu og 20 riddara-lids ad rádast á 100 þúsunda manna her þar, sem sídar bygdur vard Stadurinn St. Jagó. Þeir óluckulegu Indíánar vóru þegar yfirunnir, ádur enn til orustu kom; þeir álitu Spanska, sem verur med ædri náttúru. Vopn Nordur-álfunnar hafdu ádur aukid furdu og vyrdingu þeirra og kotid öllum skelk bringu. Einkum urdu þeir hissa vid ad sjá hestana, og margir full-fávísir til ad halda mann á hestbaki og hestinn undir honum ad vera eingöngis sömu skepnu — ellega

er einhvern Gud — Þó þessi skélkur ecki hefdi dregid úr þeim allann hug og dug, orkudu þeir samt einúngis veikri mótvorn ad beita, þvi fallstyckja eldurin, spjótin og þeim óþeckt hernadar-ment hefdu audveldlega tvístrad þeim öll-um. Þeir flúdu og i allar áttir, beiddust grida og fengu þau med skilyrdi, ad þeir framvegis ickja skyldu londin Sponskum til handa, og færa þeim á hverjum mánudi áqvedna vigt af gulli.

Þessar hordu álögur og grimd Spanskra, sem jók þeirra hardneskju, vyrdtust Eyabúum brádlega óbærilegar. Til þess ad skjótast undan þeim, leitudu þeir sér hælis med flótta á fjollunum uppi, hvar þeir gjordu sér vonum, med dyraveidum og villi-voxtum, ad fá sér ablad þess litla uppheldis forda, hvers þeir vidþurftu, á medan fiendur þeirra, sem hverr eyddi vistum vid 10 Indiána, fundu algjorlegonn bjargarskort, og yrdu þvi ad halda heim aptur. En þeim vard ecki ad þvi; Spanskir heldu sér uppi vid matbjorg þá, sem þeim var ad heiman send, og æstust þvi framar upp vid flótta Indiána til ad framfylgja sinu ómanneskjuleg a áformi. Vedi þeirra vísadi þeim veg þángad, sem margur hefdi ógengt haldid. Þeir vondu hunda sína til ad naja upp og rífa i sig þá aumkunarverdu Indiána. Nockrir þinna heitstrengdu, á hverjum degi ad sálga 12 Indiánum hverr, til heidurs Kristo 12 Postulum, og drápu leks nidur allann þrid.

Júng Tyar-búa. Mælt er, ad vid komu Spanskra til Eyunnar St. Domingó, hafi hún bygd-verid af fullri millíón manna, og öll rok leida til þess, ad sú tala se eckert ýkt, þvi þad er óyggjandi, ad fólks fjöldi var þar mikill fyrir.

Þeir, sem komust hjá harmqvælum, ofþreytu, sverdsins og daudans ógnunum, urdu neyddir til ad gefa sig á Sigurvegarans vald, sem nýtti sér neyd þeirra, þvi heldur med hardúd, sem Colúmbus ecki var vid til ad sefa hana. Sá mikli madur var þá sigldur heimleidis aptur til Spánar, til ad skira Ríkisstjórninni frá grimmleika þeim, sem skaplyndi honum undirgefinna gjördi honum ofvaxid ad fyribyggja, og hverjum sífelldar siglingar hans bönnudu honum ad aptra. Á medan hann þá var fjarlægur, lifnudu óspektir svo, ad fjandsinnis og upphlaupa andi fleit í sundur þá Landnáms-manna bygd, sem Colúmbus þar eptirskildi undir stjórn Bródur síns. Enginn gegndi honum úr þvi, nema þegar steypa skyldi Casik (Konúngi) einhverjum frá völdum, ræna bygdarlög ellegar eyda þeim og úthýma heilum þjódum. Varla höfdu þessir ölmu Dátar undir sig lagt eignir hinsra aumingja þessara, hverja þeir drápu, fyrr enn sóm óregla endurlífnadi. Laungun til sjálfrædis og ósjöfnudur í skiptum herfángsins, ögndi þessara ágjörnu manna græsku upp hver á eins gegn hins. Yfirbodan vard ecki framar virdt, þvi undirgefnir toldu sig um jafnlicka bódum



Kustbundna þeirra Yfirmönnum, sem þessir sig lögunum, svo allt snerist úr þvi til innbyrdis og opinberra bardaga.

Indiánar, sem stundum áttu i hatursfull-um og blódugum oruslum, en vóru auk þess jafnadarlegir sjónarvottar þvilikra, herdtu nock-ud upp huganu á ný. Þó þeir grannhygnari væru, þóktust þeir samt sjá færi á ad losa sig vid skeina osstopamenn, sem öll likindi vyrdtust til ad gleymt hefdu áformi sinu, en stjórnudust af oslockvandi heipt einni, sem hvert þeirra bar til annars. Sú von æsti þá upp. Sam-bond, slóttugri enn þeim vóru ætlandi, urdu med þeim fudgiord og hefdu máske allir Spansk-ir, hverjum svo megu hásski eckert tálmad feck til ad framhalda egin tjóni sinu, fyrir þeim ord-id ad súta, hefdi Colúmbus midt i þessum hættalegu vandrædum þeirra ecki komid aptur þeim til hjargar frá Nordurálfunni.

Sú heidursfulla vidtaka, sem Colúmbus feck i fyrstunni, hafdi eináunars gjort hversulár áhrisur á fólkid. Tidin, sem eptir óstyrnar fyken, leidir menn til rálegri eptirþanka, hafdi ærrymt allri laungun, sem i fyrstu vard almenn, til ad komast yfirum i þann nýfundna heim. Ecki gladdist sú laungun par vid aualhsingar um audæfin þar, eda jafnvel vid sjón gullsins, sem þadan kom. Blackt og sólbrennt yfirbragd allra, sem þadan aptur komu; nærmar og megn-ar sóttir; fregnir um vondsku veruráttusar og sjoldann, sem deydi og um hardretti þar; ó-

 

svo sinnadur reynst vid adkomu þeirra, mundi hann hafa gefid hinum eptirdæmi rádsvinnu og hlýdni, hverjum þeir hefdu neydst til og máske girnst ad fylgja. Sú samstemma mundi bestu afleidíngar haft hafa og grundvallad þar góda landsstjórn og niðurskipun. Þá hefdi líka mannúdlegri medferd ordid Indiána hlutfall, en gulls- og silfurverkin betur hagnýtt og tollatekjur ardsamari. Módurlandid (Spán) hefdi þar vid framar ordid upphvatt af heill þeirri, til ítrustu tilrauna og kostnadar ad byggja nýar og margar landnáms-sveitir, sem mundu vída útbreidt og aukid hafa Spánar veldi, vegsemd og aud. Fá ár þurftu til þeirra mikilvægu afleidínga. En — óhappa uppásláttur eyddi allri þeirri von.

Úr hóda-lýd þeim, sem Columbus hafdi um flutt og skörbrota-monnum, sem fyrir vóru á St. Domingó, vard brádum þad brádvandasta fólk, sem nockurstadar fundist hefir; fólk, sem hverki skeytti undirgefni, rádvendni né mannlegum tilfinningum. Þad beitti einkum ædi sínu gegn Admirálnum, sem um seinann sá villu sína vid val þess, til hverrar máske ofundarmenn hofdu hann leidt. Þessi ágæti madur keypti þanninn ofdýrt þann ordstír, sem gáfur hans og þrekvirki hofdu honum áunnid. Hans líf vard sífellt sambland af því, sem upphefur og niðurlægir sálir Sigurvegara. Sjaldan vard hann þad mark og mid, sem til samans manna hæfdu á, lastara túngur eiddu, en

vanþock Medborgara hlódst á. Þarhjá vard hann ad mædast af mislyndi Dramblátrar og tortrygginnar Stjórnar, sem á víxl umbunadi honum og hegndi, gaf gott traust sitt ellegar lagdi óvild á hann.

Rángsleitni Spánar Stjórnar vid Hof-und þeirra mikilvægustu uppgötvana, sem nockurntíma hafa gjördar verid, vöx svo, ad hún sendi yfirum í þann nýsundna heim Gjördar-mann, milli Colúmbusar og Dáta hans. Bódavilla hét manntetur þad, eitthvert hid þóttagjarnasta, ágengasta, ránglátasta og ósvífn-asta af öllum, sem komust til Ameríku. Hann lendti á St. Domíngó, varpadi Admírálnum í járnfjötur, og lét þanninn flytja hann til Spánar, sem einhvern audvyrdilegasta Illvirk-ja. Stjórnin fyrirvard sig fyrir svo skammar-lega medferd, gaf honum strax frelsi sitt, en þó án þess ad hefna á undirokara hans, eda setja hann inn aptur í vald sin. — Þessi urdu þá afdrif þvílíks fyritaks manns, sem fyrir augum allrar vorrar hissa Nordurálfu, bætt hafdi vid Jördina fundi hennar fjórda hluta, eda máske öllu heldur helfíngi öllum vid þann jardarhnött, sem svo lengi var endileggingum undirorpinn og þó svo litt kunnur. Opinberri þacklátsemi var ad minnsta kosti skyldt, ad skíra þenna nýfundna hálf-hnött eptir heiti þess hugprúda Farmanns, sem fyrstur þángad komst

H



og hann fann, því så heidur var ad vísu minn-íngu hans, en hvert sem ósund, gálepsi eda leikur luckunnar, sem einninn rædur fyrir vidfrægd manna, áttu þar í þátt, vard þó så ecki Colúmbusar hlutskipti, heldur geymdur og gefinn Ameriks Vespúzió frá Flórenz Stad á Vallandi, þó hann eckert til hans ynni, annad enn ad fylgja leidarvísir og förum þess manns, hvers nafn tignast ætti framyfir flestra annara nafi frægustu manna. Þanninn brennimerkti megnt ránglæti fyrstu tídina, er Ameríka vard þeckt af hinum hluta jardarinnar, og vard þad ógæfulegur fyribodi alls annars, sem forlögin áqvardad höfdu ad framfara skyldi í þessari um brid bluckulegu Heims-álfu.

Þetta ránglæti vard og ad óhæfum eptir Colúmbusar fall og dauda Drottníngar Isabellu. Þángad til héldu Spabúar fram samliss í bygdum sínum samqvæmt sidum, og undir stjórn Casíka (Konúnga) þeirra, enn þótt hjákadir mjög af þeim ofvoxnum þyngslum í skyldu strítverka og af gevsi álögum. Arid 1506 var Ferdínand Konúngur bedinn ad skipta þeim upp á milli undirokaranna, til þess ad þrælkast þar vid málma-grefti og allsháttar störf, sem hardstjórar þeirra fengju notad þá til. Trúarbrögdin og stjórnar-gagnid vóru tvær skylur, hverjar æ var reynt til ad breida ofanyfir þvílíka óhæfu og ómanneskjulega medferd á Spabúum. „Á medan", sögdu þeir, „þessu „villifólki verdur lidin frjáls æfing hjátrúar




„ Þeirra, mun þad aldrei þýdast kristna trú „ og æfinlega þúngbúid gánga med uppreistar „ áform, nema því verdi svo tvístrad sundur, ad „ þad alls eckert orki í ad rádast.“ Kóngur leiddist af fortölum geistlegra, hverja þá ógygdir trúar-lærdómar hneigdu jafnan til máls of-ríkismanna, og tjer þá beidni eptir. Gjörvallri Eynni vard skipt í sjölda mörg umdæmi. Serhverjum Spönskum, hvert heldur hann frá Castilíu var edur Arragón, hlotnadist meiri eda minni hlutur lands, eptir stett hans, ætt-gøfgi ellegar nádar-svilnun. Indíánar, sem bólfestur höfdu á serhverjum bletti, urdu upp frá þeirri stundu þrælar, hverra erfidis sveiti, líf og blód urdu eign Drottnara þeirra. Þessari keisslegu rádstöfun vard uppfrá því almennar framfylgt um allar landnáms-bygdir þessa ný-fundna heims.

Þanninn gáfu málma-grafir vissari ard af sér. Konúngur fekk í fyrstu helfing hans; seinna meir þridjúng, en vard loksins ad láta sér lynda fimtúnginn.

Audæfi þau, sem fluttust út frá St. Domingó, æstu upp ágirnd allt eins þeirra, sem ecki vildu þángad flytjast. Tignar- og Embættis-menn ödludust þar veitingar-bref fyrir lendum, sem audgudu þá fyrirhafnarlaust. Þeir ljeru Rádsmenn sína ráda fyrir þeim, en þessir ser hilltunnt eins um eginn og Drottna sins gróda; þá sáu menn og dæmi þess, sem óttálega



vyrdast mætti, ad grimd manna vóx hvad geysilegast; þvi 5 árum eptir þessa ómanneskjulegn rádstøfun, var talan allra indjskra Eyarbúa ordin þar — frá fullri Million (edur 1000,000) — einar 14 þúsundir Indiána, svo þá vard ad útvega og sækja frá nálægum eyum og fastalandi Ameriku, villifólk til á ný ad bæta þar úr mannekln til landa irkingar.

Hvertveggja kynslód vard þørud saman, rétt sem bestiur. Þá, sem hnigu nidur undir byrdanna þúnga, bordu menn á fætur med stór-hoggum. Þar fórust þessir aumíngjar hrønnum í málma grøfsjum, en konur vid jardirkju, sem geck framyfir verk-magn þeirra. Ofhólt og ofkljent fædi dróg allt fjør til fulls úr ársilita kroppum þeirra. Mædur ángbarna geldtust strax upp. Þær deydu af húngri og ofþreytu; margar í þvi þær heldu daudum ellegar deyandi børnum sínum upp ad geldum brjóstum sínum, hinum til endurlífgunar. Fedurnir drápu sig hrønnum med eitri. Ymsir hengdu sig í þeim somu trjám, ofan úr hverjum þeir taka urdu ílsslátnar konur sínar og børn, uppi hverjum þeir heyrdu seinustu qvedjur og andvørp þeirra. Í stuttu máli: þeirra kynslód finnst ecki framar.



VII.

# VII. Katrín I. í Gardaríki.

Í Þorpinu Ringen, skammt frá þeim litla Kaupstad Derpat í Liflandi (vid Eystrasallt), vóx upp yngismey, Katrín Alexowna ad nafni, borin í almúga-stétt og blá fátæk. Hún misti Fødur sinn úng og erfdi eptir Foreldra sína einúngis dygdir þeirra og sparsemi; lifdi hjá og vann fyrir módur sinni ørvasa med handbjørg sinni í hálm-þøktu fátæklínas hreysi. Þar létu samt bádar sér lynda luckunnar kléna skamt, og lifdu þær mædgur vel ánægdar afsídis frá solli og skarkala heimsins. Katrín var qvenna fríduzt, samt lét hún sér annast um framfør og mentun sálar sinnar; módir hennar kénndi henni ad lesa, og gamall lútherskur Prestur sín trúarbrøgd. Hún hafdi af náttúrunni þegid skjótar, rádsettar og greindarmiklar gáfur, þess vegna bidludu margir bændamenn í nágrenni snemma til hennar, en engum þeirra tók hún, því hún vildi ecki yfirgefa módur sína adstodarlausa. Katrín misti þessa módur 15 vetra gømul, og komst í dvøl hjá fyrrtjedum gamla Presti, sem kénnt hafdi henni Kristnndóm frá barnæsku. Þar átti hún ad menta og sida úngbørn hans, því hún var bædi sérlega rádsett og afbragds vel gáfud og lipur stúlka. Gamli Klerkurinn unnti henni, sem einn barnium sínum, og lét því ásamt þeim kénna henni bædi dansleik og hljódfæra-slatt,



og tók hún í morgum góð-mentum miklum frama allt til dauda Prestsins, en þá komst hún á ný í forn bágindi. Lifland, sem þá var partur af Svía-veldi, var um þad leitid eydi-lagt af megnu strídi, sem Petur Czar*) hinn Mikli átti í vid Svenska, og aumkunarlega útleikid. Leggiast þær hörmúngar strída jafnan þýngst á fatæklínga, og steyptu Katrínu því í megna og úrrædalausa orbirgd, þó hún sjálfa væri afbragds vel ad sér um marga hluti. Ýfreidin jókst, en björg og efni hennar tæmd-ust öldúngis, svo hún rédi af ad rjátla á burt til Maríuborgar, á landamærum Liflands og Ingermannalands, hvar betri birgdir þá leifdar vóru.

Hún rolti af stad þángad med kteilfjörleg-ar flíkur sínar, allar í litlum poka, og átti ad halda í gegnum bjargþrota lendur, bædi af nátttárunni til orbirgar, og þá einkum óttaleg-ar af áhlaupum Svía og Rússa, sem eptir því, sem hverjum þeirra vannst betur í bardögum, rændu þau héröd miskunarlaust; en — neydin kenndi henni ad láta hverki hættur né þrautir þeirrar ferdar ysirbuga sig.

Svo bar til qvöld eitt, þegar hún komin var til nætur-gistingar ad bæ á leid hennar, ad tveir svenskir Dátar (hermenn) ysirféllu hana

*) Czar þýdir á Schlavona túngu Konúng, og var þá Titill Gardaríkis eda Rússa Drottnara.




þar, og qvádust ætla ad kenna henni herfarir. Þeim hefdi þá og tekist í frammi ad hafa sérhvert ofrîki gegn henni, hefdi ecki af hendíngu Undir-offisêri nockurr komid þar ad, henni til hjálpar. Þegar Dátarnir sáu hann, hættu þeir strax allri áleitni, og vard þacklátsemin jöfn undrun hennar, þegar hún þeckti þar þá ad verda Frelsara sinn Son gamla Prestsins, hennar fyrrverandi úngdóms Frædara, velgiörara og vinar. Sá fundur var sannkalladur happafundur fyrir Katrinu. Bjargþrota og efnalaus ordin hafdi hún neydst til smámsaman ad láta flíkur sínar sjúka í ferda-kostnad og farar-beina hvar hún gisti, en hann vardi öllu, sem hann mist gat, til ad kaupa henni fatnad og hross til ferdarinnar, og fèck henni bréf til Biskups Glucks í Marîuborg, gamals alda-vinar Fødur hans, med hverju hann fól honum Katrinu til ásjár. Hún þurfti þar eckert annad enn sýna þad bréf og sjálfa sig, til þess ad verda tekin til vistar med ætt Biskups, og til kennslu tveggja dætra hans; en — þó hún þá væri einúngis 17 vetra gömul, reyndist hún fullfær ordin um ad menta kyn sitt bædi í dygdum og sérhverri sidprydi. Svo fengu gáfur hennar og fridleiki á þann Herra hennar, ad hann skömmu seinna baudst til ad ekta hana, hvad hún — til hans mikillar furdunar — afbeiddi, því svo rîkti magnlega þacklátsemi yfir hugarfari hennar, ad hún fastrádid hafdi ad ekta engonn fyrr enn Frelsara hennar frá ofrîki þeirra tveggja



Hermanna, enn þótt hann þá hefdi í stríðinu annann sinn handlegg mist, og væri þarhjá af flestrum orkumslum afskræmdur ordinn. Svo hún þoi kjæmist hjá fleiri bónords-forum annara, baud hún sig sjálf fram þeim Undir-Officera til hjónabands, þegar hann fyrst kom þar eptir til Mariu-borgar; hann tók þoi bodi hennar feginsamlega og fór brúdkaup þeirra strax fram á þar venjulegann hátt. En — oll tilfelli hennar lífs vyrdtust ad vera frábær, þoi á sama brúdkaups-degi þeirra lögdu Rússar megnann her úm kring Mariuborg, svo hennar ógæfusami Maki og hermadur fékk alls enga grid ellegar tóm til ad njóta neins hjónabands yndis med henni. Þoi ádur vard hann kalladur burt til varnar Stadarins og útfalls gegn Rússum, frá hverju hann aldrei framar sást aptur hversu.

Umsátur Mariu-borgar framfórtt med mikilli ákefd. Borgarmenn vordust drengilega, en Rússar sóktu á med seykn og hefndargirni, en í þá daga fóru bardagar fram á milli Svía og Rússa med sérlegri grimd. Saklausir bændur og meinlausir qvenn-ræflar máttu þá allopt ega þar sama hlutfall, sem alvopnadir fiendur í stridi. Med áhlaupi vannst Rússum árid 1702 lokfins ad hertaka Mariuborg, en svo ofstakleg var grimd áhlaupsmanna, ad engum innbúa þyrmdu þeir, heldur drápu jafnt nidur bædi allt varnarlid Stadarins, og flestalla innbúa, karla, konur og börn. En — ad þeim manns-




dräpum sýktudum, fannst þar Katrín falin í bakara-ofni.

Þángad til átti hún vid örbirgd og hins-ar þrautir ad berjast, en heldt þó alltaf frelsi sínu, en þá vard hún ad finna sig í þángri for-inganna reynslu, og læra ad vorda rétt þessa ódyrmæti, er hún, sem herteikin, lögd var í þræl-dóm. Hún hegdadi sér samt allt eins í því volædis standi med audmýkt og gudhrædslu. Þó mótlætid deyfdi stórum fjör hennar, sást hún jafnan med glaðleitu yfirbragdi.

Hún vard í fyrstu sánginn ambátt í þjón-ustu Herhöfdingjanna Bauers og Scheremet-tows, en þegar Prins Menzikof (sem frá nock-urskonar Bakara-drengi komst uop til æstu Stjórnar-valda, her-forustu í Rússa-veldi og vard þar lengi Prins, eins og lesa má í Qvöld-vakanna I. Parti bls. 294 — 323), Herfor-íngi Rússa frétti af fegurd hennar, dygdum og þolgædi, girntist hann ad sjá hana og vard, sem frá sér numinn af fridleika hennar, keypti han-a lausa frá Herra hennar, og fól hana Systur sinni til umsjónar. Þar vard henni öll sú vyrd-íng veitt, sem hún svo vel verdskuldadi, og þar tók vænleikur hennar skjótt jöfnum vortum vid heilla þennar dag frá degi. Í því húsi hafdi Katrín skamma stund dvalid, þegar Pétur hinn Mikli (Rússa-Keisari) heimsókti þar Prinsinn, átrúnadar-god sitt, hvern han, vegna stór-verdugleika Menzikofs, hafdi til þvílíkra valda og tignar upphafid. Svo vildi þá til,

ad Katrín bar þar fram ýmsa þurra hverju og baud nálægum gestum öllum med þrlegri kurteisi. Så voldugi Einvalds Stjórnari leit hana og vard strax, sem herteKinn, af fegurd hennar. Hann hvarf þángad aptur degi sídar, kalladi þessa yndislegu Stúlku fyrir, lagdi fyrir hana ýmislegar spurníngar og sann fljótt: ad gáfur vóru þar fyrir jafnvel heñar fegurd fremri.

Hann hafdi í úngdæmi sínu neyddur verid til ad ekta Konu af greifalegri ætt í Gardaríki, ad nafni Ottokesa Loppúchin. Áttu þau saman Prins nefndann Alexei Petróvitz; en þó litt ged saman og hafdi hún fyllt Prinsinn mikilli hjátrú og viðbjódi á öllum Fødur hans mikilvægustu fyrirtækjum. Þetta sveid Pétri Keisara Mikla svo, ad hann árid 1696 skildi sig vid Konu-grej þad — en afdrif Prinsins 1718 hlýdir ecki til Katrínar, heldur sjálfs Péturs Mikla sögu ad útskíra. — Nú redi hañ af ad giptast seinna meir framar ad skapi sínu, tók Katrínu til samvista 1702 og þegar hañ gjör-þeckt hafdi í 5 ár fyritaks gáfur, gædsku og dygdarlífi hennar, árid 1707 í kyrr-þey ad giptast, og heldt þá brúdkaup sitt med heñi, en sannfærdi Hofmenn sína um ad dygdin ein væri rétt borin til Konúnganna veldisstóls. Ádur var venja, þegar Rússa Einvalds-stjórnari einhverr vildi giptast, ad senda eptir þeim yndislegdustu fögrustu Meyum í veldi hans, og var þeim veitsla haldin vid Hofit, en allt undirbúid til Brúdkaups haldar. Czarinn (Kon-

ángurinn) vyrdti þær allar vandlega fyrir sér, og valdi sér þá eina til Drottníngar, sem honum leitst best á, án tillits til nockurs tignarstands hennar, bar því á stundum vid, ad hún vard af almúga stett; vóru þeirri þá strax sendir Dýrgripir miklir af gimsteinum og kostuleg brúdar-klædi, en hinar allar sendar heim aptur med sæmilegum gjöfum. Samt bar þad aldrei fyrr vid ad Rússa Kongungar (Czarar) veldu sér slettar og réttar brúdir úr annarlegu veldi, og ad framandi fángi, eins og Katrín, vid eydileggingu og hertoku þáveranda svenska Stadar (sem sídan þá hneig undir Rússa veldi algjörlega med Liflandi), yrdi ecki einúngis Drottning Péturs ens Mikla Keisara, heldur tæki eptir hann Einvalds-stjórn í því stærsta veraldar veldi, í hvert hún í fyrstu fluttist inn, sem umkomulaus fángi. Færri Adals- og tignar-manna dramb leidir ædri stettir samt til ad fylgja Péturs ens Mikla loflega dæmi, en hann fann enga þörf á 16 til 32 Adals- tignar-Forfedra þeirrar Brúdar, sem hann áleit sér sæma ad ekta, heldur ad Stjórnendum er sú upphefd fullnóg, sem þeir sjálfir veita Drottningum sínum, en sérhver stett önnur jöfn í þeirra augum. Volter (*Voltaire*) segir í sama tilliti skarpvitrulega: ad ættarmunur einn giöri enga meiri adgreiníngu manna, enn á milli tveggja Asna-fola, hverra annar sé undan asna, sem bar út hauginn, en hinn undan asna, sem reiddir vóru á helgir dómar; því uppheldi giöri

mestann manna-mun; gáfurnar gjört þad opt dásamlegra, en luckan samt mest ad verkum.

Í Martz 1711 yfirlýsti Petur hinn Mikli hátídlega og kunngjördi sitt hjónaband med Katrínu, og sídan ad daudum Syni sínum Alexei 1718, ad úngur Sonur hans og Katrínar verda skyldi Rússa-Keisari eptir sig; en þar þessi deydi barn 1719, lét hann Katrínu Drottníngu sína hátídlega krýna árid 1724, og vyrdtist þar med ætlast hafa til ad hún ríkja skyldi eptir sinn dauda, sem Einvalds Keisara-inna, hvad og vard 1725, þá hann deydi. Hanninn vard Katrín I. — sem rásadi burt úr fátæklíngs hreysi í fyrstu, sem munadarlaus oregi af bænda-stétt — Einvalds Drottníng yfir því stærsta Veldi í allri veröldu. Hún rásadi um einmana manna á milli fyrst, en vard umkríngd af mörgum milliónum þegna hennar, hverjum hún öllum stjórnadi med mildi, visdómi og gædsku. Stakfegu láni átti hún upphesd og heill sína ad þacka, en dygdunum þó einkum lánid. Hún breytti aldrei til daudadags sínu rádvanda og sjúfa framferdi vid þessa mestu tign. Eins og Keisari Petur Mikli lagdi alla ástundun á ad umminda villiúdi sinna grimmu og fávísu Rússa, sem alkunnugt er af Sögu hans, og fyrir hvad, ásamt hans kis-stjórn sinni og sigurvinníngum, hann ávann sér viturnefnid: sá Mikli, og sér og eptirkomendum Keisara tign og Titil, kappkostadi Katrín I. ad framqvæma hid

sama vid sitt qvennkyn; hún breytti búningi qvenna í laglegri, leiddi þær inn í almenn sam-qvæmi — því ádur máttu þær hvergi birtast í heim, né nockurr líta þá konu, sem hann ekta vildi, fyrr enn vid brúdkaupid — Hún fèck Pètur Mikla, mann sinn, til ad stipta Tignar Ordu — sem enn í dag ber hennar nafn — fyrir afbragds Qvennfólks; mildadi sidi og grimmt lunderni síns skapstóra og opt hardráda Keisara vid öll tækifæri; frelsadi margra líf frá dauda; margra hryggi frá þess drápslega Knúts *) slögum; fylgdi Keisaranum

*) Knútur kallast Flengingar-straff í Rússlandi almennt, med knóttum svipum af þyckum Asna-húdum, yfirum berann kropp, sem dregur fjölda manna til bana. Katrín I. lagdi sig eitt hvert sinn, sem best hún gat, fram um ad ödlast vægd frá því fyrir eins Herhöfdingia Frú, en forgefins, og vard Keisarinn loksins svo leidur á þrábeidni hennar um vægd, ad hann í brædi molvadi sundur dýrmætt spegil- edur glugga-gler, vid hvert þau þá stódu, og sagdi henni til hugvekju um leid og heimfærslu til sjálfrar hennar: „Sjádu! ad einúngis eitt högg af „hendi minni þarf, til ad mola gler „þetta aptur í sama duptid, sem þad „er giört af!“ Katrín sefadi hann med hæg-værd sinni og ansadi: „Nú vel! Þier hafid „molad þad sundur, sem var einhver „hinn mesti dýrgripur í Höll Ydar; „haldid Þier hana í nockru fegri vid „þad?“ Keisarinn fadmadi hana og gèck þeg-jandi á burt, en vægdi þó eckert til med straffid.



um allstadar í stridi og fridi, sem hans fyrtaks Fulltrúi, og frelsadi hann og allann hans her frá dumsshanlegu tjóni í Tyrkja-stridinu 1711, staddann í mestu vandrædum, þegar hann nag-adist svo af gremju og orvæntingu, ad hann feck ryckingar og slög, og fyrirbaud nockru manns-barni, dirfast fór sinn ad setja inn í tjald hans. Kárrin áræddi þad samt. Kjedi honum ad leita sætta vid Tyrkja-foringjann, ljet fram alla gimsteina og dyrgripi sína til ad skenkja honum og vinna hann med, og nefndi til hentugustu menn til þeirra útrettinga, hver rád hennar svo vel gáfust, ad allgódur fridur — þá í fyrrædalepsi — ákomst strax. Elskud og virdt bædi af Keisara sínum og öllum þegnum, lifdi og ríkti hún med honum og eptir hann med sæmd, réttvísi, gód-semd og almennings lofstyr, og deydi rósom og ánægd árid 1727, öllum sínum þegnum harm-daud, en heidrud af sinni old og seinni tímum.

---

## VIII. Edal-lund, eins medal Villi-þjóda.

---

Hversu Kristnir breyttu vid Villi-þjódir í Vestindium, sýnir Sögu-ágripid hér ad framan af Ameriku fyrsta Fundi. Þeir vildu líka fyrst, og enn í dag, ydla fegra þrælslega medferd sína á Negrum edur Afriku-, eins

og villum Indía-búum, med fortölum: ad þessir allir vætu Erki-skálkar og hálf-menn. Ad þó se ecki svo, sýnir eptirfylgjandi merkilegt dæmi, sem Ferdasögurnar — medal ótal annara — framsetja uppá Afríku Negra Sjal-lund.

A Guineu-strondum í Afríku skildi Kaup-far nockurt, árid 1752, eptir kristinn ýngling enskann, ad nafni Wilhjálm Murray. Hañ komst til húsa hjá svörtum Negra, ad nafni Rúdjó, hverjum hann íkid eitt hafdi kynnst vid verdslun, og vard hann þar vid góda hjúkrun fullbata eptir þad skipid fór, vard þá ad bída annara skipa-ferda. Nockru seinna kom þángad hollendskt skip; fieldi Negra fór þar um bord, en serhverr þessara vard med svikrádum handtekinn, þrælslega medfarinn og fluttur burt þadan til þrældóms. Frændur þeirra og vinir urdu hamstola, og runnu heim til Rúdjós, til ad hefna sín og drepa Mur-ray. Rúdjó stödvadi þá vid dyrnar og spurdi hvad þeir vildu þángad? þeir grádu Hvít-mennin (Hollendinga) flutt hafa burt í þræl-dóm brædur og syni þeirra, skyldu þeir því drepa hvern Hvítmann, og krofdu Mur-ray strax framseldann. „Þeir, sem rændu „frændum ydar" — ansadi Rúdjó — „vóru „vist vondsku-menn, og þá skulud þer drepa, „þegar getid, en ecki hann Murray. Því hañ „er gódur madur; ecki heldur nockurn sekleys-„ann, þó hvítur se, megid þer drepa. Hann



„skulud þer af mer daudum her gánga enn
„ honum, því hann er vinur minn, en hús mitt
„ hans hæli, og mun eg verja hann medan get,
„ ella mundi enginn gódur madur inn í mitt
„ hús framar koma, ljeti eg nú saurga þad med
„ gódmennis blódi.", þeir ljetu þá af, sneipt-
ust og sáu villu sína; fundu þá Rúdjó og
Murray úti sám dögum seinna; sögnudu, ad
ecki hefdu þeir unnid slis á Murray, hvad
Gudi þeirra mundi ella svo mislikad, ad eng-
inn fiskur mundi þeim framar gefist hafa.



## IX. Vina-fundurinn.

Vinir tveir hittust einusinni, sem ecki höfdu lengi fundist. Hverninn lídur þjer? sagdi annar. — Svona, og svona, ansadi hinn, þó hefi eg gipt mig sídan vid sáumst — Þad tel eg gódar frjettir. — Ecki mjög gódar; því eg hreppti Naudunar skratta. — Æ! þad var bágt! — Læt eg þad vera, því hún færdi mjer 800 rdli. — Nú! þad var nockur bót! — Ecki svo mikil, því fyrir þá keypti eg mjer búsfjenad, sem allur fórst í mikla fellirnum. — Æ! þad var skadinn meiri! — Ecki svo mikill, sem þú heldur; því eg fieck meira enn eg misti fyrir skinn og ullu. — Nú? þá varstu vel ihaldinn! — Lángt fjærri! því bærinn minn brann til össku med öllum peníngunum. — Æ! þad var óttalegt tjón! — Í raun rettri ecki svo óttalegt; því Kjerlingar-vargurinn minn brann inni líka.



# X. Vináttu Signr.

Einhverr hinn frægasti Nordurálfunnar Stjórnara á seinni öldum, hvers minníngu Veraldar sagan lengi mun heidra og blessa, var Gústav Svía Konúngur Adolph, réttilega af mörgum nefndur hinn Mikli. Fæddur med frábærustu sálar gáfum, hneigdum til góds, til stjórnsemi, mestu manndóms fyritækja og til frægdar-í hernadi, dýrkadi hann og mentadi þessar med alúd, taladi Látínu, sem Módurmál sitt, og var vel æfdur í franskri, þýdskri og velskri túngu, mælíngar-frædi og strída lyst, vardi örku og vidleitni sinni allri til vidreistar undirokudu ríki sínu; en um 2. sín seinustu æfi-ár til verndar Prótestanta betrudu trúar-brögdum og þeirra af Cathólskum í 30 ára strídinu hardt offóktu játendum, í hverju hann loks sigrandi féll hann 6ta Nóv. 1632, óvíst, hvert fyrir fiandmanna, edur eginn manna Konúngs mordíngja hendi, í þeim mikla bardaga vid Lützen í Þýdskalandi, eptir 21 árs heidursfulla stjórn og loflegt 39 ára líf.

Hann þókti einhverr hinn frægasti kappi, var og kémpulega vaxinn og fagur sýnum, fullhugi mikill jafnan í háska og strídi; stadfastur í fyrirtækjum, vinfastur, ordheldinn, gætinn, vitur og djúpsær, mannúdlegur, og — enn þótt brádlyndur af náttúru-fari og eckt undanskilinn nockrum brestum mannlegs edlis — hafdi hann eitthvert hid mannkjærlegasta hjarta og besta til ad bera; óstollt, alla tíd vidqvæmt og hneigt til ásta.

 

Hér skal eg nú bjóda fram merkilegt dæmi þess, í algengri Fráságu medal Svenskra frá fyrstu Stjórnar-árum hans:

---

Gústav Adolph settist á Veldisstólinn á sínu 18da aldurs ári, þann 30ta Okt. 1611, vid dauda Fødur síns Karls Konúngs IX. En svo bar sídan til, ad hann eitthvert qvøld var ad heimbodi hjá sínum ædsta Stjórnarherra, hvar fjølmenn Samkoma manna gaf sig, sem alvenja er med Konúngum og tignarmønnum, ad Dans-leikum fram á nótt og báru allir grímur fyrir andlitum, svo ad enginn skyldi annann þeckja og gledin því verda enn frjálslegri. Vildi þá svo til, ad í dansinum fell gríman frá ásjónu einhverrar føgrustu Meyar medal þegna hans, og birtist hún þar vid hastarlega med óeptirvæntri fegurd augum alls Samqvæmisins. Því — þó Adalheidur (svo nefndist Mærin) væri af tignum stigum, hafdi hennar hyggna módir samt vikid henni burt, fjarlægt hof-glaumi, og alid hana med alúd upp, sem best hún mátti, afsídis og óflecckadu, sem dalanna lilju.

Konúngur fann sig á augabragdi gagntekinn vid hennar sjón af innilegri heidrun fegurdar hennar og tilfinníngu síns lítilmótlegleika; því sá er forréttur frídqvenda, ad voldugir og fullhugar, dramblátir og jafnvel villisidadir, verda frammi fyrir þeim tamir og nidurslegnir, eins og birtist þar verulegar Gydjur.

Adalheidur greif Grímuna upp med hyndi, og hradadi sér ad skýla med henni fyrir háska sinnar fegurdar. En — hennar verkan var þegar fullgjörd, því ímind hennar var úr því svo djúpt innprentud hjarta hennar Konúngs, eins og þó hún hefdi ordid á þad med verkfæri fast stimplud. Konúngur vjek strax Fulltrúa sínum Valvesi afsídis, og hvísladi í flughasti þeirri skipun ad honum, ad njósna upp og segja sér, hver sú meya væri. Valves hlýddi bodi síns konúnglega Herra med allri alúd, og fékk loks frædt hann á, ad hún væri Tignar-mey, þar ad sönnu ókunnug, en ad þeir, sem til þecktu, dádust ad henni, sem óvenjulegri sjón, eda nýum fyriburdi í náttúrunni.

Forsjónin hafdi, med sérlegri rádstöfun, veitt þessum Valvesi hylli Konúngs, sem einusinni á dýraveidum hafdi ridid af sér fylgjara sína. Þreyttur og þyrstur héldt hann því heim ad þockalegum bæ, sem lá fagurlega settur rétt fyrir nedan skóginn. Þar batt hann hest sinn vid tré; héldt svo til bæarins, og leit þar úngann svein sitja undir eik og rína fast í bók, sem hañ héldt á. Sveiñiñ spratt upp, þegar hinn nálgadist, heilsadi Konúngi kurteyslega, leiddi hann inn, og svaladi honum med géstrisni á heima bruggudu Berja munngáti.

Má eg spyrja: hvad vórud þér ad lesa? frétti Furstinn hann. Nýa ritgjörd: um vinéttu, ansadi Stúdentinn. — Hversu gédjast



hún ydur? — Mér finnst hún svo köld, sem væri hún skrád af innbúa einhverjum í Ný-Zemblu*). — Þá gét eg til ad ydar egin tilfinníng um þad efni sé gódum mun hlýrri? — Þar á gjori eg álíkann mun og á Iss- og Bruna-beltunum. — Þá munud þér unna mjøg vinum ydar? — Þad mundi eg, Herra! ætti eg nockurn, en eg rædst ecki í þesshättar sambønd; því allir, sem eg enn hefi þeckt, mundu efalaust bregdast mér; eg mætti gánga tvøfaldann veg fyrir þá, vid þann þeir fara vildu fyrir mig. — Annar eins madur og þér, mundi hentugur Vinur fyrir Konúng. — En eg aldrei velja mér Konúng til Vinar, því mælt er: ad hverr, sem gédjast vill Stórmennum, verdi smjadur vid ad hafa, en sú er vináttan følskaminnst, sem minnir oss á bresti vora. — Til þeirra erindagjørda ræd eg þig þó til mín — sagdi Konúngur Adolph — því eg er þinn Konúngur.

Sveinninn fyrivard sig og féll flatur ad fótum hans, en Konúngur reisti hann jafnskjótt á fætur aptur og fadmadi hann. Upp frá þeim dégi vard Valves augasteinn og trúnadar-madur síns konúnglega Herra. Ad sönnu vard ecki hein Ríkisstjórnar byrdi honum á

*) Um stærd, edli og legu þessarar Eydi-eyar, undir Rússa veldi, í Ishafinu fyrir nordan Rúslands Nordur-strandir í Asíu, sjá í Vinagledi bls. 144, og þar Heemskerks og Barens Ferdasøgu, bls. 197, etc.

Herdar lögd, né heldur naut hann ardsemi eda metorda, sem trúnadar-menn ofundast af, þvi allt þetta afbad hann, fullvel ánægdur og sæll af ad vera, um fritíma síns elskada Herra, honum til skémtunar, og ætíd hinn helzti trúnadar-madur hans.

Undir eins og Valves frædi Konúng Adolph á, hver tignarmey Adalheidur væri, mælti Konúngur: far þú nú, Vinur! af stad, far þú og bidladu til þessarar fögru Mær í mínu nafni! því þú ert sidprúdur sveinn og tölugur; mér bregdst ecki ad þér gengur ad tala máli þess manns, sem þú elskar, og um hvern þitt hjarta lætur sér svo innilega annt. Segdu ad eg sé alrádinn í ad ekta hana í vidurvist Módur hennar og fárra annara vina vorra, en ad þetta verdi samt leynt ad fara, ad minnsta kosti um hríd, svo eg ecki þar med veki óvild þegna minna, þar, sem þeir búast vid, ad eg auka muni veldi mitt med mægdum vid útlenda Stjórnendur. Fardú, Valves minn! traust mitt á trúfesti þinni er fast, sem bjarg, í huga mínum. Eg þecki þitt verd, og ad þú lætur þig ecki sigra, né sjálfann töfra, þó áleitad yrdi.

Valves vard frá sér numinn og rétt sem eldur; lét Herra sínum þegjandi í ljósi, med þeirri ýkésd og líkt sem glóanda yfirbragdi, sem hann sýndi og med allri vidqvæmni, fullvissu um sína áhyggjufulla og trúfastu vidleitni ad fullnægja því erindi, sem honum var á hendur

falid,

 

falið, og hjeldt á samri stundu burt þaðan, án frekari ummæla.

Daginn eptir beiddist hann áheyrslu hjá Aðalmálu, Móður Aðalheiðar, og vakti æru-girnd hennar og innilega laungun til að sjá sitt hjartkjæra afsprengi upphafið til konúnglegrar tignar og algjörlegrar sælu. En Aðalheiður hjeldt áfram, þó hann opt færi þessu máli við hana á flot, að dylja verulega tilhneigíngu sína, undir skini jómfrúalegrar feilni og siðsamri afsökun.

Loksins tók Valves að sækja það mál fastara og leiddi fyrir sjónir, sem berlegast, heiður og heill hennar af bónorði Konúngs. Hann útmálaði henni fagurlega persónu fegurð síns konúnglega Herra, í samfylgd allra þeirra manñkosta, sálar yndis og gáfna, sem nockurntíma prýddu dauðlegann mann; og loksins vottaði hann henni, hversu Adolph væri öllum mönnum enn þá fremri í daglegrar umgengni yfirburðum og yndi enn í Konúngs-stjórnar stétt, og beiddist því jáyrðis hennar til þeirra hjóna-bands, án dvalar.

Mærin endurtók mörg laung og djúp and-vörp; leit síðan upp og hornauga svo til hans, að það tillit flaug innst í Valvesar hjarta. Segið þér mér, Valves! mælti hún: er nockurr sá lífs á jarðríki til, hvers máli þér vilduð eins á-hyggjusamlega tala, sem Adolphs? — Nei, tignaða Mey! enginn í allri veröldu! — En— þó lifir þar, sagði hún — en roðnaði undir eins

og hálf-stamadi — einhvert sá, hvers máli þér mættud med lángtum betri heppni tala.

Æ! — hjeldt hún áfram — hvad er Adolph mér mætari? mitt hjarta var aldrei géfid fyrir prakt eda Konúngs tign; því gédjast best lágt stand og lítilmótlegt og lífsins inndælu, lágu dalir. Þad er áþeckt gédugri turtildúfu í engjum og skógum, sem leitar engrar gledi né finnur hana, nema í ást sinna Líka og í kurri maka síns. Þér, Valves! heyri eg sagt, erud ecki af drambl átum stigum; þér hafid yndislegt fas og útlit því sambodid, og þess mun Adalheidur innilegast óska, ad þér eignast mættud konu ydur ad öllu sambodna!

Æ! — kalladi Valves upp — hvert, hvert ætlar þú med mig í gonur, þú hættulega fegurd? Æ! eg var þegar allt of hneigdur til ad draga mig eptir hafgýu sjón, né heldur skorti hér til tofrunar vidauki af hennar faung, til ad leida mig afvega og steypa mér í enn dýpri glotun. — En — æran, dygdin, þacklátsemin, skulu leggja mér lid; þær skulu fjötra mig, sem væri þad med Demants hleckjum, hverja sjálf Adalheidur ecki orka skal ad sundurleysa. Nei, þó himininn á þessu augnabliki opnadist mér, öll hans vold, dýrd og sæla med skilmálum bydist, mundi eg þau síst þyggja, med tjóni mins ástvinar heilla og med egin Drottins svikum. Med þeim skilmálum yrdi engin himinsæld hlutfall mitt, því vesæll mundi eg um eilífd verda og fordæma mega sjálfann mig.

Oluckulega Adalheidur! kalladi en fagra Mær hástöfum upp, en hversu staklega grimm þín forlög reynast, ad þú nú sviptist allri mögu-legleikans von, af þeim somu manndygdum, sem verka sitt til ad upptendra þína eptirlaung-un! — Sé þá svo! Vinur minn! verdum vid þá stórmannlega, en med edallyndi og fríviljug-lega aumkunarverd! Látum manndygdir gánga ockur í stad allrar annarar ánægju! Forgángi því og deyi þín Adalheidur, svo ad trúfesti míns Valvésar lifi tignud um aldir!

O! Adolph! — kalladi Valves upp — Ecki veitstú hversu miklu eg nú assala mér þín vegna! — Já, fagra, fullkomna Mey! eg verd nú ad qvedja þig fyrir fullt og fast, â medan dugi og orka eru mér leifd, til ad slíta mig frá þér! Lifdu sæl! fagra tofran! Æ! lifdu sæl! — um — um alla æfi, æ! um alla æfi! — eda — er ecki svo? kalladi Adalheidur, hverri þá vokna tók um augu. Tefdu samt enn eitt augnablik vid, Valves! þú mátt ecki meina mér stutta qvedju, hverrar minníng verda megi mín huggan í lífi og í dauda. Hún er vott-un þeirrar virdíngar, sem eg skulda æru þinni; í því brast hún í grát og fadmadi hann. Sú fidman gagntók hann gjörvallann, og flaug, líkt sem eldíngar-skot, gégnum heila hans, en — kémpulega stód hann af sér ad umbuna ecki þau ástríku fadmlög med álíkum, heldur féll á kné, þreif hönd hennar, þrýsti henni þegjandi

ad brjósti sér, spratt hastarlega upp og hvarf á brott.

Adalheidar einka bródir, ad nafni Alleran var Yfirmadur vid hird-lid Konúngs. Hann kom af ást til Systur sinnar ad heimsækja hana og vildi þá svo til, ad hann hitti Valves fyrir í fadmi hennar. Hann greip strax til sverds síns, til þess ad burtsnída med því hann ósæmdar blett, er hann hugdi þar med á ætt sína fallinn. En — hissa af ad sjá Valvesar rósemi þar vid, fann hann rádlegast, ad vekja engar óspektir þar um, uns hann kallad hefdi þann ímyndada brotlega fyrir, til ad standa sér þessa heimuglegann en skarpann reikníng. Í þrjá daga héldt hann nágvæmum spurnum fyrir þessum spillir sinnar rósemi, en fékk hvergi til hans frétt, vard því órór og sókti innilega um heimuglega áheyrslu hjá Konúngi. Uppvægur í sinni varpadi hann sér ad fótum hans, og spurdi med lotníngarfullri áhyggju: hvert Konúngur hefdi falid Valvesi nockurs erindis umbod á hendur til Systur sinnar Adalheidar? — A! ertu brødir Adalheidar ennar Føgru? mælti Konúngur, sé svo, hygg eg mig óhult mega þér treysta. — Ojá, Alleran! eg sendi Valves í umbodi mínu til Systur þinnar, en — ecki fyrir sjálfann hann, heldur í nafni mínu, sem hans Herra, til þess ad hefja hana til tignar, gjöra hana ad hjartans unnustu minni og setja hana med mér á Veldisstólinn. — Þá erud þér forrádnir, Herra! súr-nídíngslega forrádnir,



ansadi Allteran; vid allt hvad heilagt er sálu vorri af sannleika og Æru vitna eg, ad þessi mín augu sáu Valves innilega blídt látinn og fadmadann ørmum Systur minnar.

Meira þurfti þá ecki til, ad sorgar ský, blackt og þrumu-þrúngid, strax drægi dapra dommu yfir sinni og útlit Jøfurs. Hans Valves var ordinn of djúpt innrættur ást hans til þess, ad hann þadan upprættur yrdi án margra sárra þjáng-nga vid skilnadinn. — En — ofundsýki, forakt og qvíknud brædi yfir ad reyna sjálfann sig vera svo vanþacklátlega og grimmilega svikinn, snéru vidqvæmni hans í biturleika, svo hann huggadi sig vid, ad sjá mundi hann forn-vin sinn deya í seinfærum sjørbrotum, undir hefndarfullum píntíngum frammi fyrir sér.

Hann gaf út strángar skipanir strax ad taka Valves fánginn, en — þar hann frétti ad Valves hafdi skotid sér undan í felur, lét hann útgánga hard og brád bodord um allt sitt ríki, ad skrifa fyrir og offækja hann, en færa sér hann þó lifandi, því einfaldt dráp hans áleit hañ óheyrilega lángt undir þá fullnæajugjørd, sem bæri sinni smánudu vináttu. Því óskadi hann sér ad géta lengt líf hans, svo ad hann þess heldur fengi lengt og gjørt varanlegar píslir Valvesar.

Þanninn lifdi nú Adolph um hríd í því ástandi, ad enginn hans aumustu þræla þurfti ad øfunda hann. Sinni hans var sundrad af fjølda uppæstra og gagnstædra hræringa;

en — á fjórda degi (frá fyrrnefndum) medtók hann svolátanda bréf frá sínum þá hatada, en nýlega innilega elskada Vini:

„Nádugi Herra!“

„Eg er nú í 50 mílna fjarlægd frá Ydur, og treysti því, ad eg bráðlega muni komast undan, ad verda dæmdur Ydar brædi samboðid. En — ónei! hana sæ eg ecki umflúid. Gud gæfi eg heldur bedid hefdi og afplánad mitt skyldu-rof med því, ad lída þad straff, sem hæfdi ótrygd minni! Daudinn hefdi vissulega frelsad mig lokfins frá Ydur, frá sjálfum mér, frá nøgun þess orms, sem ecki deyr innvortis í mér, hverja engin fjærvera má sefa, engin fjarlægd láta umflúna. Já, Adolph! Ydar ímind, Ydar vinátta lodá fastar í minni mínu; þær framhalda ad ofþyngja mér med óbærilegum velgjørdum, og sála mín qveinar og kremst undir þeirra sífeldum þúnga — og — mun þá møgulegt, ad eg hafi forrádid Ydur? Eg hygg þad vart møgulegt. Unni eg Ydur ecki svo heitt, ad þad géck yfir skylduna vid sjálfann mig? — Vildi eg ecki hafa varid blódi og lífi mínu fyrir Ydur, hafa þolad allt hid ítrasta, til þess ad auka Ydar heill? Jú, eckert er vissara. — Æ! hversu er þá því varid, ad vilji minn mót vilja mínum, hefir misbrotid gégn Ydur, mínum Herra! hefir daudlega sært Ydur, á þeim mest lifandi parti og tilefni Ydar ástar til þeirrar allt of tilbeidsluverdu, allt of inntakandi Adalheidar? — Æ! því tókst eg á hendur þad háskalega mér skipada verk? — Á medan eg óskadi, medan eg leitadist og bardist vid ad þjóna Ydur, féll eg í eginn breiskleika minnum;



eg fiell sjálfur og vard ad herfángi fyrir hennar allt sigrandi fegurd. — Þanninn máttu áugu min vel hafa mælt fram med svikaranum Valvesi, á medan túnga min taladi máli mins Konúngs. Þar, þarna er adal atridid og kjarninn af minu afbroti vid Ydur. Ecki skal eg svíkja Ydur né draga dulur á, ad eg hef rænt Ydur nockrum hluta ástar Ydar Adalheidar. En — eg skál hefna Ydar, Herra minn! eg skal veita Ydur fullrétti, og leida hefnd yfir mitt eigid höfud. Eg slít mig æfilángt burt. Ecki skulu augu min framar líta vináttu hjart-svikula auglit, né ástarinnar afvegaleidandi. Eg slít sjálfann mig æfilángt burt frá Adólphi, burt frá Adalheidi, heim tveim og einustu verum, innan mánans umrásar-hríngs, sem sendt gætu huggunar geisla inn í mina nátt-myrkvu sálu. Allt annad er mér, sem villi audn, skélfinga og eydileggínga dalur. O! hvílíkt volædi! en eg kýs mér þad. Mitt sinni skal vid þad dvelja og því útklekja; þad er sú hlutdeild, sú einasta hlutdeild eg kýs mér hérna megin eilífdarinnar."

„Verid á medan, nádugi Herra! Ydar eiginn Talsmadur. Birtist í Ydar medfædda inndæli augum þeirrar gobbudu Fridmeyar, og mun minníng Valvesar hradt lída frá, líkt skyni skammvinnrar loptsjónar fyrir upprennandi geislum ljómandi sólar."

„Njótid sælu, Adolph! njótid sælu med Ydar Adalheidi! sælu, sem yfirgengur ímindun! Þegar eg heyri ad Ydur svo vegnar, kann geisli af apturhverfandi gledi einusinni enn ad vidrétta sinni

Valvesar."





Þegar Adolph las inngáng þessa bréfs, greip hann mégn gremja og vonleysa, útaf þeim ótta, ad sér bregdast mundi ad fá hefnt á Valvesi. Þegar hann lengra las, tók hjarta hans samt ad sefast vid þá fordæmíngu hinn seki felldi yfir sjálfann sig. En þegar þar kom þángad ad, sem Valves dirfdist ad játa ástar-bruna sinn til Adalheidar, og ad hún tók honum vel, endurqveiktist brædi hans, og géck upp í loga; þó kjæfdist sá mikis vid þat eptirfylgjandi þánkabrot, svo ad Adolph, vid endalok bréssins, fann sig misjafnt hrærdann af margvíslegum, óróafullum og gagnstædum sinnis-trublunum.

Hann óskadi ad eckert auga sæi, hvérsu þetta féck á hann. Hann tók med sér bréfid, læsti sig inni og ransakadi þad optsinnis frá upphafi til enda — og lét bil lída á milli. Vid sérhvern yfirlestur leitst honum, ad Valves hans væri framar afsakanlegur, síknsaka og fråbær, eptir því, sem mannelskunnar dygdir ofan stigu í sálu hans, eins og mild nátt-dogg ofan á rosa, hvern þar vid lægir.

Æ! sagdi hann, eg finn Valves og ad vera einn af Adams follnu Sonum. Hefdi nockurr verid breiskleika undanskilinn, hefdi þad efalaust verid hann. — En — hann bardist og vardist — og þegar hann fann sig bila, hreif hann sig burt frá freistíngunni, þó sjálf Adalheidur freistadi hans. Hann vañ eñ meira — hann sœlist sjálfann sig, fyrir þad hann féck hlutdeild í vorrar náttúru mannlega breiskleika, kall,



ar endalausa hefnd yfir höfud sér, fyrir þad hañ óviljandi áreitti Þann vin, hvers heill hañ metur meir enn egin tilveru sína. Þetta er meira enn ad hafa sigrad, því þesshàttar dreisklefi hefur sig jafnvel upp yfir fullkomnun! Snúdu því aptur, minn bródir! Snúdu aptur, miñ Valves! Þú gremur þig af því, ad þú hafir naudugur svipt mig mínu ástar takmarki; sviptu mig ecki ásamt vináttu, því þá mundi Konúngur þinn verda óhuggandi. — Snúdu aptur — segi eg — bródir! en eg vil reyna ad jafnast vid þig í ærusemi og ædallyndi. Þú vilt svipta sjálfann þig þinni elskudu, fyrir vin þiñ, en vinur þinn skal umbuna gódvild þína; hann skal reyna til ad álíta sig sælann, þegar hans Valves er sæll!

Adurnefnt bréf hafdi fá einmaña Valves sendt frá fjarlægu húsi á leid hans til Norvegs landamerkja. Á yngri Stúdenta árum sínum hafdi hann, vid Háskólann, bundid innilega vináttu vid tvo únga Stúdenta, hét annar Dyples en hinn Christján. Þegar hann komst í náд hjá Adolphi, hafdi hann vid Stjórnarherrann mælt svo fram med þessum tveim vinum, ad þeim veittust gód Embætti nordarlega í Svíaríki. Valves héldt sig því rétt borinn til hælis hjá þeim, sem áttu honum upphefd sína og ardsöm braud ad þacka.

Dyples tók velgjörda-manni sínum med fögnudi, og héldt honum ríkmannlega veitslu. Morguninn eptir kom hann med vareygd inní

svefnhús gésts síns fyrir dag; og vakti hann blídlega. Fyrirgéfdu — sagdi hann — elskadi Velgjørari! þessar naudsynja ónádir! í gjær um midjann dag kom híngad sendimadur, og festi uppá Stadar-húsin bréf, í hverju þér er lýst, sem Drottins-svikara, og 20,000 Dúkátum heitid til høfuds þér. Mig vardar ecki um ad frétta, hversu þú féllst í ónád hjá Konúngi; því nóg er mér ad vita, ad sá byggir hús á sandi, sem grundvallar þad á Furstanna hylli. Eg treysti því, ad enginn, nema eg, þecki þig hér; samt má þad bregdast, og er þá freistíng annara megn til ad forráda þig. Eg hlífdist vid í gjærqvøldi ad fræda þig á þessu, svo ad eg ecki skélkadi þig, en — æ! — þegar eg leitadist vid ad sýnast gladvær, til heidurs gésti mínum, var eg hans vegna hjartanlega sorgbitinn. — Hradadu því, elskadi vinur! ad forda þínu dýrmæta lífi. Lítilsjørlegur árbítur (morgunverdur) og annad, sem vidþarf, er reidubúid til burtfarar þinnar; en 3 brádvakrir hestar mínir og — sem eg vona ad svo reynist — trúir fylgdarmenn, skulu um hádegis-bil ad morgni hafa komid þér undan og úr øllum háska.

Þó Valves þá vyrdti lítils líf sitt, vyrdti hann samt þacklátur þá, sem vottudu honum vyrdíngu fyrir því. Hann fadmadi Vin sinn. Hafdu góda þock, Vinur! sagdi hann, en eg hirdi ecki ad nota mér géstrisni þína. Þú ert þegn og hefir Embætti á hendi; fylltu skyldu þína vid Einvaldsherra þinn og løg þíns føds-



urlands! eg sel mig sjálfur fram í þína várd-veitslu. Eg vissi mig tapadann, en eg skal hugga mig vid þá von, ad mitt fall megi verda medal til upphefdar þess edallundada Dypleo's.

I fyrstu leit Dyples brádum og þyckju-þúngum augum til velgjorara síns, en mælti sídan: Hefir þá Adolph annad Konúngsríki til ad veita mér til jafnadar fyrir einlægni mína? Eda, þó hann hefdi þad, eru nockur audæfi eda ró, nockrum Svikara leifd?

Vegi eckert annad, ansadi Valves, má samt skyldan ad frelsa sjálfan þig neyda þig til, ad selja mig fram í Réttarins hendur, því ella fyrirgjorir þú þínu lífi, fái eg undanflú-id. — Gud gjæfi, ad svo mætti fara svaradi Dyples! o! hversu fagnandi mundi eg þá ecki taka þeim forlaganna dómi! Hversu ákjósan-legur og girnilegur er ecki daudi fyrir dygdugt verk! honum vildi eg ecki skipta fyrir lengst og luckusælast líf á jordu!

Ockar hjartans meining er þá sem, Bród-ir! ansadi Valves, Sé þá svo, því þú hef-ir sigrad og ber þad líka, ad enn meiri dygd hrósi sigri yfir annari minni! — Sídan lauk hann upp litlum stocki og tók út litsu Des-mants-edalsteinum setta, hverja Konúngur hafdi tekid af hatti sínum og gefid Valvesi í Vinar-gjof. Taktú vid henni, Vinur minn! sagdi hann, sem kjærú enn þótt litlu endurminn-ingar merki! Þegar þú hér eptir lítur þad,

tættú

lætti þad minna þig á, ad á medal lifendra einusinni var til aumíngiim hañ Valves þiñ.

Dyples snéri undir eins höfdi sínu og hjarta burt frá þessari blindandi freistíngu, og rétti honum med edallyndi þenna skenk aptur. Minnstú ekkert vid mig, sagdi hann, á endurminníngar merki! er nockurr-sá matarbiti eda sú heidran til, sem eg nýt, eda nockud þad umhverfis mig, sem ecki á hverri stundu minni mig á vináttu þína og gædsku? Þegar kona mín og börn eru hjá mér, brosir minn Valves í þeirra brosi, og laumast inn í huga minn med blídlátum þeirra. O! minn vinur! minn nærst Gudi, og honum nálægr, heittelskadi! eg finn til engra leidinda eda þýngsla, vegna minnar margfoldir skyldu vid þig. Mér verdur hver byrdin létt og yndisleg, og tilfinníng minnar egin þacklátsemi, tvöfaldar sérhverja ánægju, sem eg nýt af ástríki þínu!

Þeir skildu vid þetta, og fordadi Valves sér undan med svo miklum hrada, ad ádur enn hádegi halladi, hafdi hann ridid framt ad 20 mílum, en hugdi sig úr því sloppinn úr háska þeim, ad verda handtekinn eda eltur framar. Helzti Fylgjari hans reid þá framfyrir, tók upp stóra Pyngju fyllta ýmislegum gullmyntum og sagdi: Dyples Herra minn, sem er Vinur ydar, baud mér ad afhenda ydur þetta, þó ecki fyrr enn þér komnir værud hon-

K



um svo fjarlægt, ad þér ecki framar gætud kil-
ad því aptur, og bad hann ydur ad þyggja
þad, sem part tolls af inntektum þeim, sem hañ
á ydar orlæti ad þacka.

Valvess var gefid ad qvöldi dags, ad
hafa nád Landamærum Svía- og Norvegs-
ríkja, komast út úr veldi Adolphs og undan
hans stjórnar yfirrádum; en þar hann var
ferdlúinn ordinn, er hann komst í Stór-stad,
hvar Christján vinur hans rédi fyrir, héldt
hann þad ósvinnu, ad ferdast framhjá fornvini
og Med-Stúdenti sínum, svo ad hann ecki
heimsækti hañ um leid. Christján bad Velgjör-
ara siñ velkomiñ vera og lét honum eñ meiri fögn-
ud yfir því í ljósi, enn nockurntíma Dyples, og
med lotníngarmerkjum, sem engum nema Kon-
úngi hans, eda þó helzt Gudi hans hæfdu.
Widgjördir hans vóru þvílíkar, ad sá edallynd-
adi Valves héldt of óþacklátt af sér, ef hann
ecki setti til hans allt sitt trúnadar-traust. Hañ
veik honum því afsídis, og skírdi frá ónád
þeirri hann fallinn var í hjá Herra sínum, og
því freistanda heiti fjár fyrir handtöku sína.

Christjáni brá strax stórum vid þá fregn;
hans umgengni vard, sem trubliud og hans vid-
mót þvíngad. Valves var samt grunlaus um
nockur fjörrád hans þar, uns hann ad morgni
var vakinn af 60 vopnudum mönnum. Þeir
ráku plumpt eptir honum ad rísa strax úr reck-
ju, lögdu hañ í járn-fjötra, settu hann í þraung-

ann vagn og óku af stad áleidis ad Stockhólmi (Adseturs-stad Svía-Konúngs).

Á medan þessu fór fram gagritók svo heimuglig gremja þá sorgbitnu Adalheidi um fráverutíma hennar Elskhuga, ad hennar dulda sótt spillti stórum heilsufari hennar og útliti. Loksins feck hún og fregn um þad óluckulega bodord, sem útgengid var gégn hennar Valvesi. Hún gaf sig strax vid engu framar, nema því eina, sem hennar uppæsta tilhnegíng minnti á, æddi af stad til Konúngsins hallar, og varpadi sér hastarlega nidur fyrir fætur Adolphs, hvar, til allrar hamíngju, enginn var vidstaddur, nema Yfirmenn hirdvaktar' hans, er vord héldu, en sem í audmýkt héldu sig bilkorn frá.

Konúngur vard bædi hissa og hrærdur vid hastarlega komu og sorglegt fas hennar. Hann ætladi ad ávarpa hana, en hún vard fyrri til máls: Æ! minn Erfda-Herra! qveinadi hún hástøfum; hvad heyri eg? hafi Adolph dauda fyribúid þeim, sem óska ad verja lífi sínu hans vegna, hvert endurgjald hefir Hann þá geymt Drottins-svikurum? Eg sé þig, ansadi Konúngur, en daudinn ber øllum þeim, sem vilja ræna mig Adalheidi, og Valves er Drottins-svikari, hann játar sig sjálfur Drottins-svikara og var sjedur í þínum fadmi! — Verid gat þad, Herra! en aldrei leit nockurt auga mig í Valvesar fadmi. — Láttu hann afstanda hjarta þínu vid mig, og þá vil



eg afstanda Konúngs veldi mínu við hann! Æ! Herra minn! það er einkisverdt hjarta; hann metur það og einkis! gladur vildi hann hafa géfið Ydur það og öll veraldar veldi, sitt egið dýrmæta hjarta og líf og sálu. Eg bidl-adi sjálf til hans mér til eignar, en hann til mín, einúngis Herra sínum til handa, og þeg-ar eg vildi halda honum hjá mér med tárum mínum og blídlátum, sleit hann sig burt úr fadmi mínum og fór, þegar hann skildi við mig, ad þó eg hefdi mátt bæta himinsins sælu við tilboð minnar persónu, vildi hann ecki þyggja heila eilífð fulla af sælum fyrir það, ad fremja nockurt ótrygdar verk gégn Adolphi.

O! Adalheidur! ansadi Konúngur, þú þeckir þó ecki hans hálfa verd. Hann einn má verdskulda allann þann mikla féssjóð ástar þinn-ar. Eg vil réttlátur vera, og skila þér aptur hans meir enn furstalega verdugleika. Hann elskadi og elskadi þig úr hófi, þó hann sliti sig burt frá þér, en ástin til vinar hans og til dygdarinnar, géck — í svo edallundudu brjósti, sem hans — jafnvel fram yfir ást hans til Adalheidar.

Í þessu bili kom þar fram þrælmenn-id Christján. Ósvífni lýsti af auga-brún hans, og hlackandi sjálfs-þótti af öllu hans fasi. Hann laut Konúngi allt ad fótskör hans, en rétti snøggt úr sér aptur, svo lángur, sem hann var til, og í fulltrausti ávarpadi Kon-únginn þanninn:

„Látid Ydur nú þócknast, minn Erfda-Herra! ad líta hér framini fyrir Ydur, þann lotníngarfyllsta allra þegna„ sem nú eru, edur máské nockurntíma vóru til á jardríki! þann mann, sem vid trygdar- og skyldu-rækt vid sinn Fursta, gleymir ollum ødrum skyldum og øllu ødru þacklátseminnar tilliti. Valves og eg ólumst upp bádir saman frá barnæsku; vid lærdum saman, sórum fóstbrædralag; hans vináttu útvegadi mér þau vøld og þær eignir allar, hverra eg nú adnýt. Hann kom nýlega í hús mitt, beiddist hælis undir þaki mínu, og sagdi mér í trúnadi, ad hann hefdi ratad í þá ógæfu, ad falla í Ydar óvild. En — undireins og eg vard þess vísari, ad hann var sekur ordinn vid minn Konúng, og ad konúngleg auglýsíng var útgengin honum á móti, vard eg annar Samson í trúfesti vid minn Herra, sleit øll ønnur bønd og skyldbindíngar í sundur, lét hann til fánga taka og leggja í járnfjøtra, og bídur hann nú þess Dóms, sem Ydar réttvísi mun yfir hann fella."

Adolph sat stundarkorn þegjandi og hissa, honum brá svo vid, ad hann skélkadist. Hann stardi á Christján vidbjóds- og þyckju-fullum augum, eins og á sumpart ný-uppkomna, sumpart fælulega vanskøpun í náttúrunni. Loksins qvad hann upp úr: „Hverr frædi þig, mañsýla! ad brot allra guddómlegra og manna laga, og rof allra kjærlegra banda, þacklátsemi og vináttu, trúnadar-traustss og gestrisni mætti



mæla frám med þér til hylli hjá Adolphi? Sá, sem eckert til þeirra banda finnur, verdur ad vera trygdar- og hollustu- laus, og er Drottins-svikari bædi vid sinn Konúng og vid sinn Gud. — Hér! — takid þenna trúar-níding og steypid honum 1000 fadma djúpt ofaní bergverka-gjár, frá ásýnd sólarinnar, sem fælist hann, og sé sérhverr hans nidji æfinlega útlægur úr Voru veldi, svo ad Svíþjód á stuttum tíma fyllist ecki ófreskjum!" — Svo baud Konúngur Adolph. — En — násolur, mállaus og hissa stód þar hitt afskúmid manna. Fólkid sýktist eptir ad grípa hann, og flýtti honum med einhverjum ædiskénndum fögnudi, til framqvæmdar straffsins. Svo megnt hatur, en undir eins svo litla medaumkun, jafnvel í eymdinni, finnur vanþacklætisins sekt!

Sídan baud Konúngur ad færa sér bandíngjann. Hann géck inn, hverki stolltlegur né heldur dró hann med þrælslegu vidmóti med sér járnhlecki sína. Hans útlit var ófeimid, sidsamt, en nidurslegid; ecki vogadi hann ad heldur, þegar hann nálægdist, ad líta upp eda auglit þess Herra síns, hvern hann héldt sig styggt hafa.

Kémur þú nú — sagdi Konúngur — fram fyrir mig, til þess ad bríxla þínum grimma vini fyrir ránglæti hans boda? — Blessad sé þad bodord — ansadi Valves — sem unnir mér enn þá einusinni ad líta míns Herra nádarfulla auglit! Snögglega leit hann sídan vid, og sá

Adalheidi, vid hvad honum mjøg brá, svo hann skipti litum. — Æ! tignada mey! — sagdi hann — þér erud þá hérna! — Drottni sé lof! ad þér nú efalaust lagad hafid pillu þá, sem leiddi af ydar sérlundudu ímindun, og hafid nú afhendt þángad hjarta ydar, sem frábærir ydirburdir krefja þad allt, oldúngis ódeilt — þeim, hverjum ber allt, hvad vid erum og eigum. En þó sje eg ydur ecki þar, hvert eg fullkreysti ad þér brádlega mundud upphafdar verda. Eg lít ydur ecki á Veldisstólnum edur vid hlid ydar Herra! — Vildir þú þá óska — greip Konúngur fyrir — ad sjá Unnustu þína í fadmi Medbidils þíns? — Af ollu hjarta óska eg þess, Herra! þv! eg ann henni heilla, jafnvel framar enn eg ann persónu hennar.

Adalheidur! — mælti Konúngur — þó þú sért mér um alls eckert, sem Elskara þínum skyld, ertú mér samt, sem Konúngi þínum um hlýdni skyldug. Eg býd þér því: ad leysa fjetra þessa bandíngja, og skila honum aptur í fadm og skaut vinar hans.

Adalheidur tók med skjálfandi hondum og megnum hjartslætti, kóf-raudleit í framan, ad fullnægja því, sem henni bodid var, en — af offlýtir ad leysa fjotrin, tafdist nockud fyrir ad færa hann úr þeim. Steig Konúngur þá ofan, og med útbreiddum ormum géck ad Valvesi, fadmadi hann og þrýsti honum ad brjósti sér nockrum sinnum. O! vertú velkominn — marg-velkominn aptur til þíns fyrra ydirgéfna

bústadar og sæls í huga mínum! — Adalheidur hefir sagt mér frá öllu, og hefir borid órækt vitni um trúfesti þína, um ærusemi, hverri engin géfst fremri, um þá dygd, sem sigrar afvegaleidslu, og um vináttu, sem lagdi á sölurnar sérhvad, er þú metur kjærast, fyrir þarfir þess manns, sem fulltreysti þér. Hvád fæ eg gjört, Bródir! til umbunar þinni ást? — Eg skal reyna — eg skal leitast vid ad jafnast vid dæmi þíns edal-lyndis. — Eg skal — eins ad mínu leiti — sigra mínar egin tilhneigíngar. — Eg skal aptur skila þínu edalsinni því, sem mér er kjærra enn Konúngs-veldid og kjærara enn lífid sjálft. — Eg vil afstanda Adalheidi til Eiskhuga hennar, og verda Konúngum fremri med því ad líkjast Valvesi.

Svo sló í lánga þögn. — Adalheidur rindi fiknarlega í augu Valvesar, til ad forvitnast um, hverra biltínga hún yrdi vör í huga hans, og fann hún þær samqvæmar edalsinni sjálfrar hennar. Nei, Herra! — sagdi hún — Valves vill engrar gladværdar njóta, uns hans elskadi Herra verdur sælastur manna; uns þér hafid fundid og kjörid Ydur þá Adalheidi, hverrar hjarta er ódeilt, og sem er öldúngis Ydar verdug, med samglansa hennar yfirburda. — Eg lærdi fyrst ad elska, med því ad dást ad þeirri trúfesti og ástar ákéfd hjá Valvesi, sem hann lét í ljósi til Herra síns; og hver huggan mundi honum smackast, medan þér mættud saknadar kénna? Strax mundi hann missa þat

inndælt, sem féck á mig; eg mundi forakta hann og rækann gjøra. — Onej! ónej! þad gétur ecki odruvísi ordid! — Vid hérum hvert odru — ad ockar sídasta skilnadi — og utdum samráda í, ad lifa sundurlaus Ydar vegna, og enga heill ad byggja, nema þá einu, sem dygd og medvitni samvitskunnar — um edal-lyndu breytni — má veita.

# XI. Packlátsemi og Edal-lyndi.

Ali-ibn Abbas hét trúnadarmadur mahomets Drottnara nockurs í Austurlondum (sem þar Kalifar nefnast), og var Mamún heiti þessa; segist hinum þanninn frá fylgjanda æfinthýri sínu:

Eitt qvold, sem eg hjá Kalifanum staddur var, sá eg ad madur var honum færdur bundinn á hondum og fótum. Mamún baud mér vandlega hans ad gæta, en færa sér hann aptur ad morgni; og vyrdtist mér hann þá mjog svo uppvægur verda til sinnis. Eg óttadist brædi hans og geymdi þess vegna bandíngja þann hjá mér í húsi mínu, en spurdi þenna þar, úr hverri helzt landsbygd hann væri? Eg er frá Damaskus stad á Syrlandi, sagdi hann, en þar bjó eg nálægt Stór-kirkjunni. Eg ansadi til: „Láti Drottinn ríkum blessa

unum nidur-rigna yfir Damaskus Stad og einkanlega yfir þann hluta hans, hvar þú átt heima, þvi líf mitt á eg manni ad þacka, sem þar bjó fyrrmeir." Hann fýsti ad frétta framar um þad, svo eg sagdi honum soguna: Lángt er nú sídan Vísi-Konúngi Damaskus's stadar var frá voldum steypt. Eg var einn af lidi Eptirfylgjara hans, en þegar vær vórum í fasta fari med ad inntaka Stadinn, vard hinn oss yfirsterkari í megnu áhlaupi. Eg fécк naumlega undan komist út um húss-glugga, sá holl í nánd opna og grátbændi Eiganda hennar um ad bjarga þar lífi mínu. Hañ kaut yfir mig skjóli og geymdi mig óhultann um fullann mánadar tíma í Qvenna-sali sínum. Einusinni vard eg af húsbónda mínum þess vísari, ad stór-lest ferdamanna væri ferdbúin þadan til Bagdads stadar (í Babylons og Chaldæa-londum), og fengi eg aldrei hentugra færi, enn med henni, ad komast heim aptur. Peníngalaus var eg og blygdadist vid ad geta þess. Hañ tók eptir því, en lét þó sem hañ gætti þess ecki. Þess meir brá mér vid daginn, sem eg þadan fór, ad hann lét færa mér gódann reidskjót, og faradauk nægann fararbeina á múl-asna, en þræl af blocku-manna þjód fylgja mér. Vid skilnad ockar gaf minn edallundadi Vert mér pýngju med gull-myntum í, fylgdi mér sjálfur til lestamanna og fól mig ýmsum þeirra, sem vóru gódkunníngjar hans. Því-líka manngædsku hitti eg á í borg þinni, hvern

eg sídan ann. En það gremur mig, að eg aldrei framar gat frétt neitt um, hverr minn edallundaði velgjørdamaður var, ellegar fundið hann; því ánægðastur manna dæi eg þá, ef mér auðnast mætti að votta honum þacklátsemi mína.

„Sá ósk þín er nú veitt" — sagði bandíngi minn frá sér numinn af fögnuði — „því eg er sá sami, sem tók við og leyndi þér í høll minni."

Eg faðmaði hann innilega, greiet þúngann, leysti fjøtur hans og frétti: hver óheill hefði fengið bakað honum Kalifans reiði? Hann qvað vonda øfundar-menn loksins fundið hafa tækifæri til að rægja sig við hennann, og varð eg — sagði hann — hrifinn með ofbeldi burt úr Damaskus stað, án þess mér leyfðist sú huggan, að qveðja áður konu mína og børn; enn þar eg nú má við því bágasta ølu búast, bið eg þig fræða þau um ófarir mínar. „Nei! ónei!" ansaði eg til, „þú skalt ecki deya, heldur frá þessu augnabliki vera frí og frjáls maður! Haldtu strax á brott heðan, og hraðaðu þér, sem skjótast heim til ættar þinnar. Kalifans bræði má vel koma niður á mér; eg óttast hana alls eckert, fái eg að eins frelsað líf þitt." Um leið bauð eg honum stóra pýngju til ferðarinnar með 1000 Dúkátum (Zeckinum) í. „Hvað kémur þú uppá?" — mælti bandíngi minn — „heldur þú mig vera þann mann, að eg þyggja muni því líkt? á eg nú að fórnfæra því lífi, hverju eg



fyrrmeir-bjargadi? — Viljir þú reyna til ad sannfæra Kalifann um saklepsi mitt, er sá þacklætis vottur hinn einasti, sem eg þygg af þér. En takist þér ecki ad telja honum trú um hid rétta og sanna, mun eg sjálfur framselja honum hefud mitt. Rádi hann fyrir lífi mínu, verdi þínu ad eins vel borgid!"

Morguninn eptir géck eg fyrir Mamún, og bar hann þá dreir-rauda skyckju, sem teiknadi brædi hans. Hann frétti hvar væri bandíngi minn? og baud ad sækja bödulinn. „Nádugi Herra!" — sagdi eg og varpadi mér nidur ad fótum hans — „í hans tilliti hefir sérleg hendíng viljad til; leyfi Hátign Ydar ad eg lýsi henni framar!" — Vid þau ord vard hann gramur og mælti: „Þad sver eg vid sálir Forfedra minna, ad hafir þú látid þann bandíngja sleppa, skal þad varda þínum haufi." „Begaja ockar líf" — ansadi eg — „er í Ydar Hátignar umrádum, en — vyrdist fyrst ad heyra mig!" „Taladu!" sagdi hann. Eg skírdi honum þá frá, hversu bandíngi þessi hefdi frelsad líf mitt í Damaskus Stad, og ad eg, af þacklátsemi, hefdi bodid honum frelsi, en hann ecki þegid af ótta fyrir þar med ad olla bana mínum. „Nádugi Herra!" — mælti eg — „hann er aldúngis sikn saka; svo edallundadur madur fær eckert ódádaverk framid. Bondir rægikarlar vildu honum fyrirkoma, og má hann nú falla, sem saklaust offur fyrir afund þeirra."

Kalífinn viknadi miøg vid þetta. Hans gøfuglyndi kom honum til ad dást ad hugprýdi vitrar míns. „Þín vegna“ — sagdi hann — „fyrirgéf eg honum. Fær þú honum þann fagnadar bødskap, og følgdu honum híngad!“ Sídan baud hann ad klæda hann heidurs skrúdklædum, gaf honum 10 hesta, 10 múl-asna og 10 úlfalda úr stalla-húsum sínum. Loksins feck hann honum til tæripeníngs á ferdinni pýngju med dúkotum í og bréf til Damaskus Stjórnara, í hverju Kalífinn fól honum vin minn sem nádarsamlegast á hendur.

## XII. Iwan II, Czar, Basilíowitz.

Lángt fram eptir øldum var Ríkisstjórn Gardaríkis (Rússlands) bísna týrannaleg, ad sid margra Austurlandanna grimmu og lítt sidubu þjóda, hardgérd, alloptt ofbeldissøm og taumlaus, einkum sjálfskøpud vid ágøerdum miskunarlausra straffa, af hverra hørku lengi eldt hefir nockud eptir, allt ad nú ríkjandi Keisara Alexanders Stjórnar døgum. Þess veldi var fyrrum ad miklu og opt undirlagt villtum Tøtturum, og sundurhlutad seinna milli þeirra, Pólinalands og Svía, og stýrdu því allt ad 16du Øld Stór-furstar, eins og þessir þá nefndu sig, sídan Czarar (sem í Rússa edur Schlavona túngumáli er sama, sem Kon-úngar), en frá 22rum Okt 1721 Keisarar.

Jwan Czar *II.* Basiliéwitz, tók á sínu 19da aldurs ári, Ríkisstjórn í Gardaríki árið 1552, eptir Födur sinn Basiley Czar Jwanowitsch, sem deydi 1533, og var Jwan þá 3vetra, en Módir hans og Stórherrar nockrir ríktu á uppvaxtar árum hans heldur hraklega. Jwan vard skjótt sigursæll, undirokadi Tattara, vann ríki þeirra, Kasan og Astrachan, Asaheim og önnur lönd, allt ad Caspia-hafi. Hardstjórn hans æsti samt upp innbúa bestu landa hans, svo Eystland féll undir Svía-, en mikill hluti Líslands undir Póla-veldi; reis þar út af grimmt stríd vid bædi, og eyddi Jwan miklu um Eystland, en beid ósigur vid Pólska.— Hann vildi, opt med hörku, innleida med útlendum Meisturum margsháttar mentir og vísindi, fagrar konstir og þorf handverk í Ríki sitt, en hans baldstýrugu og þá lítt sidudu Rússar tóku illa hans sida-breytíngu og umbót. Gromdust þeir hardstjórn hans og hófu óspektir um Ríkid; en á medan hann var í hernadi mót Pólalandi, tók Vísi-stjórnarinn í fjærveru hans, Jwan Petrowisch, sér algjörlegt Konúngs veldi til í Gardaríki, svo ad Jwan Czar *II.* æddi heim aptur, lagdi sjálfur Drottins-svikarann í gégn, og lét áhángendur hans drepa. Auk þessara óspekta veittust Tyrkjar og Tattarar optsinnis ad honum. Þessir seinni eyddu hans adseturs-stad, og drápu nidur lid hans, en megn drepsótt mikid þess, sem Tattarar leifdu; samdi hann því frid,

árid 1582 vid Pólaland med missir þess, er hañ ádur uñid hafdi í Liflandi, en um leid 3ja ára vopnahlé vid Svíþjód, og fann skömmu seinna æfi sinni halla; rédi hann þá Eptirmañi sínum til fridar, létti ýmsum sköttum um 10 ár af þegnum sínum, gaf saungum öllum grid, gjördist Múnkur og deydi 1584.

Veraldar sagan nefnir hann Iwan hinn Ortalegá, vegna hardstjórnar hans, enda var hann opt grimmhjartadur vid sakafólk og uppreistar-menn; en hardstjórnar þurftu líka hans villisidudu og upphlaupagjörnu Rússar þá vid. Þó reyndi hann med alúd til ad milda sidi þeirra, uppfræda þá, og betra almennt ástand þegna sinna, en þar hjá greip hann á stundum óheyrileg harka og brádlyndi.

Þanninn lét hann hattinn negla á höfud Sendiboda Fursta nockurs frá Vallandi, fyrir þad hann setti hann upp í nærveru hans. Samt löfadi hann einurd ensks Sendiboda, sem — þó hann vel vissi hvad hinum ádur mætti — kom seinna til Iwans med hatt á höfdi, og ansadi þeim, sem minntu hann á negl-ingar dæmid: „ad vel vissi hann þá skann fyrir, en hér ætti hann fram ad koma í ríkjandi Drottníngar stad og nafni, sem aldrei gengi berhöfdud, og sem víst hefna mundi árása gégn hennar útsenda Stjórnarherra.“

Samt vard brádrædi Iwans II. enn nístárlegra gégn Iwani Syni hans. Telur Sagan þad verid hafa tilefni þess, ad eptir laung

strid og sigurvinníngar lagdist Jwan II. í Þúngslífi og stjórnlepsu, svo Rússar mogludu hástofum yfir því. Boyarar (það er: helztu Stjórnar-herrarnir), héldu þar útaf Rádstefnu og beiddu Czarinn ad setja Son sinn Jwan til Konúngs stjórnar yfir þeim. Ad morgni kom Czarinn á opinberann fólks-fund, án varnarlids fylgdar, varpadi Kórónu sinni fram medal fólksins, færdi sig úr Konúngs skyckjunni og mælti rembilátur: „Veitid þér Kórónu og skyckju þessa hverjum þeim helzt, sem betur ferst ad stjórna enn mér, og þeim ydur farnast betur ad hlyda. Eg vann Konúngsríkin Kasan, Astrakan, Lifland og sigur á Tyrkjum; eg vidhéldt jafnan heidri þjódar minnar, og aldrei rédust neinir á Rússa mína óhegnt undir minni Konúngs-stjórn. En í dag viljid þér, til umbunar alls þess eg hefi ydur til heilla unnid, fá Stjórnara skipti! Leitid ydur því annann upp!"

Manngrúinn beid hissa og þegiandi endaloka þessa sérlega sjónar-spils. Nockrir Boyarar kølludu upp: „Vær kjósum engann annann enn ydur! — og var þad hróp endurtekid med ákéfd, en honum afhendt Kórónan og skyckjan aptur. Hann qvadst einúngis taka vid þeim, til ad hegna høfundum þessarar uppreistar. Sídan snérist Czarinn ad Jwani Syni sínum, og eignadi honum ad hafa ollad uppreistarinnar. Sá úngi Prins féll á knén og tók ad réttlæta sig, en Czarinn sló hann

strax í brædi mikid höfud-högg med stafi, sem hann venjulega géck vid. A Iwan tók stafs-höggid minna enn brædi Födur síns. Hann stód upp til ad komast þadan, en blódid flódi ofauum - inn allann, svo hañ skjótt fell í ómegiñ.

Brædi Födursins rénadi nú burt, fyrir vid-qvæmni náttúrunnar. Hann leit Son sinn ná-fölann og daudvona. — „Mikli Gud!" — kalladi hann upp — „Eg er sjálfur mord-ingi Sonar míns! — Eg grimmhiartadi og ólúckulegi Fursti, svipti nú sjálfann mig, ávexti allrar þeirrar umhyggju og mædu, sem æska hans kostadi mig." Sídan lagdist hann ofan yfir líkhama síns únga Prins. „Sonur minn! — sagdi hann — þú ert sælli mér, því þú deyr, en eg lifi einúngis til ad harma þig og fælast sjálfann mig; hvert augnablik lífsins mun verda mér bitrara eñ daudiñ."

Iwan lauk þá upp deyandi augum og stardi med vidqvæmni á Czarinn. „O! Fad-ir minn! — mælti hann — eg dey ánægd-ur, fyrst Ydar hjarta enn stendur mér op-id, og ástríki Ydar lætur Ydur fella tár yfir mér. Aldrei átti eg þátt í því, sem Þér eignudud mér; þess kref eg Gud til vitnis. Hann vill ad eg svona endi mitt æfiskeid; bríxlid því ecki sjálfum Ydur um dauda minn! þó hefdi eg fegnari líf mitt lát o fyrir Ydur í fjandmanna flocki." —

 

Hann deydi 5 dögum eptir, en — frá því augnabliki sá Czariñ enga anægju stund; eckert féck sorg hans sefad; hann brast allopt í grát í midjum vidrædum, og greip fyrir þær med því ad andvarpa: „Sonur minn! æ minn hjartkjæri Jwan!“ Hann óttadist gudlega hefnd og gaf sig — sem mælt — í Klaustur, til sorglegrar einveru alla æfi. Gremja lét hans lífs þrótt ódum fjara burt, svo hann féll henni og daudanum offur þann 18da Martz 1584.



## XIII. Pétur Czar I. hinn Mikli.

Frá dauda Jwans Czars *II.* árid 1584, vard Gardaríki mjög svo þjakad, og af innvortis óspektum styckjad og slitid í sundur undir veikum og grimmum Drottnurum, uns helztu Boyarar, árid 1613, kollvorpudu hinna Stjórn, og settu 15 vetra Son Philarets Erkibiskups, sídan Rússa Patríarka, Michael Romanow á Veldisstólinn. Hann var fridsamur og gódur madur, misti samt Smólenzkós edur hvíta Rússlands umdæmi og önnur lönd til Pólalands, en Adalsýslu (Ingermannaland) og fleiri eignir til Svíþjódar í jafnadarlegum stridum, allt ad 1634, en hann bætti kjörum sidi þegna sinna; ríkti mildt, og frá 1634 med ró, alls í 32 ár, og deydi 12ta Júlii 1645, en

Sonur hans Alexíus Michaélsson (Michaelówitz) tók vid Ríki eptir hann; vann aptur Smólenzkó; gaf Rússum fyrstur Løgbók; bygdi mørg eydilønd; innleiddi handverka-smidjur nockrar og vard Fadir ad Petri Czar I, þeim Mikla nefndum. Annars vard Alexíusar stjórn fyrir sífelldum árásum bædi Svía og Pólskra, einninn fyrir innanríkis uppreist megnri, undir forustu Stenkó Razins, en þessi landráda-madur vard loks handtekinn, lifandi partadur sundur, og 12000 af bandamønnum hans urdu hengdir á þjódregum. Alexius deydi þann 10da Febr. árid 1676, þá 46 ára gamall.

Þórdur Alason (Feodor eda Theodor Alexiówitz) tók vid Ríkisstjórn eptir Fødur sinn 1676, og var sigursæll mót Tyrkjum, en heilsuveikur mjøg, og deydi því kornúngur og barnlaus, eptir 7 ára stjórn, þann 27da Apr. 1682. Hann kalladi Systkyn sín Iwan og Sophíu, Pétur hálfbródur sinn og helztu Bojara (Stjórnar-herra) saman ad banasæng sinni og mælti: „Heyrid nú sídustu heilrædi mín, „sem ást til Ríkisins og þegna minna skal „stýla: Líkhamleg veikindi Iwans bródur „míns verda ad hneckja hans sálar-kroptum, „er hann því ófær til ad stjórna þvílíku Veldi, „sem Rússanna nú er; hann á því ecki ad „þyckja vid mig, þó eg rádi ydur til ad velja „hann ecki til Stjórnar, en takid heldur Pét-



„ur hálfbródur minn, því hann er heilsuhraust„ur, og lætur þegar í ljósi miklar sálar-gáfur „og hygginði." Pétur var þá að eins 10 vetra, fæddur 11ta Júnii 1672 í Moskó, Hofudstad Rússa-veldis, og hofdu þá þegar við fædíngu hans Stjornu-vitríngar Fodurnum fyrirspád: ad Pétur mundi verda stríds-fús Fursti og hetja og óttalegur fjendum sínum. Leitst Alexiusi Prinsinn, þegar hann stálpadist, svo efni- og gæfu-legur, ad á honum rætast mundi spádómur sá, en Iwans bródur síns ódugnad. þeckti hann grant og gjordi því ádursagda vitra Stjórnar-rádstofun eptir sinn dag. Hún gédjadist samt svo illa Sophíu Systur hans, sem var dramblát og drottnunar-gjorn úr ollu hófi, og hatursfull við Stjúpu sína, Módur Péturs, og þennann hálfbródur sinn, ad hún spillti ollu um fyrir Pétri hjá Fodur hans, uns hann deydi, og hjá Pórdi Czari bródur hans, þó þessi unni mjog Pétri, svo ad þó þeir óttalegu Strelitzara hermenn, þá hér um 30,000, við dauda Pórdar, innu Pétri hollustu eida, féck Sophía samt þessum ósvífnu svo til meinsæris strax umsnúid, ad þeir gjordu óttalega uppreist gégn Pétri strax þann 15da Maji 1682, því hún lét telja þeim trú um, ad Iwan bródir heinnar væri myrdtur, en þeim somu afdrif fyrirhugud. Þeir hofdu því óheyrilegustu nídíngs- og óbóta verk í frammi, uns Iwan sýndi þeim sig lifandi, orgudu þeir þá: Þú ert vor Kon-

ungur (Czar)! — Pad vil eg vera! — kall-
adi Iwan upp — en leyfid ad minn elskadi
bródir Pétur drottni ásamt mér! Vóru
því bádir þeir krýndir þann 13da Júnii 1682.
Þó hafdi Sophia ádur haft mikil Stjórnar-
umbrot, og látid nídíngslega drepa nidur oll
Stórmenni Rússa, sem vóru í ætt vid Pétur
edur áhángendur hans, og var hún því tekin
ásamt til medstjórnar hinum. En — Strelitz-
arar óttudust, ad Pétur eptir þetta mundi út-
rýma þeim, vokiu því nýar óspektir gégn hon-
um, svo hann vard ad forda sér med flótta til
altarisins í Troizkoi's Klaustri ásamt Drottn-
íngu og Módur sinni; vard lid hans samt hin-
um yfirsterkara, og lét hann hálshoggva 30
fyrilida þeirra. Sophia fann sér ofvarid ad
undiroka þá, ásetti því ad ekta frækinn Prins,
ad nafni Basil-Galizin, og beita honum fyr-
ir; hún lét hann sídan verda fyrilida sins her-
lids í Krims Tattaralandi, en — þá vard
Pétur, árid 1689, fullra 17 ára, og qvadst
einn borinn til Stjórnar. Þau Iwan og
Sophia héldu til í Moská, er Pétur yfir-
lýsti, ad Sophia Systir sín stofnad hefdi ný
fjorrád gégn lífi sínu. Nú logdu Strelizar
honum lid, enddu Sophiu lidi, og ráku hana
sjálfa í Klaustur. Galizini var þyrmt, en
eigur hans allar uppnæmar gjordar, og var
þessi kátlegi dómur honum auglýstur: „Sá
„nádugasti Czar býdur hér ad halda til Kar-
„ga Stadar, sem liggur rétt vid heimsskaut-



„id, og þar ad eyda því, sem eptir er æfinnar,
„Hans Hátignar frábæra gædska, leggur hér
„6 skildínga á dag til uppheldis.“ Var þann-
inn enginn Stjórnar Med-bidill Péturs árid
1689 eptir ordinn, nema Iwan bródir hans,
vid hvern audveldt var af ad komast, med því
ad láta hann halda Medstjórnar nafninu einu,
en frá því hann deydi 1696, ríkti Pétur einn,
og sá hann strax 1689 med grimd mikilli fyrir
ad sér framvegis yrdi óhult, med því ad láta
þá drepa fleiri enn 3000 Streligzara-lidsins.
Þetta lid var — líkt Janitschara hjá Tyrkj-
jum — jafnan ósvífid og óvidradanlegt, og átti
þátt mestann í innanríkis upphlaupum. Þess
mergd og stérrædi vóru óttaleg; en Pétur
Czar fann upp medalid til ad ad stockva því
og undiroka þad, vid ádurnefnt tækifæri, hvers
tilefni var: ad hann komist hafdi í kunníngs-
skap vid úngann Herstjóra frá Genf í Fránka-
ríki, ad nafni *Le Fort*, sem var í fylgd dansks
Sendiboda vid Rússa Hof. Sá hafdi í flug-
hasti numid Rússa túngumál, taladi flest Nord-
urálfunnar feidugtega, var gledimadur mikill,
géfinn fyrir offaungum og munadarlífi, eins og
Pétur Czar sjálfur, og féll hinn því þessum
mæta vel í géd, svo Czarinn tók *Le Fort* í
þjénustu sína. Hann var vidforull mjög, og
bar gott skynbragd á flest; risti þó í fáu djúpt;
en hann kenndi Pétri fyrstur réttari og betr-
ada Nordurálfunnar Strids-kunnstar-vorna-
ársínga- og Stjórnar-reglur, sem þá báru lángt

af Rússanna og Austurlandanna þjóda. — Pétur skóp í flughasti nýar hersylkíngar af jafnöldrum sínum, sem hann nefndi sína Leikbrædur, setti yfir þær *Le Fort*, sem Hershöfdíngja, og lét hann menta og æfa þær á sína vísu, sem best, géck sjálfur i þeirra lid, sem sljettur Dáti, nam og æfdist vid allt, til ad géfa Boyurum sínum þar med fagurt eptirdæmi hlýdni og undirgéfni, og steig svo smámsaman en seint upp til ædri valda, eptir því, sem hann mentadist og vann til eptir réttri reglu. Í þeim fylkíngum vóru margir vel æfdir Nordurálfu búar, Frenskir og Hollendíngar. Pétur Czar lét *Le Fort* reyna sig med þeim fylkíngum í Lysti-bardögum vid enn fleira Strelitzara- og gamallt Rússa-lid, og veitti hinum miklu betur.

Helgihold mikil báru uppá 8da Júnii 1689, til hverra Czararnir jafnan komu. Sophia vildi, sem Med-drottníng vera vidstödd, en Pétur afstack þad; héldt hún því uppvæg med lid sitt og áhángendur til Troitzkovs klausturs, þess dýrdlegasta í Gardarîki, hvar Pétur var fyrir, en nockrir honum trúir Strelitzar frœddu hann á, ad þar ætladi Sophia ad láta drepa hann, Módur og Drottníngu hans — því hann 27da Jan. sama ár, hafdi Módir hans gipt Pétur Evdoxíu edur Ottókesu Lapúchin — Því lét Pétur þá fyrr umgétnu lýsíngu um fjörrád Sophiu sér og sínum búin, útgánga, og krafdist verndar af



hernum og öllum sem ynnu sér vel. Flicktist þá til hans mikill grúi útlendra Herforíngja, Yfir- og Her-manna í viðbót við hans egin nýskopuðu og velæfðu fylkíngar, og á skammri stundu stóðu hjá honum fleiri enn 20,000 manna honum til varnar, og allir þeir æðstu í Ríkinu, sem ecki þorðu framar að yfirgefa Pétur Czar, af ótta fyrir Sophiu hefnd ella. Afdrifin hefi eg áður nefnt, Sophiu fylgjandi Strelizara dráp, og hennar inngaungu í klaustur. Pétur Czar héldt hátíðlega innför í Moskows Stað, faðmaði þar opinberlega Jwan bróður sinn, lét hann halda framvegis Czars nafninu með sér, en um meira gaf Jwan ecki. Strax hafði Pétur vel æfdann her á Norðurlandanna vísu; valdi sér nýar fylkingar til lífvaktar, en dreifði Strelizurum burt víðs vegar í fjarlægð. J hans egin fylkíngu vóru 5000 útlendínga, sem vóru vandlega mentaðir og æfdir af skotlendskum Herforíngja, Gordon að nafni, en í áðurnefndum ný-skopuðum fylkíngum undir forustu *Le Forts*, tolduzt 12000.

Vinur hans *Le Fort*, hygginn, vel gáfaður og valinn maður, fræddi Pétur Czar um all-margt, leiddi honum fyrir sjónir, hversu mörgu og miklu í hans stóra og litt dýrkaða Veldi, væri stórlega ábóta vant, vísinda og góðmennta algjörlegann skort þar, eins kunsta, handverka, smíða, einkum skipa-smíða, verðslunar og siglínga skort til framandi landa, herskipa og alls, er viðþurfti til verndar skipaferðum og hernaðar á sjó, með þ

tal ödru. Pétur mikla sá sann fljótt sann-indi og þörf alls þessa — en frábærrar sálar þurfti líka vid til ad hesja sig upp yfir sinnar óupp-lýstu þjódar um aldir inngrónu fordóma mót öll-um umbreytíngum og nýúngum, eins til þess lof-legasta. — Pétur Czar dróg því fjölda fram-andi lærdóms- og lista-manna, verdslunar-siglínga, handverka og hermanna til Rúslands frá Frankaríki, hvadan meir en 500,000 gódra Reformèradra edur Húgenotta, flúdu undan grimmum ofsóknum Lodvíks Konúngs XIV., med miklar eignir, vísindi, íþróttir og handverk, einninn til Gardaríkis um sömu mundir; líka komu margir frá Þýdskalandi, Hollandi og Englandi, og baud hann þeim gæda kjör til ad gródursetja og innræta og kénna þar allsháttar vísindi, mentir, kunnstir og handverk, frama kaupverdslun, siglíngar og stofna Rúslands eginn, her- og verdslunar-skipa-flota, til efl-íngar Rússa veldis og þegna sinna velmáttar. Hann stack enn framar uppá í Ríkisrádinu, ad senda út marga, reynda og greinda, röskna menn til fyrrnefndra landa, til ad skoda þar og kynna sér helztu tilfæríngar, stór-bygginga og verksmidja tilbúníng og annad, sem Gardaríkis innbúum mætti ad haldi koma. Flestir Hof-menn hans dádust ad áformi því, enn einhverr helzti Rádherrann þagdi; Pétur spurdi: hverr honum litist ecki á þetta? „Ecki! — ans-adi Rádherrann — þeir eru heldur til skegg-jadir til þeirra útréttínga, og munu koma



heim aptur, eptir mikinn kostnad, engu vísari enn þeir fara." Pétur tók ílla móts mælum hans, og bad hann færa rök til. Rádsherrann greip ólúid blad af hreinum pappír, braut þad í bréfa-brot og strauk brotid fast med nöglinni, afhendti Czarinum sídan og sagdi: „Þér erud, Herra! voldugur Einvalds Drottnari og orkid flest ad vinna, en — reynid nú, hvert Þér megnid ad sljetta þrot þessi burt af bladinu! eg veit þad vinnst Ydur ecki!" Pétur þagnadi, sleppti sendiför öldúnganna, en ásetti sér ad trúa best eigin augum, ferdast til útlanda, skoda og reyna allt sjálfur, med samfylgd útvaldra manna. Vard foríngi þeirra *Le Fort* og 2 tignustu Rússar, áttu þessir 3 ad útgjöra konúnalega Sendiför fyrst til Hollands, útbúna dýrdlegri prakt og fjölmennri fylgd úngra Adals- og tjanar-manna, og lést Pétur Czar vera einn af hennar fylgjurum; í henni var og Furstinn Menzikoff og einn Tattara-Prins. Bannadi hann, undir lífsstraff, ad segja hvert hann væri, en lét kalla sig ýmist Pétur Mikkálsson (Michaelow), Pétur Bas eda Pétur Timburmann.

Þó Pétur vildi á Hollandi óþecktur verda, tókst þad skamma stund, því lýsíngar útlits hans frá Gardariki, sem bréf báru þángad, gjördu hann fljótt audkénnilegann. Hann var madur kémpulega og hávaxinn, þótta- og hátignar-legur á svip, hafdi vörtu á hægri kinn kinkadi opt kolli og hristi hægra handlegg sinn

Stundum afmindadist hann í framan af ryck-íngum eda grettum, sem eignad var eiturs verk-unum, er Sophia Systir hans hafdi inngéfid honum, en Volter eignar þær ofdryckju, sem hann stundum tamdi sér úr hófi. I Haag (Hollands Stad, hvar þessa lands Stjórn hafdi adsetur) vildi hann vera vidstaddur, en óþecktur, þegar Sendiþodar hans fyrst fengu áheyrslu og vidtoku, til ad sjá hennar dýrd og Ceremoníur. Vinur hans, Borgmeistari Witzen fylgdi honum því inn í sal innar af Stjórnar-salnum, hvadan hann fengi allt vel sjed. Pétur har þá hreinlegann Adalsmanna búníng, bláann kjól, lítid gullhladinn, og gefsi stórt, hvítt locka parruk. Salurinn fylltist brátt med Stjórnarherrana, sem þó allir rendu inní hlidar-salinn til Péturs; hann gramdist því og vildi brott. Witzen tjádi honum, ad þá yrdi hann gégnum Stjórnar-salinn ad fara, hvar allir Stjórnar-herrar þá vóru safnadir. Hann beiddi, ad enginn þeirra liti vid sér á medan, heldur snéru ad bakinu. Witzen qvadst eckert géta þeim Herrum skipad, en nefna skyldi hann þad. Þeir qvádust mundu allir upp-standa, medan Pétur gengi um Salinn, en engir snúa vid honum bakinu. Pétur dró þá Locka-parrukid ofan fyrir andlit sitt og rann, sem hradast hann gat, um Salinn og út.

Svo var sagt af fáfrædi manna ádur í Gardariki, einkum í skipa-smídum og sigl-ingum, ad varla nockurr Rússi gæti þá mindad

rétt Málverk af Skipi. Ad sönnu hafdi Alexíus Czar, Fadir Péturs, látid Hollendinga, sem þá vóru hvad nafnfrægastir af skipa-smídum og sjóferdum, byggja hjá sér eitt lítid skip, sem kallad var: Örnin; en — í upphlaupi hafdi Cósakka þjód vid Dón brennt þad upp, svo skipverjar tvístrudust, en 2 einir af þeim komust aptur til Moská's, annar hét Kársteinn Brandur, og vard hann þá fyrsti Skipasmidur Péturs Czars, sem kalladi fjölda Hollendinga til Skipa-smída austur í Gardaríki, lét fyrst byggja nockrar Smá-Bátur, þókti mikid gaman ad sigla þeim opt, stýra og ráda fyrir ad öllu leiti, var þó fyrsta kastid nockud sjóhræddur; lagdi sig sídan sjálfur eptir bædi öllu skipa-smídi med þeim Hollendingum, med eigin hendi og vinnu og allri siglínga-kunst, heimsókti opt Hollendska á skipum þeirra og baud þeim til bords med sér í höll sinni; reyndi sig og med báts-kjalar smídi vid æfdann Meistara, sem af kurteysi lét Pétri betur takast, og vard sá bátur lengi Péturs heidrada minnis-merki.

Ad enn hann eignadist nockurn Skipaflota, gjördi hann Fulltrúa sinn *Le Fort* Admírál þess væntanlega, eptir hverjum ecki vard lángt ad bída, því árid 1695 vildi Pétur Czar reyna hversu sér vegnadi í herför mót Tyrkjum, lagdi því mikinn hér um Asows festíngu í Litla Rússlandi, hverri hann hafdi mikinn hug á ad ná frá Tyrkjum, svo ad hann sídar

 

meir lengi þadan siglíngum og herskipum flestt um Svarta hafid. Sú festíng var því Tyrkjum jafn dýrmæt, og heppnadist Pétri þá illa umsátur hennar; hann vard ad hætta þeim, og misti þar 20,000 hermanna — því Tyrkjar fluttu Stadnum sjóveg nógar vistir — en sendu þá lidi hans spottglósur frá Asows múrum, og sögdu: Røltid heim aptur, Rússa tetur! lángt er heim, litid um vistir! røltid heim!

Spott þad sveid Pétri Czar magnlega, og ásetti hann sér ad hefna þess. Sama árid hljóp fyrsta reglulegt og vandad verdslunar-skip rússiskt af stockunum, og sídan hvert á fætur ödru, svo Pétur á þeim fékk adflutt mikinn forda korns bædi frá Líflandi og Preussalandi, þegar korn-abli Rússa brást mjög þettad ár. Þá birtist og fyrst í útlöndum Rússa Flagg, sem Pétur valdi til raudt, blátt og hvítt.

Bædi 1695 og 1696 ferdadist Pétur Czar til Gandvíkur (Archangels) á egin skipi sínu, St. Pétur nefndu, klæddur öldúngis sem hollendskur Skipherra, samdi þar vid hollendsk Kaupmanna-hús bædi um varníngs kaup mikil, skipa-smídi og annad, fór og þá til Lapplands, á hverri siglíngu hann ratadi í mikinn lífsháska í ofvidri, en hollendskur Stýrimadur þreif af Pétri stýrid, og frelsadi þar med hann og skipverja. Pétur þackadi honum þad innilega, gaf honum sinn sjóvota fatnad og árlega uppheldis peninga sídan. Seinna árid vildi

hann á sömu siglíngu fortakslaust þéna sig upp til yfirstjórnar skipa, nedst frá skips drengi, vard því ad verka allt upp og þvó, klyfrast hærst uppá mastra-toppa, og vinna sérhvad annad, hvad honum lét vel. A þessu ári 1696 hafdi Pétur strax 23 Strídds-Galeidur, 2 Galeasir, og 4 brennu-skip vel útbúin med 4000 hermanna lid og strídsvarnad. Admírál *Le Fort* rédi fyrir því stærsta, en Pétur fyrir ödru: med þessum litla flota vann hann strax frægann sigur á Tyrkja herflota, rett undir Asows festíngu, og veitti henni sídan umsátur á ný til lands og sjáar, og héldu Herforíngjar hans eptir 2 mánudi sigurhróss innför í Stadinn, gégnum Æru-port, sem sjálfur Czarinn lét þeim byggja. Baud hann, sídan, ad innan 3gja ára skyldu 55 stór og minni strídsskip verda til og vígbúin. En ári seinna urdu uppvís megn fjörráda sambönd mót lísi Péturs, af Stórmennum mörgum Rússlands, er ecki unnu hans mörgu nýu fyritækjum og sidaskiptum, og óttudust því enn fleiri af hans áformudu utanferdum; höfdu þeir fjölda Strelizara lidsins bandamanna med sér, en — med hetju-módi og megnum lífsháska fécк Pétur þau sambönd algjörlega sundrud og þeim eydt, þann 2ann Febr. 1697, straffad bandamenn og birjad áformada fyrrnefnda utanferd sína í fylgd Tignarmanna sendifarar fyrst í Apr. strax eptir til Hollands; töldust í henni 270 manna, og bjó hann sig ríkmannlega út til ferdarinnar, med mörgum peninga vexil-bréfum

uppá England og Holland, aur millíónum Rúbla þaradauk, og miklum byrgdum af dýrmætum lodskinnum og persiskum dúkum. Pétur bar optarst hollendskann Skipherra búning, uns hann komst til Amsturdams og Zaardams Stada í Hollandi. Þar lét hann skrifa sig inn á Skips-timbúrmanna-listann, tók upp allann búníng þeirra, vann sérhvert verk med þeim, bjó í dálitlu bakhúsi hjá jarnsmidi og þar sjálfur upp rúm sitt, og eldadi sér óbreyttann mat. Smídatól öll keypti hann og bar med sér sjálfur. Í þessum tveimur Stødum dvaldi hann og vann ad skipa-smídum fram á annad ár, æfdi sig vandlega í øllu ad þeim og siglíngum lútandi, sigldi, stýrdi og slagadi sjálfur opt á bátum og smá-skútum, og rédi fyrir øllu, eins í óvedrum og um háska leidir; en kollsigldi sig líka einusinni af vangá, svo honum vard naumlega bjargad. Hann granskodadi og kynnti sér allt hvad hann sá í þessum Stødum og Landi, verksmidjur, bygggíngar, mylnur, handverk og hvad eina, nam mælingar, landaskipana- og líkskurdar-frædi, veraldar-søguna og margt annad, vard styggur ef nockurr rindi mjøg á hann eda fólk flyckt-ist ad honum, og bardi þad þá opt frá sér; fór í Haag einusinni á fætur um midja nótt, inn í þá dýrdlegu høll, sem Sendibodum hans var lént. Allt var í svefni; hann géck um allt, og kom loks þar, sem einn þénaranna lá og svaf á Bjarnar-feldi einsømlum, sparkadi vid

honum og ſagdi: Burt med þig! þvi hér vil eg hvílaſt, og ſvaf ſvo á Bjarnar-feldinum einum til morguns. Þad ſérlegaſta var: ad hann, midt í þeſſum timburmanna ſtørfum og í þeirra búníngi, lét ſér annt um Yfirſtjórn alla heima í Gardarîki, og Samnínga vid útlendar þjódir. Hann ritadi eſſtu Stjórnar-herrum ſínum allt þar ad lútandi; hét Auguſti Pólalands Konúngi lidveitſlu, og hjó undir eins til møſtur og kili ſkipa og annad med eggſi ſinni. Frá Amſturdam reit hann Adriani Patriarcha Rúſſa: „Hér er eg, ad „bodi Drottins til Adams, til ad „vinna mér braud í ſveita míns andlitis; „eg vinn ſamt ecki af þraung, heldur til „ad nema vandlega, allt hvad ſkipa-ſmídi „og ſiglingum vidvíkur, og þanniñ verda „færari um ad viña á Tyrkjum, trúariſſ-„ar fjendum, en frelſa kriſtna." J Amſturdam bad hann ad byggja fyrir ſig vandad Galíótu-ſkip; Borgmeiſtari þar, ſá lærdi, ríki og frægi Nikulás Witzen gaf honum þad á eptir fullbúid, í Stadarins nafni. Pétur ſagnadi þeim ſkeinki, þackadi og fadmadi Witzen, og ſkírdi ſkipid Amſturdam; hafdi hann ſjálfur margt til þeſs ſmídad; keypti ſídan ſjálfur farm á þad, lét undir umſjón ſinni ferma, og ſendi þad ſvo til Gandvíkur. Gydíngar í Hollandi nýttu ſér vináttu þá, er Pétur bar til Witzens, og létu þenna bjóda Czarinum 100,000 Gyllina ſkenk til þeſs, ad leyſa þeim

optur bölfestur í Gardarîki, hvadan Iwan Czar *II*. gjördi þá ræka. Pétur afstack þad, og qvad Sydinaum þar mundi illa vegna, og ecki takast ad slá Rússa sína, þó þeir hefdu ord á sér, ad fá alla veraldar-búa í vid-skiptum svikid.

Wilhjálmur Englands Konúngur *III*. baud þá Pétri Czar til Englands; sagnadi hann því bodi, og lét út frá Hollandi þann 18da Jan. 1698, ásamt Fursta Menzikoff og fleirum úr fylgd hans, med 3ur herskipum og 1 Skútu, sem Wilhjálmur Konúngur sendi til ad sækja hann. Hann kom þángad í engelskra Skips-Yfirmanna búníngi, og bar hann þar, en opt þó Matrósa búníng, valdi sér adsetur vid helztu Skipa-smída verksmidjur á Temps-fljótsins bockum. Þar dádist hann mjög ad þeirra smídi, fullkomnadi, eins þar, og æfdi sjálfann sig í því og vid skipa útmælíngar allar, og leitst honum svo vel á skip þeirra, ad hann sagdi: „Væri eg ecki fæddur til ad vera Konúngur (Czar) Gardarîkis, vildi eg enskur Admiráll vera." Eins náqvæmlega kynnti hann sér allar stór-verksmidjur, handverk og tilfæríngar, rjedi þadan til þjónustu sinnar fleiri enn 500 manna af öllum stéttum, yfirmenn vid lands- og sjóar-her, og allsháttar þar ad þjónandi menn, Vísinda-, Lista- og margvíslega Handverka-Meistara.

Þar vard hann allstadar fyrir mestu heidrun, lotníngu og undrun maña, en Háskólinn í Oxna-furdu veitti honum *Doctors* Verdugleika. Eptir hálf-missiris dvöl í Englandi, komst hann í ofvidri í megnann sjáar-háska á leidinni til Hollands vid útgrynníngar þess. Skipverjar létu honum lífshættu hans í ljósi, en Pétur Czar, þá reyndur fullhugi ordinn í sjóferdum, ansadi þeim brosleitur: „Hafid þér nockurn-tíma heyrt, ad Czar Moskóvíta (Garda-ríkis) hafi drucknad vid Holland?" Því vart hafdi nockurr Czar fyrr enn hañ farid á flot.

Vid komu sína til Amsturdams sañ hañ fullbúnar 2 kostulegar flutnínga skútur, sem hañ, á medan hann í burtu var, lét þar byggja; hañ lét ferma þær í hasti og þær sídan sigla þadan í augsjón sinni; rjedi hañ sér og úr Hollandi 640 allsháttar lista og handverka dugn-adar-manna, útbúna munstrum og eptirmindun-um allsháttar kuñstsmidja til eptirgjørdar; gjørdi út 8 skip med þá og ádurnefnda (bls. 169) marga flótta-menn Reformeradra frá Fránkaríki, er þustu til hans hópum saman. Sjálfur ferd-adist hann úr Hollandi*) þañ 3ja Júnii 1698 til Dresdens og sídan til Wiens Höfudstada í Þýdskalandi, á fund vid Keisara Leopold sér sambundinn Vin gégn Tyrkjum, til þess

---

*) Svo taldist þá til, ad vera Péturs Czars og fylgdar hans í Hollandi, hafi þángad til kostad þessa Lands Stjórn hér um 510,000 Gyllini.

ad binda frekari naudsýnja sáttmál vid hann, skoda strídsbúnad og nema hernadar adferd hans ásamt ødru merkilegu. Þadan var hann ferdbúinn til Feneya og Rómaborgar á Vallandi, þegar honum barst fregn um nýar uppreistir Strelizara lidsins í Gardariki. Hann gramdist þeim mjøg, og hradadi sér því heim aptur, sem mest hann mátti, gégnum Pólaland, hvar hann batt markverd sáttmál vid Konúng Augústum *II.*, og komst til Moskå's Høfudstadar þann 4da Sept. 1698, hvadan hann ad heiman fór fyrst í Apr. 1697. Var uppreistin þá þegar undirokud af hans trúu og duglegu Stjórnarherrum, en — trúum fyritaks Embættis-mønnum sínum til æru og umbunar hafdi hann, þann 30ta Aug. s. á., stiptad Andrésar Riddara-Ordu — Rússlands ædstu — sem borin er í bláu bandi.

Orsøk uppreistarinnar tjádist verid hafa sú hjá þeim fávísu og fordóma-fullu Rússum, sem, eins og allt óupplýst fólk, vildu hánga vid fornann vana, en engar breytíngar, nýúngar eda umbót þýdast, ad þeir sáu þær mørgu og miklu nýu umminndanir og fyritæki, sem Pétur Czar hafdi innleidt, og hann fyllt hafa landid framandi fólki og sidum, en ferdast sjálfur heimanad til ad nema og undirbúa enn størkostlegri umbiltíngar. Þeir sáu útlendra hernadar adferd bera sigur í upphlaupum vid Landa þeirra, sem fylgdu fornri og lakari. Czarinn sendi



med stór=kostnadi helztu maña børn út um Nordurálfuna, til ad nema hyggnari sidi, en — í Gardaríki drottnadi sá gamall fordómur, ad óhæfa væri kristnum mønnum ad forvitnast um ønnur lønd, eda ferdast út á: sínu egin; því — søgdu Rússa Klerkar — innbúum Canaans hefdi í Gamla Testamentinu bañad verid, ad samblandast eda taka sér sidi og snid eptir audgari og snidugri nábúum þeirra (5. Mós. b. 7 og 17 Kap. og Jósúab. 23, 7. 12—13). Því þáfust og ílla fyrstu ferdaløg útsendínga, sem lítid edur eckert vildu nema, og einn þeirra, segir Volter, kom svo frá Geneyum aptur, ad hann, medan þar dvaldi, géck og leit aldrei út úr hýbýli sínu, svo ad hañ yrdi eidfær um, vart ad hafa sjed annad land enn Rúsland. — En — þessir útlendíngar lærdu sídan fljótt ad leggja fram betri alúd, því Petur Czar krafdi þá ítarlega reikníngs fyrir hvad þeir lært og unnid høfdu, framadi ydna menn, en straffadi óvægt þverbrotna og ydjuleysíngja. Samt kastadi tólfunum med Rússa gremju, þegar fréttist ad Petur Czar, sem á Englandi komst í penínga þraung, eptirlét þar Kaupmønnum, ad flytja Tóbak til Rúslands, fyrir hvert leyfi þeir budu og gáfu honum 100,000 Rdli, og ad mega selja þad þar. Því þetta þókti þar óttaleg nýlunda, og vidkoma Trúarbrøgdunum. Klerkar álitu sér bera, ad fyribjóda alla Tóbaks brúkun. Patr'archinn bannfærdi hvern helzt, sem reykti Tóbak, vegna

þess, ad Tyrkjar, fiendur þeirra og kristinn-dómsins, allir reykja; þókti þetta því ókristi-legt, og leyfid Enskum veitt ógudlegt — en svo fór um skammt, ad Pétur kénndi Klerk-unum sjálfum ad reykja og finna sig í mørgû meira verdu. Samt æstu Múnkar, Klerkar og Abótar í fyrstunni almúga upp, og Stre-lizara lidid, sem þeir tíndu saman, gjørdu út af øllu þessu upphlaup og ætludu ad setja Sophíu Prinsessa á Veldisstólinn, en afsetja Pétur Czar. Lid þessa fécк þá samt undirok-ad rétt í því Czarinn sjálfur þeim óvænt og hastarlega komst heim aptur. Hann reiddist þeim ílla, lét halda yfir þeim óttalegann rétt, og afhøfda grúa uppreistarmaña â hverjum degi allann Október mánud út, en — í 28 gálgum, sem hann lét reisa upp umhverfis Sophíu Klaustur, hengja 130, þar af 3 rétt fyrir Ko-mentu-gluggum hennar, med þad bónar-bréf til Sophíu í høndum, sem þeir sønnudust ad hafa til hennar skýlad um ad taka vid Rik-isstjórn. Var hún því magnlega grunud af sambøndum med þeim gégn Pétri Czar og jafnvel Drottníng hans Evdoxía (Ottókesa), sem auk þess þókti Pétri styrd í samvistum, vid hverja hann því sagdi skilid 1698 (heldur enn 1696), og vísadi henni í Klaustur, hvar hún Nunna vard og nefndist sídan Helena (Elin).

Þeim 500 uppreistarmønnum, sem hann gaf grid, dreifdi hann lángt burt í allar áttir, og afstók sídan algjørlega Strelizara herlidid,



en — innan 3gja mánada vóru 32,000 vel æfdra nýrra hermanna á Nordurlanda hátt reistar á fót aptur af Pétri í Strelizara stad. — Hanninn luckadist Pétri Czar ad undiroka, árid 1698, þetta ósvífna lid — rétt ígyldi talid Tyrkjanna Janitschara, sem Amúrath Soldán *I*ti stiptadi 1370, en seinni Soldánar renndu opt forgéfins til ad temja — því árid 1622 kostadi sú tilraun Soldán Osmann lífid, en þann 28da Maji 1807 Soldán Selim *III.* affetníngu og dauda þann 26ta Júlii 1808, og á sama degi Soldán Mustapha *IV.* affetníngu. Hann sama dag kom nú ríkjandi Soldán Mahmúd *II.* til ríkis eptir Mústapha *IV.* bródur sinn, hvern Mahmúd í Janitschara upphlaupinu, þann 17da Nóv. s. á. lét mýrda, en sama daginn féll í því upphlaupi ædsti Stjórnarherra (Stór-Vizír) Mahmúds, ad nafni Mústapha Bairaktar, sem lypt hafdi núveranda Soldáni uppá veldisstólinn.

Pad mótlæti bættist 1698 á Péturs Czars reynslu, ad missa Herforíngja og trygda-vini sína *Le Fort* og Gordon, sem þá deydu, sá fyrri í fátækt, er vottadi óférdrægni hans. En — allt stód samt vid sama med Péturs Czars stjórn. Hann saknadi ad sonnu opt *Le Forts*, sem á stundum aptradi brádlyndi hans, en — hans miklu sálar-kraptar gjördu hann úr því fullfærann til ad stjórna öllu fyritaks vel einsamlann, til umminndunar, sidunar og heilla sínum óhefludu Rússum. Eptir fyrrnefnt mikla

flátur bandamanna, fór Pétur Czar og med alúd fram miklum umbiltíngum og sidaskipun, og vard hans einka trúnadar-madur úr því Furstinn Menzikoff, sem frá umkomulitlum bakara-drengi vard, vegna fyritaks gáfna og dugnadar síns, Fursti, en kunni þó hverki ad lesa né skrifa, fór lengi vel med en vanbrúkadi þó á stundum tign og lucku sína, en bar sídan vanlucku, sem vitur madur (sjá Qvøldv. I. P. bls. 294—323). Pétur Czar leit — vid frama til Embætta — einúngis á dugnad og þjónustu tíd, og á verulegann frama og áunninn lærdóm vid utanferdir; lét sér úr því annt um, ad betra og laga allt í Ríki sínu. Lækkadi Stórmenna dramb og ofirlæti; stiptadi Prentverk og Skóla í helztu stødum Ríkisins; lét innfæra mørg uppbyggileg Rit; vildi í útvortis sidum eins gjøra Rússa sína ófráleita ødrum Nordurlanda sidudum þjódum. Adur sofnudu þeir bríngu-sídu skéggi, og gengu, á Austurlanda hátt, svejpadir inn í skósída, vída sloppa. Pétur lagdi þúngann skatt á hverttveggja, baud þeim ad raka sig, og klædast líkt ødrum Nordurlanda þjódum. Til þess ad þessu yrdi hlýdni sýnd, setti hann út vid øll Stadar-portinn Skéggrakara og Skraddara, þá fyrri til ad naudraka alla, sem ecki vildu skattinn gjalda, þessa til ad skéra nedan af sloppum þeirra og snída þá nockud laglegar upp, þegar út eda inn um portin færu. Hét þetta í spaugi, en var þó raunar í ramri al-



voru gjört, og reis því eckert upphlaup af, enda dirfdist þa enginn ad vekja framar óspektir gégn Pétri Czar, og skjótt þókti betra, ad sjá af skégginu enn skildingunum. Nýa Kirkju-sidi og reglugjörd fyrir Klerka, innleiddi hann, hvert sem þessum gédjudst þau vel edur midur, og þá Patríarkinn Adrianus deydi, árid 1700, minntist Pétur Tóbaks hannfæringa og rétt´ páfalegrar drottnunar-sóttar hans og Klerka hans, sann mál ad klippa vængi þeirra, og aftók því hreint þau vöid og þad Embætti, en lagdi góts og tekjur þess undir Krónuna, og qvadst sjálfur hafa mundi ædsta yfirstjórn allra geistlegra og kirkna málefna, og eins í þeim vera ega beggja ædsti Stjórnari. Seinna lét hann geistlegt Ród, sem hann skipadi 1719 og sem sídar nefndist helgasta Samqvæmid, stýra kirkjunnar málefnum, beint ad bodi sínu. Því segir *Voltaire*: ad Keisarinn hafi ecki sjálfur snert vid reykelsis kerinu, heldur stýrt hendi þeirra, sem báru þad. Múnkum sann hann holt ad fæcka, og í þeirra stad hafa þess fleiri gagns þegna; leyfdi því engum innan 50tugs aldurs Múnkastétt, enda vard í Gardariki um hans daga færst af Múnkum, hvar þeir annars sitjast — en íllgresid, sem hann þar med upprætti, festi samt rætur á ný vid Stjórnar veikleika Eptirkomara hans, ad lída þad, og vid Klerka hégóma óhyrd ad vilja útdreifa því. — Hann innleiddi þann sid, ad karlar og konur skyldu

umgángast og borda saman, og bidlar mega sjá brúdir sínar fyrir brúdkaupid, sem hverigt ádur leyfdist þeim, ellegar ad lítast annarsstadar enn í kirkjunni. Líka aftók Pétur Czar ósid þann, ad Brúdgumar senda skyldu Brúdum sínum í Brúdar-skenk Vönd, til teikns um, ad vid fyrstu hentugleika ættu þær hjá bónda sínum aga von. Menn máttu líka ádur drepa konur sínar ad ósekju, en ef konur bydu sér sama vid menn sína, vóru þær strax qvikseттar, en hvertveggja aftók hreint Petur Czar. Árid baud hann ad birja skyldi med Januarió, en ádur var þad med Septembri; skipadi ad brúka Pappír til ritgjørda, og yfir høfud eyldi hann meiri vinsemd og skémtun í umgengni manna, enn ádur var þeckt í Gardariki.

En — þó hann þanninn, svo ad segja, endurskapadi sidi Rússa sinna, og tendradi, midt í þeirra sáfrædis- og villisida-myrkri, uppfrædíngar ljós, en upphefdi þá til velmáttar, Ríkid til óttalegs veldis æ sídan, med þess ódum vaxandi og vel æfdu stridsmakt til lands og sjóar, vannst honum samt midur ad útrýma týrannalegum fyrirtækjum, ályktunum og sidum, sem æ vildu loda vid hans af náttúrufari hardgérda hjarta. Hann fann þad vel sjálfur og sagdi því í Hollandi, þegar hann seinna þar ferdadist 1717: „Eg hefi sidad mína óstýrilátu Rússa, en mig sjálfann tekst mér ecki ad sida.“ Honum brá og til þess á

stundum, sem Volter segir alltídkanlegt verid hafa hjá Rússa Czorum, sjálfum med egin háu hendi ad leggja 100 tarf-sina keira högg á bert bak síns fyrsta Stjórnarherra eda Hof-frúa (sjá Knút bls. 125), og ad reyna á sakamönn-um hvert sverd hans væri beitt. Pétur Czar beitti samt optarst gaungu-stafi sínum til þess. Stjórnarherrar 2 í fylgd hans í Hol-landi létu vid Pétur Czar og adra í ljósi, ad hann gjördi sig þar of lítilmótlegañ í umgengni og med egin vinnu gleymdi tign sinni. Hann lét strax leggja þá báda í járn-hlecki, og ætladi ad láta afhöfda þá, en Yfirvöld qvádu þad ó-leyfilegt þar í landi og lögdu þessum líknarmál. Pétur úrskurdadi því, ad annar þeirra skyldi sendast til Batavíu Stadar í Hollands Aust-indíum, en hinn til Súrinams, sem Holland þá átti í Sudur-Ameríku, og sendi báda þángad þadan (sjá og Nótu í 1ta Hefti bls. 125). Þegar nockra Stórherra í fylgd hans hrylti vid uppskurdum Líka, baud hañ þeim strax med tönnunum ad slíta sin úr líki, sem verid var upp ad skéra. Þar lærdi hann og á kaupstefnum af blaupa Læknum ad draga tennur úr mönnum med skeida-skoptum og ým-islegum verkfærum á svipstundu, og reyndi síd-an á tennum ýmsra fylgjara sinna, hversu þetta tækist sér. Sverdi sínu rykti hann eitt sinn út í ölbrædi yfir bordum, til ad höggva med sinn hjartans Vin *Le Fort*; þó hikadi hann sig á því og beiddi hann strax forláts,

og fórst honum þar í betur enn Alexander Mikla, sem drap vin sinn og Frelsara Clitus fyrir sønn hervrdi fordum. — Pétur Czar hardi opt Furstann Menzikoff, sinn vildasta trúnadar-mann, las á stundum hátt upp yfir bordum Lista yfir afbrot hans, en hafdi heitid honum aldrei ad láta drepa hann. Samt sektadi hann Furstann einusinni um 200,000 Rúblur fyrir undirokun Almúga; en — Menzikoff þoldi þad vel, med þeim hætti ordinn einhverr hinn ríkasti þá þeckra manna í Nordurálfu. Pétur Czar brúkadi hann opt til mestu útréttínga og fyrirtækja, en vard þráfaldlega, var vid undirokun hans og sérplægni, skammadi hann opt út fyrir þær, en — einusinni, þegar Pétur hafdi samt þar uppá vissu fengid, keirdi hann árla til Menzikoffs, var hann þá ecki úr reckju risinn. Hañ las honum hátt upp afbrot hans: „Þú hefir — sagdi hann — tíusinnum verdskuldad dauda, samt gef eg þér eñ þá líf af nád, en nockra hugvekju skaltu samt fá." greip hann þá gaungu-staf sinn, Dóbln nefndann, og bardi Menzikoff miskunarlaust. Sídan hélt Pétur Czar þadan, en mætti á leidinni zur. estu Stjórnarherrunum. „Hvert ætlid þid? spurdi Pétur," — „til Furstans Menzikoffs — önsudu þeir — til ad óska honum góds, nú á afmælisdegi hans." „A! er svo!" mælti Pétur, snéri aptur til Menzikoffs og qvadst mundi þyggja hjá honum middagsverd hann dag, ásamt hinum, og óskadi

honum hefdi nú á Afmælis-degi hans, en — Menzikoff — frælborinn — komst þá varla úr stad. Fyrir undirokun lét hann 1717 annars skjóta Landstjórnarann í Gandvíkur umdæmi, Furstann Wolkonskv og drepa marga fleiri, en dóminn 1718 yfir Alexíusi Syni hans, og hans framqvæmd, nefni eg sídar.

Pétur Czar var annars einbeittur, opt og óbilgjarn í stjórn, hvert helztu Vinir hans edur adrir áttu í hlut. Banninn hafdi hann einhverju sinni frægttur af störfum í Crónstad (hjá Pétursborg) ad qvöldi dags hardbannad Báta heim, sem vord héldt vid hús hans, ad hleypa nockrum inn til sín, hverr helzt, sem væri. Litlu seinna kom Furstinn og Herforínginn Menzikoff ædandi med árídandi erindagjördir til Péturs Czars; var ætíd vanur vid frjálann inngáng til hans, en vaktin vísadi honum nú hardlega frá. Menzikoff vildi ecki gégna því, en vaktin hratt honum undan og hótadi ad berja hann med byssu-sképtinu. Menzikoff vard æfar-reidur og klagadi Bátann hardt, þegar hann fyrst féck Péturs fund, fyrir óheyrda plumpa vidtöku manns á sínu reki. Pétur kalladi Bátann strax fyrir, „Þeckir þú — frétti hann — þennann Herra?" — „Já! Herra! þad er Furstinn Menzikoff." — „Mun þad satt, ad þú hafir hótad ad berja hann med byssu-sképtinu?" — „Já, eg hefdi víst lúbarid hann, hefdi hann ecki sleppt áformi sínu." — „En — fyrir hvad?" —

„Fyrir þad hann vildi vada inn til míns Czars, hvertámót beru bodordi hans.“— „Þad fór vel! komid þid med 3 staup brennuvíns full! — Þarna, Menzikoff! dreckttu nú skál þessa valmennis, hvern eg nú gjöri ad Undir-Yfirmanni vid herinn!“— Menzikoff vard feginn ad sleppa med þad og renndi staupid af. — „Dreckrú annad staupid til og skál hans, því nú gjöri eg hann ad Hundradshöfdingja (Premier Lieutenanti) vid her minn.“— Furstinn hlýddi, en gramdist. — „Þridja staupid líka,“ mælti Pétur Czar, „og þar med skál þessa míns nýa Höfudsmanns (Capitains).“— Menzikoff þordi ecki annad enn ad súpa þad af. — „Nú, Menzikoff!“ sagdi Czarinn gagn-alvarlegur, „fardú nú og klæddu upp og árbúdu vel þenna minn nýa Höfudsmann, og bjód þér aldrej framar ad áreita þá, sem gégna skyldu sinni í minni þjónustu, því stafur þessi“ (þar reiddi hann upp Dúbín gaungu-staf sinn) „skal ella kenna þér pína!“ — „En þú,“ sagdi hann vid Dátann, „þú ert dánumadur! gégndú jafnan eins nákvæmlega bodum mínum, og mun eg þá minnast þín!“

Ætti eg ad rita nockurnveginn greinilegt Agrip af Péturs Czars laungu, mörgu og merkilegu herförum, yrdi þad stærri bók, enn samsvarar hverju þessara Smá-sögu Hefta; eg læt því nægja hér ad minnast á: ad í stríði

hans vid Tyrkja, birjudu 1695, sem fyrr segir á blf. 172, vard fyrst ægja ára vopnahlé um samid 1699, en þetta sidan lengt uppá 30 ár. Tilgánguriñ vard áugljós árid 1700, þá Pétur Czar bodadi Svíum strid, vildi því á medan halda fridi vid Tyrkja, svo hann ecki hefdi fjandmenn sér á bádar hendur. Taldi hann til orsakar, ad Svíar rænt hefdu Rússa Ingermanna- og Karela-löndum. Rússar fylltu hid fyrra straz upp med herlidi ad Eystlands landamærum, og umsátu Stadinn Narwa, skammt frá St. Pétursborg (núverandi). Svía Konúngur Carl *XII.* hradadi sér, þá 17 vetra, til ad frelsa Narwa Stad, og rédist, hann 30ta Nóv. 1700, med 9000 Svenskum undan vindmiklu ofan-kafaldi á 60,000 Rússa, og vann þá sidan æfinlega nafntogadann sigur á þessum óvidbúnum, hverjum vard allt ad handa-skolum, svo ad þeir tvístrudust, flúdu, urdu lafhræddir og 30,000 þeirra gáfu sig þeim til fánga, en 45 fallstycki og allur stridsvarnadur féllu í Svía hendur. Þeir hjátrúarfullu Rússar héldu Svía vera galdramenn, og létu því Biskup sinn búa til handa sér andrika bæn mót þeim, til ens helga Nikulásar. Pétri Czar féllst ecki hugur vid þá óheill, heldur lét hann fallstycki steypa úr Moskás kirkna klucku, dró saman nýann her og sagdi: „ad þó Svíar enn opt mættu sigra Rússa, mundu þessir þvi framar hé sér þörf af hinum ad læra, og loksins

mega þessa hefna." Árin 1701—1702 vegnadi ýmisum betur, þó vann Herforíngi Rússa Scheremetow, sídan Péturs Czars nafnfrægi stridsbródir og vinur, Stadina Nöteborg, nú Schlüßelborg, og Mariuborg árid 1702; þyrmdu Rússar þá fáum innbúa, samt fannst í Mariuborg eptirá falin í bakara-ofni sú stór-gáfada Frídstúlka Katrín ad nafni, sem þá vard lögd í þrældóm, en sídan Kejsarainna Rússa og seinni Drottníng Péturs Czars, og hleypi eg hér þeim atvikum úr Péturs Søgu, sem þeirra giptingu, sambúd og hennar frábæru dygdum vidkoma, med því ad vísa til hennar Sogu á 1ta Heftis bls. 117—126.

Þann 1ta og 5ta Maji 1702 vann Pétur Czar, er sjálfur þá strídди, sem Undir-Fyrlidi vid fallstyckin, Ny-skansa festíngu og hertók med 30 smábátum 2 vopnud svensk herskip vid Newa-fljóts mynni. Admírall Gholowin heidradi hann fyri þad med Andrésar tignudu Riddara Ordu. Hana fengu líka þeir Gholowin og Menzikoff. Pétur fann naudsyn á med ødrum Kastala til ad verja fljóts-mynnid. Var sá stofnadur á annari eyu vid þad, þá Lysti-Eyu nefndri, hvar einúngis ein fiskibúd alls húsa þá fannst. Þar lét Pétur Czár byggja sér dálitinn timbur-kofa, og stód sjálfur ad smídi hans, sagdi þadan fyrir øllu verkinu; var sídan þann 27da Maji 1703 af honum fyrst birjad med grundvøll til Kast-

alans. Hann hét þá Eyu strax St. Péturs-borg, og rjedi nú af þar ad byggja ecki ein-úngis óvígann mikinn Kastala, heldur Stór-Stad, hvadan hann fengi mørgum hér- og kaup-skipum valdid út um Eystra-sallt og þad-an til Nordurlanda, til varnar og blómgun-ar Rússa-veldi og þarfa þess í strídum, einkum vid Svía og adra nábúa. Gandvík var þar til óhentug, affídis og ísaløgum sperrt um 7 mánudi ársins, en Svarta-hafid afvendt og fjarlægt, en þó Rússum hentugt ad hafa sigl-íngar á mót Tyrkja flotum. Fjøldi frægustu Meistara Nordur-landa unnu ad þessum Kast-ala- og stadar-byggíngum; strax vøru 20,000 manna í ønnum vid þær, en landid var mjøg erfidt vandlega ad byggja, því grundvøllur þess var votur, laus og forædasamur. Fólk þusti saman úr øllu hans vída veldi, jafnvel 2 og 300 mílur lángt ad; en — þar skortu fljótt bædi vistir, hýbýli, byggíngar-efni og áhøld fyrir þann manngrúa, nefnilega: 40,000, sem sídan jafnast ad verki stódu. Mold vard í dúk-um og pokum ad sækja lánga vegu ad, øll byggíngar-efni og naudsynjar, og ótal mætti því Borgar-smídi fælandi þýngsli og vandrædi. Volter telur vid þær þrautir, hardrétti, sjúk-dóma og slæmann adbúnad í mjøg vetrarhørdu landslagi fallid hafa fleiri enn 100 þúsundir manna og 8000 hesta vid adflutnínga, á med-an St. Pétursborg og Crónstadar Kastali, edur Crónslot á Eyunni Retúsari, hvern Men-

zikoff lét byggja, hvar sídan herflotans hofn er, komust upp, en þeir Kastalar verja ásamt Borgina. Samt komst Borgin upp og er nú hin dýrdlegasta einhver í Nordurálfunni, Rússa Keisara og nú senn 300,000 innbúa adsetur, hvadan einhverr hin lífiegasta og mesta kaupverdslan blómgast ár frá ári. Þar standa nú 5 edá fleiri dýrdleg keisaraleg Slot, og 35 Kirkjur, því játendur allra kristilegra trúarbragda njóta þar þeirra frjálsrar dýrkunar. Péturshorgar Port lét Czarinn prýda med kostulega úthoggnu bílæti Postulans Péturs. Eptir 5 mánudi vóru Kastalarnir þegar í standi og þá fagnadi Pétur Czar ad sjá hid fyrsta útlendt kaupfar leggja ad Pétursborgar hofn; hann lótsadi þad sjálfur inn þángad, og var þad frá vinum hans í Zaardam í Hollandi, hladid v í n i og odru fánæti. Pétur Czar leyfdi Skipara þess ad selja farminn tollfrítt, keypti sjálfur, og margt Stórmenni, mikinn hluta hans, en gaf Skiparanum 500 Dúkáta skenk, og hverjum farmanni á því 100 Dúkáta, en hét Stjórnara þess 100 dala gjof fyrir sérhverja ferd hans þángad sídan. Hann lét og kunngjora, ad Yfirstjórnari næsta skips, sem þángad kjæmi, fá skyldi 300, en þess þridja 150 Dúkáta skenk. Þessi Keisara-borg í Svía Ingermannalandi, vardi þetta sídan fyrir Svenskum, og þá Pétur Czar 1704



hafdi gjøreydt 13 svenskum herskipum á Pei-pus vøtnum þar á grend, svo ad svenski Ad-mírállinn sprengdi sig med því seinasta og ollu lidi þess í lopt upp, en hertekid Kastalana Dorpat, Iwangorod, en Narwa Stad og Kastala med áhlaupi, og hanninn manndóms-lega hefnt bedins tjóns og hneysu vid sama Stad árid 1700, var gjørvallt Ingermanna-land undir Rússa unnid, en Mexikoff vard þar Landstjórnari. Pétur lét sér svo annt um ad aptra Dátum sínum frá drápi og ráni í Narwa Stad eptir hertøku hans, ád hann sjálfur lagdi 2 sinna manna í gégn, sem ecki vildu hætta og hlýda honum. Lagdi sídan sverd sitt blódugt á Rádhúss-bordid þar og mælti: „Sverd þetta er litad minna egin Dáta blódi, sem eg lét útslóa ydur til frels-is." Héldt hann sídan sigurhróss innfør í Mosků, en Sonur hans Alexius géck þar, sem sléttur Dáti í herfylgdinni.

Svía Konúngur Carl *XII* vód med herlid sitt inn í Pólaland, vann þad og afsetti Augúst Konúng *II.*, hverjum Pétur Czar sam-bundinn var gégn Svíum, og sendi því Þáng-ad mikinn her honum til hjálpar, yfirgaf hann heldur aldrej úr því; en Rússa og Pólalands her beid þar ósigur. Pétur lét sinn því enda þar landsbyadum og kalladi hann heim aptur, þegar Carl *XII* árid 1706 hafdi kúgad Au-gúst Konúng til ad afsala sér þar Konúngs-stjórn, en framselja Carli *XII.* Péturs Czars

Sendiboda vid pólska Konúngs-hofid, Hershöfdíngjann Packúl, hvern Carl fyrst lét færa sér hardbundinn ofaná fallstycki, sídan reira fast vid stólpa í fángelsinu á medan á málinu stód, og dæma loks til dauda, sem landrádamann — hann var Liflendskur ad ætt, og hafdi talad manndómslega fyrir rétti og frelsi síns Fódurlands mót Svía stjórn, sem því lýsti hann fyrrum landrádamann, en hann flúdi undan, og var þá Fulltrúi Peturs Czars ordinn vid Augústs Hof — loksins let hann nídíngslega hjólbrjóta bein hans frá nedanverdu uppeptir, med grimmustu píníngum, og leggja svo lifs á steglur, á hverjum hann, med sárustu qvolum, um sídir aumkunarlega deydi þ. 10da Okt. 1707, hvert grimdar verk um aldir klickar Carls *XII.* minníngu. Þessi héldt sídan med 45,000 manna 1708 inn í Lithauens og Ukraines lönd, hvadan hann hugdi sér ad falla midt inn í Rússland, eda fram til Moská's Höfudstadar, og steypa Pétri Czar, eins og Augústusi Konúngi í Pólalandi, frá voldum. Hann vann í fyrstu sigur í nockrum bardogum vid Rússa, en komst í mesta vistaskort, því Pétur Czar yfirféll í 3 daga 16000 Svenskra, sem áttu ad færa Carli *XII.* forða frá Liflandi, vann algjorlegann sigur á þeim, felldi og hertók 8000, og allann þeirra strídsvarnad, fallstycki og matarforda, og baud midt í orustunni, þegar hann sá menn sína hops



undan: ad skjóta þá nidur, og eins sig, ef hann eda þeir tinnu. Carl Konúngur héldt samt matarlaus áfram med lid sitt 1709 inn í Litla-Rússland, féllu þá fleiri enn 2000 manna hans á leidinni, sem kroknudu soltnir í megnum vetrarhörkum, en med hina lagdist hann um Stadinn Púltawa. Pétur Czar ædði þángad med 70,000 hermanna, og sló þá med þeim, hann 8da Júlii 1709, í svo blódugann bardaga, ad 9000 Svenskra féllu, en 14,000 urdu tekin til fánga eptir 2 klukkustundir; auk þessa hertók Menzikoff flesta þá, sem undan komust og ætludu ad verja Carl XII. á flótta hans frá þeim bardaga, og medal þeirra Carls helztu Herforíngja. Af þeim bardaga og fræga sigri leiddi alla Péturs Czars og hans Veldis komandi heillir. Carl XII. flúdi til Tyrkja, alls med 1800 manna, leitadi þar hælis, og egndi loks Tyrkja upp til strids gégn Pétri Czar, en þessi lét sér á medan annast um, eptir orustuna, ad bjóda ypp-urstu svensku strids-faungum sínum til bords med sér, drack skálir þeirra og sagdi: „Eg dreck skál Lærimeistara minna í hernadar-listum." Hann ritadi til Admiráls Apraxins í Pétursborg: „Fjandmadur vor vard fyrir Phaëtons forlögum, og nú er fullfestur grundvöllur Pétursborgar." Setti sídan August Konúng II. inn í Pólalands Konúngsstjórn aptur, og batt fast sáttmál vid hann; inntók 1710 allt Karelíu- og Líf-lands-

hélt nýa Sigurhróss innfør í Moská og fastrédi úr því, ad Péturshorg verda skyldi Rússa Drottnara adsetur. Þar risu þá og sódum upp margar dýrdlegar hallir.

Þann 6ta Martz 1711 dró hann í hernad mót Tyrkjum, og med honum Katrín Drottníng hans, hverri hann 1707 hafdi í kyrrþei giptst, en yfirlýsti þá fyrst þann sama dag opinberlega, ad hún væri sín Drottníng. Vid Prúth-fljótid komst herlid hans í feikna vandrædi og vista-skort, því honum sambundinn Fursti Wallachíis féll þar frá honum, og sveik hann um fyrirheitnar og uppástóladar vistir. Tyrkja-hersins margfaldur grúi, hér um 250,000, hafdi þar barist vid Péturs herlid, alls 40,000 manna í 3 klukkustundir, og mist 7000 sinna ad sönnu, en feck loksins öldúngis umkríngt Péturs, mót Tyrkja geysi fiölda, fámenna lid, svo þá stód Pétur Czar í álíkum háska og örvýlnun þar, sem Carl XII. fyrir 2ur árum vid Pultawa. Hann lokadi sig því, fullur örvæntíngar, inn í tjald sitt, qvöldid ádur enn slagur vid Tyrkja uppá líf og dauda standa átti ad morgni, ritadi Stjórnarrádinu í Moská: „ad hann vænti sér einúngis dauda, herteknìngar og manntjóns, bannadi því ad gegna nockurri skipun frá sér, ef hann fánginn yrdi, en dæi hann, þá ad velja þann verdugasta þeirra eptir sig til Stjórnar.“ Hversu Drottníng hans Katrín þá rédi viturt- og heppilega fram úr þeim

vandrædum, segir hennar Saga í 1ta Hefti, bls. 126. Fridur ákomst strax þann 23ja Júlii 1711, og Pétur misti alls eckert, nema Asows kastala þá í bráð. Flutti hann sídan Stjórnar-ráð sitt til Pétursborgar 1712, tédi af ad auka af mætti sjóar-makt sína á Eystra Salti, í stad Svarta-hassins, úr því Asows Kastali vid þad mistist; fór svo til hers síns í Pommern og Holsetúlandi ásamt Drottníngu sinni, en þadan til Pétursborgar, og vann Finnland 1713.

Um vorid 1714 héldt Pétur Czar opinbera snjalla Rædu af herskipi, sem þá hljóp af stockunum, hvar í þettad var: „Brædur! „hvern Ydar mun, fyri 20 árum sídan, hafa „dreymt fyrir, ad Þér, hér vid Eystra Salt „standa skyldud ad timbur-smídum med Ydar „Czari? Hvern þá hafa órad fyrir, ad Vér „byggja skyldum land, sem hardfengni Vor „og áleitni vann frá fiandmonnum, verda um„fríngdir af ótal frægum og reyndum sjóar„og her-monnum, inn- og út-lendum lista„monnum, og verdskulda Utlanda fyritaks heid„run? Umrás Vísinda og íþrótta, er ná„svipud blódsins í mannlegum líkhama. Frá „Gricklandi breiddust þær út yfir Valland, „og þadan um Nordurálfuna. Þýdska- og „Póla-land, sem, eins og Gardaríki, vóru „lengi myrkri hulin, upplýstust smámsaman, „en óvit eitt og dofinleiki forfedra vorra haml„adi ljósinu ad skína inn af vorum landamær-

„um. Nú skal þess geisla útdreifing ecki framar hindrast, ef Þér, Brædur! viljid nú efla „áform mitt, og bæta því vid hlýdni Ydar, „ad læra og reyna hvad verdt er ad nema, „sjálfir kosta kapps um ad afleggja íllt en ad- „hyllast gott. J Vísindanna miklu umrás „er þessi nú komin til Gardarikis. Ef spá „mín rætist, er hún nú alkomin sunnan ad „á leid til vor, til þess ad hverfa hédan „heim aptur til Grícklands. En — grípum þær nú og höldum þeim föstum. Hér, „hérna skulu þær byggja og gjöra Gardariki „sem sælast." Gáfu þá allir, eins þeir eldrudu Bojarar, þessari rædu Péturs Czars, gódann róm.

Til heidurs Katrínu sinni stiptadi hann 1714 þá helgu Katrínar Riddara-Ordu fyrir Qvennfólk, og er hún borin í deckraudu bandi, til minnis um nærveru og afskipti Katrínar árid 1711 í Tyrkja-slagnum vid Prúth.

Til þess ad auka Pétursborgar byggíngar og veldi, baud hann öllum geistlegum og verdslegum jardagótza Egendum innan 3gja ára ad byggja og búa þar, en hafa fyrigjört ódulum sínum ella. Árid 1715 ferdadist Pétur til Preussalands og Danmerkur og þar til Kaupmannahafnar, hvar sambönd gjördust mót Svíum 1716, og var honum þá falin á hendur yfirbodan rússiska, danska, enska og hollendska herflota mót Svía herflota í Eystra-salti, og átti Pétur Czar

ásamt ad koma undan fleiri enn 100 kaupskipa flota hmsra Þjóda, sem í Eyrarsundi lá. Var hann þá oddviti fleiri enn 80 herskipa og kom kaupfara flotanum óhult fram hjá Svia herflotanum. Samt vard alls eckert úr áformadri landgaungu á Svíarîki, sem eignad var Petri Czar, svo Dana Konúngur þôckti bryggdlyndi háns, og bad hañ halda med lid sitt brott úr Sjálandi, þó hann ætladi því þar vetrarveru, einkum þar ísîyggileg nærsta fannst beidni háns ad fá því lykla ad borgar-portunum. Pètur reiddist og tók jafnvel 1717 og 1718 ad binda þau sáttmál vid Carl *XII.*, ad þeir skyldu skipta med sér Pólalandi og Danmørku; var þad mest eignad Svenskum Stjórnarherra Baróni Görz, hvern Svíar samt mjøg hatudu, dæmdu til dauda og afhøfdudu, en leyfdu honum alls eckert forsvar 1719. Arid 1716 hafdi hann farid á fund Preussa Konúngs, þadan enn til Hollands og svo til Fránkaríkis. Skipa-smídi, siglíngar, sjáar-herbúnad, kaupverdslun og allskonar íþróttir og handverk lèt hann sér enn annt um ad kynna sér; eins konst-málverka- og náttúru-fágæta-Søfn. Í Wesels Stad vid Rín-fljótid í Þýdskalandi fæddi Katrin Drottníng honum Prins, er deydi skømmu sídar, og kom hún sídan árid 1717 til Pèturs í Amsturdam. Í Fránkaríki var honum tekid med frábærustu heidrunar merkium. Sæi hann þar nockur fyritaks hjólverka, edur konst-smídi, eda handverka

tilfæríngar, sem honum gédjadist sérlega vel ad, var honum skénkt allt þvíumlíkt ad morgni. Hann var bodinn til veitslu hjá Hertoga Antín, en þad fyrsta, sem hann þar fyrir sér sá, var kostulegasta málverk af Persónu sinni í fullri stærd, eins klæddri og hann þá var. Hann fór ad skoda Myntar- og Minnis-peninga-Stedja Konúnga, og vóru strax slegnar, svo hañ áhorfdi, allskonar Mynta- og Minnispenínga-tegundir og skénktar honum; loksins var einn Minnispeníngur sleginn og med ásettu rádi látinn velta ad fótum hans. Czarinn tók hann upp og sann sína ímind adeáanlega vel ámyntada odrumeginn med Yfirskrift: **Pétur hinn Mikli**; en hinumeginn Ásmáiun Ryktisins Gydju, med Yfirskrift: Vires acqvirit eundo, þad er: Ryktid (edur Ordstyrinn) vex eptir því, sem vídar fer, hvad vel hlýddi, segir Volter, uppá þann Fursta, sem med ferdalögum jók mjög svo verdugleika sinn.

Hann skodadi Cardínals Risseljös (*Richelieu's*) gröf og þessa franska Stjórnarherra bilætis styttu. Czarinn sýndist mjög vikna þar vid; steig uppá leidid og fadmadi bilætis ímind hans. „Mikli Stjórnarherra! — mælti hann — enn ad þú varst mér ecki samtída! eg skyldi hafa géfid þér helfing Ríkis míns til þess, ad kénna mér ad stjórna hinum hálfa hluta þess!" — Rússi, sem hlýddi á og sann sig mina hrærd-

ann of sjóninni, lét leggja sér þessi Péturs ord út á Rússisku og sagdi sídan: „Hefdi Czarinn géfid burt helftinginn, mundi honum skamma stund haldist hafa á hinum.“ Þad vordist añars midur heidra Péturs Czars hjartalag, ad votta hvílíkum grimdar hardstjóra og mannbodli, sem Risöjeljö var í Fránkaríki á dögum Lodviks *XIII.* frá 1629—1642, hvílíkann heidur, og ad girnást hann blóddreck sem Stjórnar Lærimeistara.

Pétur Czar giptist (miñtist eg á blf. 167), fyrst hann 27da Jan. 1689 Evdoxiu (edur Ottókesu) Lapúchin; en á blf. 181, ad hún lét hann nauda=illa og vard loks 1698 grunsóm ad sambondum gégn Pétri Czar vid þá ný=sefada megná uppreist, hversvegna Pétur sama ár (heldurenn 1696) skildi sig vid hana, en hún géck í Klaustur, vard Nunna, nefndist þar Helena (Elin) og deydi 1ta Nóv. 1717. Þau áttu einn Son saman 1695, sem nefndist Alexius Pétursson (Alexei Petrowitsch). Módirin fyllti Prins þenna þegar á æsku skeidi med hjátrú og óvild á Födur sínum og öllum hans merkilegu fyritækjum, rétt eptir hennar skaplyndi; ad sama unnu sávísir og hjátrúarfullir Klerkar, hverjum hann ofmjög treysti, og fell hann þarhjá til megnasta óhófs, ofdrykkju og vellystar. Hann giptist 16 vetra gamall, Prinsessu Charlottu til Brúnsvíkur, Systur Keisarainnu Carls *VI.* í Þýdskalandi, en fór þrælslega med hana, svo hún deydi af

premsir. Þegar hann vóx upp, lýsti hann sitt ma, eptir því, sem fyrir honum var haft af Móður hans og Klerkunum, bædi í tali sínu og gjördum, forakti mót Födur sínum, fyritæk. jum hans öllum og gódri mentun og sidun Þjódarinnar á útlendra vísu, allur gefinn fyrir Rússa fornum villisidum, og þarhjá laungun til ad kollvarpa Födur síns ódaudlegu manndóms vidleitni ad sida, menta og farsæla Rússa sína. Þegar hann, til dæmis: heyrdi Rússa qveina undan þúngsta vinnu vid Pétursborgar bygg-íngu, sagdi hann þeim: „Huggid ydur vid, ad Borg þessi skal ecki lengi standa.“ — Þegar hann átti ad ferdast lángferdir med Födur sínum, lézt hann veikur verda, og þá segir Volter, ad honum hafi verid inngefinn sterk búkhreinsandi (purger) medöl, vid qvilla þeim, sem hann ecki hafdi, en ad mikil medala-brúkan og mikil brennuvíns ofdryckja hafi spillt heilsufari og lunderni hans, gjört hann fráhitinn hernadi og ad nema neitt, sem þar til þurfti, hvad Fódurnum gédjadist illa, er hann og vard þess var, og óttadist ad hann mundi hug á leggja, ad kollvarpa öllu því, er hann til Gardaríkis heilla unnid hafdi; hótadi Pétur Czar honum því opt hordu, ef ecki vid áminníngar hans um ysirbót skipast vildi. Hann ritadi þanninn Syni sínum 1717: „Treystú þvi litt, ad þú ert einka Sonur minn, þvi fyrst eg ecki hlífi sjálfum mér til heilla fólks míns og Födurlands, hversu má eg þá hlífa

þér? Heldur mun eg kjósa Utlending eptir mig til Stjórnar, sé hann þess verdur, enn henni óverdugann Son. Betradu því ráð þitt, svo þú verdugur verdir ad stjórna eptir minn dag, ellegar vertu Múnkur!" Prinsinn qvadst vilja Múnkur verda. Pétur gaf honum 6 mánada frest til ad hugsa sig um, og ferdadist, sem fyrr segir, sama árid til Fránkaríkis. Í Kaupmannahøfn vard hañ á leidinni þángad þess vísari, ad Prinsinn safnadi óvildarmønnum sínum ad sér, og baud honum því ad finna sig Alexius flúdi fyrst til Svila síns Carls *VI.* Keisara, og duldist í Wien um hríd, en komst svo þadan til Napols borgar. Pétri stód íllur grunur af flótta þeim, kalladi hann til Moskás heim aptur, og hét honum gridum, ef gégndi. Prinsinn kom því þángad aptur 1718, og Pétur Czar síka til ad straffa hann, hafdi þó ecki til Moská's komid sídan 1711. Hann lét varpa honum þar í fángelsi, gjørdi hann hátídlega arflausann, en yfirlýsti ad Sonur sinn med Katrínu *I*, ad nafni Pétur Pétursson (Petrowisch), ríkja skyldi eptir sig. Sá deydi 1719. — Pétur Czar lét sídan ítarlega yfirheyra Alexius fyrir Rétti, og krefja til sagna um ósk'ir og áform hans. Hann játadi: ad Skriftafadir sinn hefdi ecki neitt fundid ad því, þó hann girntist ad fyrirkoma Fødur sínum. Sá Klerkur var því píntadur til sagna, og Prinsinn undirskrifadi loksins þá játníngu:

„ad hann frá ángdómi rússad hefdi med „Klerkum og Múnkum og sókt þeirra „fundi, en þeir innrætt hjá sér vidbjód á „skyldum sínum og á Födur sínum, og „komid sér til ad áforma ad setjast á „Veldisstólinn, med öllu ödru enn leyfi- „legu móti.“ Pétur Czar tók 8 Biskupa, fjölda Abóta og geistlegra Lærimeistara til rádanéyt- is í þessu stórmæli. Þeir qvádu: „ótakmark- ada Einvalds Stjórn Rússa vera og eng- um Dómi af þegnum hennar undirgéfna, en hann þar Einvalds Drottnara, en í Gamla og Nýa Testamentinu væri sá talinn dauda sekur, sem bölvadi Foreldri sínu“ *). Sama ályktudu 144 af Pétri Czar tilskipad- ir Dómarar þessa máls, dæmdu allir Prinsinn til ad hafa fyrirgjört lífi sínu; en Czarinn stad- festi þann Dóm, vid hvers auglýsingu — einkum vid þad atridi Dómsins, sem sagdi t „guddómleg, geistleg, veraldleg og strídslög öll segdu þann vægdarlaust dauda sekann, sem stofnar óhæfu gégn Foreldri og Landstjórnara sínum, eru alkunnug“ — sídan er mælt, ad Alexius hafi fengid slög og rykkíngar, bedid Födur sinn fyrirgéfníngar og ödlast hana, en dáid daginn eptir af hrædslu; adrir segja: ad honum hafi med eitri verid skapadur aldur; en áreidanlegust þykir flestum sú saga: ad Pétur

*) Sjá 2. Mós. b. 21, 17. 3. Mós. b. 20, 9. Ords- qv. b. 20, 20. Matth. 15, 4. Marc. 7, 10.

Czar hafi skipad Hershøfdingja Adami Adamssyni Weide ad afhøfda Prinsinn med Øxi, þann 7da Júlii 1718. Um morguninn var hann fullhraustur, en um qvöldid lík hans til sýnis framsett, lagt á líksæng, med þyckvum dúki um hálsinn; er og mælt ad tignarmey, ad nafni Cramer, hafi verid látin sauma høfudid aptur vid bolinn — og ad Pétur Czar hafi fellt tár vid banasæng og útfør hans, en látid grafa hann med heidri hjá Módur sinni í Moskás Dómkirkju. — Samt sáu menn litlu seinna limi vina og áhángenda Prinsins hjól-brotna, partada og steglda, en Skriftafødur hans, og líka Módurbródur Prinsins Greifa Lapúchin — Mág Péturs Czars — afhøfdada. Á útkomnum Minnis-peníngi birti Czarinn sídan: ad síns Veldis-stóls Hátign þanninn frelsud væri; og í einni Rædu sinni í Ríkis-rádinu lýsti hann: „ad hann hafi offrad Syni sínum til heilla síns Ríkis." Med Volter má samt segja: „ad sé nú Gardaríki sídad ordid og mentad, hafi hverttveggja ordid því dýrkeypt."

Pétur Czar héldt sídan áfram innleidslu margra hluta til betrunar alls, sem hann orkadi í Gardaríki, heldt og fram venjulegri hørku í ransókn og strøffum Embættismanna, sem undirokudu og útsugu þegna hans; efldi kaupverdslun og siglíngar; lagdi grundvøll til nýrra Laga, ad nockru leiti eptir Svenskum, og

til frama Réttvísi, eptir föstum laga-ástæd-um; lagdi hann vid dauda-straff, ad víkja frá þeim, en dæma eptir hugþótta edur sann-girnis áliti; prýddi og jók Péturs-borg og héldt þar stór Samqvæmi til lystisemda Hirdmanna og þegna sinna, dans- og grímu-leika, til ad innræta mannúdlegri og lífiegri umgengni. Lét á þeim um Nýárs-leitid árlega velja Narra-Páfa, til spotts vid þann í Rómaborg.

Strídid vid Svía héldst vid framvegis, enn þótt seinast á Carls XII. dögum fridar-samníngar milli Rússa og Svía 1718 væru birjadir og jafnvel til sambanda beggja horsd-ist, uns Carl Konúngur XII. þann 11ta Dec. 1718 fannst í gröf fyrir Fridriks-höll í Nor-vegi, hverja hann umsat, skotinn af kúlu þvert í gégnum höfudid; en Systir hans Ulrika Eleónóra, sem Ríkisstjóri Svía tilféll eptir Carl, lét Enska egna sig til nýs herbúnadar gégn Rússum, vid fyrirheit um hinna lidsinni, med fjölda herskipa, sem þeir héldu úti um Eystra-sallt, og tók því dræmt og seint birjudum fridar-samníngum á Alands Eyu einni. Pét-ur Czar rédi í, hversvegna hún drægi þau málefni, héldt því strax allri sjáar-hernadar makt sinni úti um Eystra-Sallt, bætti vid hana skjótt 200 Galeidum, landsetti herlid því nær allstadar um Svíaríki og lét þad eyda þar grimmilega og brenna öllu, sem vard; fór þessu fram aptur og aptur allt til 1721, þá Pétur Czar, eptir hertöku margra Svía her-

Fiyð, þó 23 enſk línunnar herſkip væru þeim fylgjandi, og brennu 40 Staða i Svíaveldi, féck og ſamdi i Nyſtad á Finnlandi heidurs-fullann fríð við Svía, með hverjum gjör-vallt Ingermanna- og Lifland, Karela- og Þeiri Umdæmi Svía um aldur og æfi féllu und-ir Rússa. Bóx grimð hans meſt 1721 gégn Svenſkum, þegar þeir auglýſtu þeirra 1718 á Alands Eyu birjadra ſáttmála ádur leynt innihald, að þeir ſetja ſkyldu Jacob *III.* á Stórbretalands Trón, í Georgs (Jörgins) I. ſtad, ſem honum var framar kjörinn, en ſkipta með ſér Pólalandi og Danmörku; gédjadiſt Petri því vel herför Carls *XII.* til Norvegs 1716 og 1718, og ſyrgdi hann fall hans ſeinna árið. Hann héldt mikla Fridarins fagnad-ar-hátíð þann 22ann Okt. 1721 *), veitti al-menn grið og frelſi öllum afbrota-mönnum, nema mordíngjum, ræníngjum og landrádamönn-um, og gaf upp allar ſkuldir þegna ſinna til Krónunnar, allt að árinu 1717. Allt Garda-ríki viknadi mjög við hátignarfullt edallyndi og Afreksverk ſíns volduga Drottnara. Á Fagn-

*) Á þeirri Hátíð drackſt hann á vid þann ſvenſka honum ſenda Fulltrúa Baron Cedercreutz, en — þó Pétri dável ſmackadiſt tárið jafnadarlega, hafdi hann ecki rod vid, því á Pétur ſveif mjög, en eckert á hinn, þó meira drycki. Sagdi því Pétur ſeinna: aldrei mun eg framar dreckaſt á vid hann, því eg er vart vín-qvartil mót hans vín-ámu.

adar-heitdum vegna þessa fridar, sem hann 10da Sept. 1721 fullgjørdist í Nýstad, vard gledin yfir allt Rússa-veldi geysileg, en á þeirri, sem hann 22ann Okt. s. á. haldin vard í Péturssborg, heldt Forseti Rikisrádsins í þessa Ráds, helga Rádsins og allra Rikisins Stétta nafni, í Dómkirkjunni, svoljátandi Rædu til Péturs Czars:

„Ecki einúngis Oss" — sagdi hann — „ecki Oss einum, heldur er allri veraldurkunn-ugt ordid, ad Ydar Hátign ein hefir afrekad, ad Vær erum úr fávitsku myrkri dregnir fram, á frægdarinnar opinbera sjónar-plátz; í raun og veru frá engu, til þess ad mega hédan af teljast med ødrum vid gódmentir sidudum Þjódum. Sá seinasti dýrdlegi fridur er fagur ávøxt-ur þessara tilrauna. Oss skorta ord til ad votta Vort þacklæti, enda þóknast Vør løsgjørd ecki Vorum Einvalds-Drottni. En — svo ad Vær verdum ecki metnir foraktanlegir, beidumst Vær í alls Gardaríkis og allra þess þeann nafni, ad, til merkis um Vora þacklát-semi fyrir svo stórkostlega velgjørníngu, verdi Oss hédan af leyst ad heidra Ydar Hátign med Titlum, sem Ydur eru svo sambodnir:"

Allt Rikis- og helga-Rádid reis þá upp og hrópadi þrisvar hástøfum: „Lifi Pétur hinn Mikli, Keisari yfir øllum Rússum! Lifi sá Fødurlandsins

O

Fadir!" — Sídan endurtók allur Þíng-heimur og vidstaddur manna-grúi sama fagn-adar ákcróp, undir hátídlegum básúnu-hljóm-um, Hljódfæra margra saungum og Fall-styckjanna skruggum.

Pétur Keisari þackadi hástofum áhyggju og vidqvæmni þegna sinna, og lyktadi hann-inn rædu sína: „Gud hefir þetta veitt! hon-um þockum vér verdugast þá heill, er hann gaf oss, ef vér færum oss hana med rádvendni í nyt! Frid hofum vér ødlast, en — til þess ad njóta hans, verdum vér framvegis ad lifa vopnadir, og ecki hnígja aptur til dofinnleika og qveifarskapar, svo ad forlog Grícklands veldis falli ecki yfir Gardaríki. Stofnud, gód fyritæki ber oss sameginlega ad frama til þeirra fullkomnunar, svo ad ósk mín rætist: ad þegn-um mínum megi jafnan vel vegna!"

Sendibodar Fránkaríkis, Austur-ríkis, Pólalands, Danmerkur og Hollands óskudu Pétri Mikla til luccku sama daginn, og nefndu hann Keisara, og smámsaman vidurkenndu oll Nordurálfunnar Ríki hans Keisara Tign, sem sídan hefir fylgt hans Eptirkomendum nú fram yfir 100-ára old.

Þann 5ta Febr. 1722 logleiddi hann: ad Gardaríkis Keisari kalla mætti æfinlega hvørn til Stjórnar eptir sig, sem hann vildi, og sídan brenta þeirri rádstofun med hann útnefnda, finndi hann hennann sídarmeir þar til óhæfann. Alla þegna sína lét hann sverja ad halda þau

Løg undir bannfæringar og dauda sekt; en — árid 1797 aftók Páll I. Kejsari þau løg, og fastsetti: ad karl-leggur Kejsara-ættarinnar ætíd skuli borinn vera til Stjórnar Garda-ríkis framar qvenn-leggi. (Páll I. vard myrdtur 11ta Martz 1801, en þá tók nú ríkjandi Kejsari Alexander I. vid Ríki eptir hann.)

Pétur Mikli baud: ad enginn Rádherra framar klæda mætti Dómara-sæti ásamt, og enginn Dómari undir eins í Stjárnar-ráds sitja. Hann aftók efstu Dómara-vøld Bojara, edur Adalsmanna, sem fengu þau vid ætt eina og stétt, og vildi ad reynd løgspeki ein gæfi rétt til Dómara-valda. Þessum fyriبaud hann, undir lífs sekt, allar Auka-tekjur og Mútur øllum háum og lágum. Hann fullgjørdi 1722 Løgbók fyrir Rússa, til hverrar hann valdi, hvad hann fann þeim best henta í dønskum, svenskum, þýdskum, engelskum og frønskum Løgum, og lét varda lífstjóni ad víkja frá henni edur ad dæma eptir hugþótta, eda Dómara egin meiníngum og sanngirnis áliti, og lét þad bodord standa uppslegid og birt vid alla Dómstóla; en — hans frægu Dóttur, Kejsarainnu Elizabeth, geymdi Forsjónin þann heidur, ad umbæta stórum þá Løgbók og milda hennar stroff, af hverjum hún aftók øll dauda-strøff, en lét þeirra seka þrælka æfilángt í Siberiu málma-grifjum, hvad lengi



mun, með ödru, heidra hennar Stjórnar mildi. Pétur gaf út ásamt Reglugjörd um Metorda röd, bædi fyrir karla og konur, og lét varda fjár-sektum, væri henni ecki allstadar fylgt í Samqvæmum og annarsstadar; ljet hvern Dáta, sem yrdi Yfirmadur vid herinn, verda adalborinn, en hvern Bojara, sem logselldist, missa Adals-tign.

Eg nefndi á bls. 184, ad Pétur Czar hefdi 1719 aftekid hreint Patriarchans Tignar-embætti frá árinu 1700, en tilskipad geistlegt Ráð í stadinn, sem nefndist helga Rádid edur Samqvæmid, sem stýra átti — beint ad bodi hans — kirkjunnar málefnum. Arid 1722 komst samt þess algjörleg nidurskipan fyrst í stand; Keisarinn nefndi 14 Biskupa og Abóta, sem í því Rádi vera skyldu; sóru allir Keisaranum hlýdni og undirgéfni — hvad Patriarchar aldrei gjördu, en þeirra upphefd (Rána) vard jöfn Rádsherra. Ur því veitti Keisarinn öll geistleg Braud, en Rádid lét virgja þá, er þau hrepptu, og allopt var hann sjálfur þessa Ráds Forseti.

Fyrir hans daga kunnu fáir í Gardariki, nema Múnkar og nockrir Geistlegir ad skrifa (sjá bls. 183 um Menzikoff), en þar hans nýu sidar og adrar breytingar, landi og lýdum þó til mestu heilla, gédjudust þessum hjátrúarfullu og fávísu nauda illa (samanb. bls. 179), misbrúkudu þeir opt ritgjördir til lasts og háds um hann; t. d.: dæáust þeir ad, hversu

mett Pétri tekist hefdi ad breyta Sólar-gánginum, er hann baud árid 1700: ad Ár hvert birja skyldi þann 1ta Janúarii (sjá bls. 185), og lét þá halda mikla Aldamóta Júbilhátid, þar sem þó efalaust væri, ad Gud hefdi i Septembri heiminn skapad. Pétur fyrirbaud því 1703 öllum Múnkum blek og penna, nema hverr Abóti leyfdi þeim, og ábyrgdist allt hvad þeir ritudu, eins og sjálfur gjört hefdi, en héldt Múnkum í Klaustrum til starfsemi. Því gaf hann út þá um aldir nafnfrægu Reglugjörd fyrir Klaustrin, þann 31ta Januar. 1724, um störf Múnka og Nunna i þeim, alla nidurskipun, inntoku í þau, stjórn og tilsjón í þeim. Katrin Drottning lét útlenda Handverksmenn kénna Nunnum handydnir og ad vinna skart fyri sig og Hoffólkid. Engum Geistlegum — nema Múnkum og Biskupum — veittust braud, án þess þeir giptu sig, en enginn giptur bóndi eda hermadur mátti Múnkur verda, nema med Kejsarans leyfi, enginn nema fullordinn vel (sjá bls. 184), og hverr Múnkur átti ad nema handverk og þjóna ad því. Sem lútandi ad þessum efnum gét eg hér þess: ad Pétri Czar vard skommu seinna lesid stykki úr bókinni: Enski Skodarinn (*the english Spectator*), í hveriu honum og Lodvik XIV. Frankariktis Konúngi var jafnad saman, en Pétur þó talinn honum fremri. „Ecki held eg mig honum fremri — mælti Pétur — en heppnari vard eg honum í því, ad bæta

mína Geistlegu til hlýdni og fridar; en hans Geistlegir undirkágudu hann." Pétur Czar mátti þettad og med øllum rétti segja, því í inngángi Laga þeirra, sem hann 1821 útgaf, um ædstu stjórn geistlegra málefna, sagdi hann: „Eg held mig saklausann af vanþóck vid pá ædstu Veru, þó eg, eptir þad eg hefi endurbætt alla Reglugjørd um hernadar og borgaraleg mál, láti mér vera umhugada andlega Stétt. Þess vegna hefi eg, ad lofflegu dæmi ellstu Konúnga, hverra gudhrædsla er nafnfræg, ad mér tekid ad leggja góda Reglugjørd fyrir geistleg málefni." Henni til framqvæmdar skipadi hann því helga Rádid, en þess Rádherrar urdu ad birja sín Embætti med svolátanda eidi, sem hann skýladi sérhverjum þeirra:

„Eg N. N. sver, ad vera trúr og hlýd„inn þjón og þegn míns náttúrlega og „sanna Einvalds-stjórnara, og Hans stór„mektugu Eptirfylgjara, sem Honum „þóknast ad útnefna, vegna þess óneitan„lega valds, er Hann þar til hefir. Eg „vidurkénni Hann, sem ædstann Dómara „þessa andlega Ráds, og sver vid alle„valdanda Gud, ad eg skil og útlegg „þennann Eid í øllum þeim krapti og „þeirri meiníngu, sem ord hans bjóda fram „þeim, er hann lesa edur heyra."

Einusinni komst helga Rádid í vandrædi med ad stínga uppá líklegasta Biskups-efni

við Keisarann, og tjáði honum, að þá væri enginn vel á öðrum enn sann-fávísum Sands-um Drottins til þess Embættis. „Hvað segir það? — ansaði Pétur Czar — veljum þá þann ráðvandasta, og má hans Vitrings sgyldi verða.“

Pétur Czar aftók og lingdi þær 3 Föstu-tíðir, sem gríska kirkjan áður kúgaði menn til og til að forðast þá allt kjöt-át. Urðu allir hans Skipa- og hermanna-Prestar fúsir og fyrstir til að veita því boðorði hlýðni; en seinasta Stjórnar-boðorð Péturs Mikla um geistleg málefni, og hið seinasta allra 1725, varð: að rífa niður fjölda af óþörfum Capellum, og að útrýma úr grískum Kirkjum öllum katólskum líkneskjum svo nefndra helgra manna.

Hversu þessar geistlegu breytingar stángu mjög af frá eldri Reglum, er í augum uppi þeim, sem minnast, að Rússlands Patriarchar lengi höfðu eignað sér — öllum Patriarchum Grískra annarstaðar framar — vald og rétt til að deila Stjórnar-völdum með Czörunum, og hrifsa til sín rétt páfalega yfirdrottnun, eptir það gríska trúin árið 987 varð í Rússlandi viðtekin, og þess Stórfursti Vladimir hinn Mikli, lét skírast. Frá 1600 vildu Patriarchar Rússa ráða jafnt og í sumu yfir Czörunum, og ecki leyfa þeim stríð eða frið að

áforma, nema hinir sambycktu. Í tíd Alex-anders var Födur Péturs Keisara, rjeduzt Patriarckinn Nikon í ad bannfæra nockra Stjórnarherra, og hösdu Patriarchar fengid í venju leidt, ad Czarinn einusinni á ári gengi berhöfdadur fyrir hesti Patriarchans og teymdi undir honum, hvad Pétri mun ecki gédjast hafa, né heldur ad Patriarchar, þó þeir vígdu Czar-ana med somu kirkju-sidum, sem í Miklagardi, tækju sér sama Trón-sæti, sem Einvaldsherr-ann, og sýndu sig þar med vera Jafningja þessa. (Sjá bls. 184). Yfir hesud ad segja hatadi Pétur Mikli páfalega yfirdrottnun og kathólskann átrúnad marganu. Því lét hann sér annt um ad eyda hverjutveggja í sínu ríki, en veita hverugu neinn vidgáng þar, svo ad páfaleg yfirdrottnan, sem Páfinn og sú kathólska Kirkja vildi eigna sér rétt til um mörg veraldar lönd, til allra ógæfu ecki und-irokadi sitt veldi, sem mörg önnur. Péturs Mikla forsjón fyrirbygdi og allar þaradlútandi tilraunir; því — árid 1817, þegar hann ferd-adist um Fránkaríki, hugdust Sorbonner Há-skóla í París geistlegu Lærifedur, ad ávinna sér mikla æru, med því ad fá sameinadar bád-ar Kirkjurnar, nefnilega: þá grísku, og þá látínsku- edur rómversk-kathólsku, sem ad sonnu hösdu bádar sama uppruna frá Austur-álfunni og Gricklandi sídan, en eptir þad Róma-veldi skiptist í tvo aust- og vest-læg Keisaradæmi, hösdu mjög svo frábrugdna trú-

ar-lærdóma*); opt var ad sönnu reynt til ad koma bádum saman, og undir páfalegt yfirrád, seinast 1438, en ætíd forgéfins. Nú ætludu

*) Ad Péturs Mikla bodi 1721 útgaf helga Rádid 1722 á prent Rússanna grisku kirkju Trúar-lærdóma, frá hverjum engum þykir þar óhult ad víkja, né nockrum leyft neinu í þeim ad breyta, heldur álítast þeir allir édggjandi og naudsynlegir til sáluhjálpar. Í þeim stendur: ad heilagur Andi framgángi af Födurnum einum. Sakramentin séu, sem hjá Kathólskum, 7; vid Skírnina er samt öllum, bædi börnum og fullordnum, pöldúngis sockt þrisvar á kaf í vatnid, og strax ofaná er Smurningar olíunni til stadfestingar árjódrad. Vid Qvöldmáltíd brúkast því braud brotid nidur í vatni blandad helgad vín, og er svo hverjum med skeid útdeilt hverttveggja saman, eins börnum. Allir geistlegir (nema þeir efstu og Klaustra-menn) skyldast til ad gipta sig einusinni, en ecki optar; hinir undanskildu mega þad aldrei. Geistlegir Eckjumenn missa braud og verda ad gánga í Klaustur. Leikmenn mega aldrei giptast í 4da sinni, en skilnad hjónabands fá þeir audveldlega. Sjúkir og deyjandi fá þá seinustu Smurníngu til heilsubótar og helgunar. Griska Kirkjan trúir engann hreinsunar-eld til vera, enga útvalningu fyrirfram; enga stod gódverka; eckert aflát synda hér veitt gyldt, og hverki Páfa né nockurn vera Krists Stjórnar-fulltrúa á Jördu; lídur í kirkjunni engin úthöggvin, steypt eda útskorin bilæti helgra manna, sem þá ákallast heitt, en helga dóma, grafir og einkum krossmörk heidrar griska trúin og miklar föstur. Um Predikanir er lítid vid opinbera



Kathólsku, lærdir i París 1717 ad vinna Pétur Czar til sama, og afhendtu honum því tælandi Frumvarp ritad þar um, med bón um samþycki hans. Pétur ansadi þeim med kurteisi, ad hann mundi bera þad mál undir sína Geistlegu i Gardariki, hvêrjum hinir því á-samt rituðu um sama, en svo fjærri fór þad Keisarans ósk, ad veita þeim uppáslætti nockurt álit, ad hann þvertámót óttadist strax, ad þeir svikrádu Jesúltar, sem alkunnir eru af óforsjáni áhyggju og ódádum, til frama Páfans lárdómum, og sem i sama tilgángi ad fá bádar kirkjurnar sameinadar árid 1629, hefdu orsakad tveggja Miklagards grískra Patriarch á kyrkingu ad badi Sóldáns, mundu e.in einhverjar óhæfur i sama tilgángi fremja, rak því alla Jesúíta ódara burt 1718 úr Rússa-veldi; lét Biskupa sína svara Parísar Geistlegum skjætíngi, en sjálfur rédi hann af, ad hefna kátlega á Páfanum med opinberu hádi og forakti undangenginna bannfæringa hans á hér um 20 Keisurum, 10 fronskum Konúngum, og fjølda miklum annara Einvalds-stjórnara.

Hentugt tækifæri til þessa fann Pétur Mikli, þegar afgamall Hof-narri hans, ad nafni Jótof eda Sótof, sem þó kénnt hafdi Pétri ad skrifa, þóktist fyrir þad unnid hafa

---

þjónustugjørd, en hún mest i messum, þátídasaungum og lestrum, hjátrúarfullum Ceremoníum, bænum og trúarjátníngum falin.

til stór-frama og - launa. Pétur ędad þad satt, og sig honum velta vilja tign og vald, ędsku jafnvel í heimi. Lét adra Hofnarra rétt eins og væru þeir Cardínálar, velja hann til Narra-Páfa strax um Nýttár 1718, á Rómeborgar venjulegann hátt (sjá bls. 207), lagdi honum árlega til uppeldis 2000 Rúblur, og vísadi til bústadar í Péturoborg i askima Tatara-úllþýdi þar afmorkudum. Narrana lét Pétur vígja Narra-páfann med hátídlega kátlegum sidum; fjóra, sem magnlega stømudu, halda sídan rædur til hans. Narra-Páfinn skóp sér Cardínála, og var oddviti þeirra vid opinberar fylgdir daudra beina og svonefndra helgra dóma — allt þetta Narra-Ráð augafullt af brennuvíni. — Loksins lét Pétur þennann Narra-Páfa 1724 gipta sig, þá 84ra ára gamlann, kérlingu á vidlíkum aldri, héldt veitsluna hátídlega og var vidstaddur. Hann lét 4 ramlega stamandi bjóda fjølda manna í brúdkaupid; pruma karla leida brúdhjónin til vagnsins og úr honum; 4 þá feitustu þýngsla-skrocka, sem fundust, vera hlaupara fyrir vagni þeirra; hljódfæra-óvetu einhverja skrakja í vagninum, en Bjarndýr draga hann; tjet svo á leidinni picka birnina utan med broddstøfum, svo ad þeir skyldu oskra undir bassa, sambodinn hljódfærunum og Narra-Páfanum. Blindann og heyrnarlausann Prest lét hann vígja brúdhjónin, og setja stór gleraugu uppá nef hans. Brúdhjóna-fylgdin, hjónabandid, veitslan, bús

ingur brúdhjónanna í hversdags nærfet ein. Ceremoniurnar ad láta þau hætta, allt vard þá Narra-Páfanum sambodid. Var Narra-Páfa-valid sídan þrisvar ítrekad í Moskó og Pétursborg, hvar med Pétur nádi tilgángi sínum, ad gjöra Páfann og alla Stjórn hans opinberlega foraktanleg í augum þegna sinna, en þá honum og katólsku kirkjunni fráhverfa. Þó samt margt af katólskri hjátrú og Ceremonium lodi vid grísku trúna, er hun engu sídur sú drottnandi í Gardariki, hverja Stjórnendur hennar og ætt þeirra játa verda, en samt lagadi Pétur Mikli og aftók þad hégómlegasta af Messum, Föstum og hjátrúar-Ceremonium hennar, og leyfdi öllum kristilegum trúarbrögdum ödrum opinbera og frjálsa Gudsdýrkun, sem enn vidheldst. Gydingar lídast þar ecki, en Mahómetisk og ýmisleg ókristin önnur í þess vídáttusama veldi allvída.

Eins mikinn hug lagdi hann á ad audmýkja þá voldugu Bojara edur Eddalmenn, sem drottnudu tyrannalega yfir undirgéfnum, útsugu þá og beittu allopt mikilli grimd gégn þeim, rétt sem skynlausum þrælkunar dýrum, héldu fast vid þau vold og áttu mestann þátt í stjórn Ríkisins, til hverrar þeir toldu sig borna, en stjórnudu framar ad egin vild enn lögum. Þeir takmörkudu fyrrmeir mjög svo Czaranna vald og stjórn, og rédu opt fyrir aldri þeirra, med þeim hætti, sem þeir jafnadarlega tóku í upphlaupum, hver þeir — ásamt Klerkunum —

skiptudu og fundu Strelizara-lidid jafnan fúst til hrydju-verka. Einkum unnu þeir fornum grófsidum Rússa, en hømudust útaf Peturs Mikla mørgu ný-breytíngum til sidferdis-betrunar Rússa og frama þeirra veldis. Þeir lifdu í mikilli dýrd og ysirlæti á Austurlanda hátt, og í ljómandi prakt vid útsognar eigur undirgéfinna og landseta sinna, medan þessir áttu eckert ad kalla til af búshlutum eptir, og fáir slík í rúmból, en urdu ad liggja órystnir heima á fjala-skákum. Likt margra Austur- og Sudur-landa, til dæmis: Tyrkja-veldis og Barbariis innbúum, vóru Rússar fyrir Péturs Mikla daga, óupplýst, fávís, hjátrúarfull, grimmhjørtud og plump þjód í framferdi, hneigd til upphlaupa og nidíngsverka, en nidursockin í megna ofdryckju, med þar af leidandi løstum, ásamt ómennsku, ydjuleysi og ragmennsku. Í Moskás Stad einum fundust þá hér um 4000 brennuvíns-solu- og dryckju-búdir. Almúgi og Yfirmenn rotnudu sjaldan úr roti. Armódur og eymd fylltu borgir og landsbygdir, hverra afleiding og úrrædi urdu rán, upphlaup, mord og þjófnadur, grimm nidíngsverk og vaxandi álögur Yfirmanna, til vidhalds þeirra metnadar. Vid Czaranna Hof og þess tignar- og valda-manna hallir drottnadi ysirlæti Austurlanda, øllum Konúnga-hofum á Nordurløndum framar: Sendibodi Enskra, Jarl *Carlisle*, sagdist ecki hafa sjed í skrúda Czarsins og hirdmanna hans, fyrir gulli og ljómandi gimsteins,

um. Pétur Mikli lèit á þetta voladi Þegna sinna; hans mikla sál fastrjedi ad ráda hér á bót, lètta Þeirra hörmúngum, innleida betri og mannúdlegri sidi, meiri hössemi og sparnad og vernda undirgéfinna mikla grúa, mót særri Yfirbodara undirokun, og venja þessa sjálfa á hös og sidabót, líkt aňara upplýstari og sidadri Þjóda, en gjöra veldi sitt óhult mót útlendra nábúa árásum, sem þángad til eyddu og skiptu því med sér, rétt sem hersángi, frá rogum Rússum, er lítid sem eckert kunnu til hernadar, né dugdu í orustum, hverju dæmid frá bardaganum vid Narwa árid 1700 (sjá bls. 190) best lýsti, og sem eckert herskip þá áttu edur þecktu, til ad verja med land sitt. Allt þetta vantanda reyndi Pétur Mikli til ad útvega Ríki sínu — en Boyarar, hjá hverjum voldin mest ádur vóru, og sem mest fengu á almúgans fordóma verkad, lögdu honum allt illa í þock, eins og sávísra vandi er, og gjördu gis ad allri nýbreytni hans. Pétri vard því tamt ad velja sér kátleg medöl til ad frama áform sitt, en gjöra hinum opinberann kinnrods.

Hann gipti, til dæmis, annan Hof-Narra sinn um há-vetur í Rússlands grimmu vetrar-hörkum og héldt veitsluna í Moskó, lèt bjóda til hennar öllum Boyurum, Frúm þeirra og Dætrum, en fyrirbaud nockrum þar ad birtast nema í gamaldags búníngi, eins og vidgéckst á 16du öld. Gömul hjátrú bannadi Rússum ad kveikja upp eld á brúdkaups-degi, hversu grimdar-

at kalldt, sem var. Lét hann náqvæmlega fylgja eins í því öllum forn-sidum. Fyrrum druckú Rússar eckert vín, heldur mjød og brennuvín, því var þá ecki heldur annad leyst ad smacka: Máltídin var á 16du aldar mód. Bodsfólk, einkum Boyaranna, qvartadi sárann yfir þeim brúdkaups sidum, en Pétur ansadi med kímni: „Forfedur Ydar høfdu þetta svona, en hvad er betra þeirra fornu sidum?" Snelptust Boyarar stórum vid þad, héldu heim aptur med nøtrandi tennur af kulda, og gèdjadist lítt ad veitslunni.

Pétur Keisari, sjálfur fyrir engu yfirlæti og lmunadi gèfinn, valdi samt og fyrirskipadi Stór-hátída høld sérleg, til ad milda med sidi þegna sinna, hressa þá upp og gledja á sómasamlegann hátt, innræta þeim virdíngu og vidqvæmni fyrir mannúdlegri sidum og umgengni, fyrir merkis tilfellum, dygd, dád, hetjulegu hardfengi og frægd í orustum, og þar med hverja mód og dugnad þeirra í hernadi. Med því, sem ádur er sagt bls. 174—75, og 191, bædi til sjós og lands ad þjóna sig fram vid hernad, frá lægstu til ædstu stiga, vildi hann med egin dæmi sínu, minna Bojara og adra Tignarmenn á undirgèfnis skyldu sína og audmýkt vid þeirra Yfirbodara, en þá hann héldt Sigurhróss innfarir í Høfudstadina Moskó og Péturborg, lét hann ædri Herforingja ætíd gánga fyrir sér, og bera fyrir þeim Vísi-Czari, hann til Stjórnar sètt hafdi í fjærveru sinni



vitni um breytni sína undir þeim í herþjónustunni, og leida sig fram fyrir hann til reikningsskapar. Þá fyrstu Sigurhróss hátíd og innför í Asows Kastala og Stad, héldt hann 1696, eptir inntöku hans (sjá bls. 179), adra í Moská 1704, eptir sigurinn vid Narwa (sjá bls. 194), þridju í Moská 1710, eptir þann mikla sigur á Svenskum vid Púltawa 1709 (sjá bls. 196—7), en þetta ár hafdi hann þó haldid svenskum fanngnum Herstjórum þá veitslu, sem segir frá bls. 196. Þó sendi hann litlu seinna þessa fánga flesta til þrældóms burt til Siberíu, vegna þess ad Carls Konúngs XII. óstjórnlega dramb og þverlyndi vildi ecki þýdast tilbod hans, ad þeir skyldu víxla faungum hvers um sig sín á milli, hvers Carls XII. drambs vegna allir Svía fángar þanninn urdu frelsi sviptir. Fjórdu Sigurhróss dýrdlega innför héldt hann í Pétursborg haustid 1714, eptr miklar sigurvinníngar yfir Svenskum. Hér skal eg nú lýsa gjörr þeirri Innför til dæmis, svo ad ófródari Landar minir um þesskonar hátídir beri framar skyn á háttsemi Sigurvegara vid þær, og líka nefna til, yfir hverju heizt þá var sigri ad hrósa, hvad eg nefnt hefdi á bls. 198 vid árid 1714, hefdi eg ecki, med ásettu, geymt þad þessarar Hátídar frásögu:

Carl Svía Konúngur XII. misti, eins og segir á bls. 196, því nær allann sinn her í bardaganum vid Púltawa 1709, flúdi med ein 1800 manns til Tyrkja, og héldt þá til í Ben-

ders Stad og Kastala í Bessarabíu. Þó hann legdi þar alla alúd fram til ad egna Tyrkja til stríds mót Pétri Czar, og til stríds kjæmi 1711 (sjá blf. 197), vard þetta ölly framar vegna sigursældar Péturs 1710 (sjá blf. 196), eñ vegna tillagna Carls XII. Fridarsamníngum hins vid Stór-Vizír og ædsta Stjórnara og Herforíngja Soldáns, ad nafni Baltagi-Mehemet, lagdi Carl XII. samt allann hug á ad spilla, vóru þó bádir þeir, Carl og Baltagi svo drambsamir, ad hvorugur vildi ad fyrra bragdi fara á fund hins þar um, svo Carl XII. sendi helztu Fulltrúa sína til þeirra útréttínga í herbúdir Baltagis's (þýdir ord þad Brenni-höggvara, hvad Mehemet þessi og ádur var í höll Soldáns). Sama mátti Katrínar I. rád á Prúth-fljótsins bockum þá meira til frelsis Pétri Czar (eins og segir í hennar Sögu blf. 126, og hér ad framan á blf. 197—98), þegar hann — eins og hann seinna yfirlýsti 1724, í Reglugjörd um Katrínar krýníngu — stód þar med einar 22 þúsundir manna, umkríngdur af 270 þúsundum Tyrkja vígbúnum (hvar eptir tala beggja herlids á blf. 197 má, ad Volters sögn, lagast), heldur enn stríds tillögur Carls XII, svo fridur ákomst 23ja Júlii 1711. Gleymdi þessi þá, vid hans fregn hamódur, bædi drambi og ástandi sínu, sem flóttamanns á Tyrkja vald; vód sjálf-

P



ur í brædi til herbúda Baltagis's, húdskamm-
adi þennann út fyrir þad hann hefdi ecki tekid
Pétur Czar og allt herlid hans til fánga, og
sparkadi sporum sínum svo í dýrdlegann silki-
slopp Tyrkja-Herforíngjans Baltagi's, ad
sloppurinn rifnadi. Baltagi létst ecki taka ept-
ir því, en spurdi meinlega: „hverr hefdi þá
átt ad stjórna Veldi Péturs Czars?“ og
sat hóglyndur vid sinn keip, þó honum gefid
væri þar í stad ad drepa Carl XII. eda fánga,
fyrir svo djarfar árásir hans. Carl XII. vard
því ad snauta burt vid svo komid, og gremjast
yfir: ad 1709 lagdi Bakara-drengur (þá
ordinn Prins) Menzikoff lid hans vid Púl-
tawa því nær gjörvallt ad velli, en 1711 vid
Prúth-fljótid stackadi Brenni-höggvari (þá
ordinn Stór-Vizír Soldáns) leikinn hans
og Péturs Czars á milli. En — eckert mót-
kæti vyrdtist samt ad fá Carls XII. dæmalausa
dramb læckad; ecki hans mikli ósigur 1709 vid
Púltawa; ecki hans órvæntíngarfulla ástand,
líkt sem fánga, medal Tyrkja, hvad hann og
reinna vard þar; ecki ófarir hans í Póla-
landi eptirskildu litlu herleifa, sem flúdu til
Pommerns 1710, hvadan sambundinn her
hans óvina, nefnil.: Péturs Czars, Preussa,
Saxlands, Danmerkur og fl., bannadi þeim
for til Carls XII., en Svía Stjórn, sem fann
naudsyn til, ad þetta litla lid héldi þar kyrru
fyrir, til þess ad verja þessa eign Svíaríkis,
samþyckti ad þad lid annarsstadar vera skyldi

uffkiptalaust af strídinu, og fann eptir lángt strid og geysilegt mannfall vid Púltawa 1709,, en tjón 30,000 manna í Stockhólmi, og grúa mesta á landsbygdum 1710 af drepsótt, er uppkom í Péturs Czars her vid Ríga Stad, og drap þar 9000 af herlidi hans, en fluttist strax til Svíaríkis, ad þetta Ríki var þegar gjörtæmt ordid af gagns lidi; frétti heldur eckert af Konúngi sínum, hvert hann enn á lífi væri, fánginn edur ecki. Carl XII. frétti samt þessi Sáttmál og rádstöfun Svía Stjórnar, vard reidur úr hófi og ritadi henni frá Bender: „ad hann mundi senda verda Svíum annad Stígvéla finna til ad stjórna þeim." Ecki feck allt fyrrtalid — segi eg — læckad dramb Carls XII. og ecki fridur Tyrkja, vid Prúth saminn 1711, vid Pétur Czar, því tvisvar seinna féck hann enn æst Soldán upp til strids vid Pétur, en loks samdist, ad Pétur drægi her sinn burt úr Pólalandi, og ad Soldán ecki lidi Carli XII. lengri veru í sínu veldi. Þegar Carl samt ecki vildi med gódu víkja frá Bender, sendi Soldán margar þúsundir hermanna þángad, til ad reka hann burt, en Carl XII. vardi sig, þann 1ta Febr. 1713, med sínum fáu hermönnum, á medan hann gat, og hopadi ecki undan, fyrr enn hús hans þar stód í báli, og hann siálfur vard tekinn til fánga, en vard loks laus og komst til Stralsunds í Svía Pommern í dularklæd-

um þann 11ta Nóv. 1714; hafdi þá Pétur Czar sama Sumarid unnid fræga sigra vid Finnland, inntekid þad mestallt ad Vasa Stad vid Austurbotn, og sjálfur — þá sem Contra-Admíráll — hertekid Alands-Eyu, og med 200 Smá-galeidum ógnad Svía strandabygdum, hertekid Admíral-skip Svía, med Admíráli Erenschjold á, en eydilagt mestallann þeirra herflota; hitt, sem undan komst til Svíaríkis, gjordi alla þar lafhrædda, eins í sjálfri Stockhólms Borg.

Eptir svo frægann unninn sigur á Svíum, minntist Pétur Mikli fornrar audmýkíngar Rússa sinna árid 1700 vid Narwa Stad, þá svartur kafalds-bylur í fáng Rússa bannadi þeim ad sjá tölu Svía, er þá övorum yfirfellu þá med einum 10 fallstyckjum, mót Rússa 145, svo þeisir strax flýdu, edur gáfu sig. Urdu þeisir þá ad varpa frá sér vopnum, falla á kné fyrir Svíum og gánga sídan berhöfdadir í röd framhjá Carli *XII.*, vid hvad þeisi sídan vard svo lengi med dramb og ofstraust uppbláfinn. Pétur Czar héldt því í Pétursborg sér eins dýrdlega sem Svenska audvyrdandi Sigurhrófs innför um haustid 1714, og undir eins tvöfalda hátid, vegna þá nýfæddrar Dóttur sinnar, og vegna stiptunar St. Katrínar Riddara Ordu (sjá bls. 199), Drotníngu sinni til æru. Hófst þá Sigur-förin med innsiglíngu 9 svenskra hertekinna Galeida og 7 minni í Cronslots höfn vid Pétursborg; þar eptir

kom Admírals Ehrenskjolds hertékna stóra stríðsskip; vóru þau öll full með svenska fánga. Svo kom Admírals-skip Rússa, prýdt öllum frá Svíum teknum stríðs-fánum, merkjum og flöggum, og hlaðið með þessara teknu vopn og fallstycki. Allt liðið og fángarnir urðu landsett, og gengu svo Rússa Admírálar og aðrir Foríngjar undir básúnu-hljómum, hljóðfæra lífleg-ustu saungum, fallstyckja-skotum þess á milli og sigurhrópum ótölulegs manngræða, eptir upphefðar þeirra röð, inn um dýrdlegt Ærа-Port, sem Pétur Czar hafði látið byggja fyrir utan Pétursborgar Staðar-Port, eptir egin handar-afmálun og forsögn sinni, með í-mindum sigurvinninga hans. Fyrstur allra géck Admírall Rússa Apraxín, svo Pétur Czar, sem Undir (Contra) Admírall, á eptir honum sá fángni Admírall Svía Ehrenskjold, svo aðrir Rússa Foríngjar með alla svensku Fángana á eptir sér, og seinast Rússa hermenn og Matrósa. Vóru allir þessir sýndir þar þeim tilskipaða Vísi Czari Rússa (í fjærveru Péturs) Rómadonoffski, sem við þessi hátíðar-hold lét sig þar sjá, sem Forstjéra Ríkisins. Hann útbýtti öllum Yfirmönnum hersins Gull-minnispeningum, en öllum Dátum og Matrósum silfri. Svo var fylgdinni haldið fram að Hástóli Ríkisins, á hverjum Vísi-Kon-úngurinn aptur lét sig sjá. Leiddi þá Admíralinn Apraxín fram fyrir hinn Undir-Admíral Pétur Czar, tjáði frægðarverk hans og



mæltist til ad hann fyrir þau ordi Vísi-Admirall. Ríkisrádid tók ad ysirvega þad mál og féllu öll atqvædi á þá leid, svo Vísi-Czarinn á Veldisstólinum fagnadi honum þanninn: Velkominn sé Vísi-Admirall Pétur Czar! Þad var, segir Volter, í lok þessara hátídarhalda, sem fylltu alla frábærri kjæti, kappgirni og ást til Födurlands og frægdar (en þá ecki vorid ádur vid annad tækifæri, sem Resident Webers frásaga þó hermir, eins og á bls. 198 er eptir honum haft), ad Pétur Czar snéri sér ad samankomnum grúa manna, svo sem þá fyrst aptur til stjórnar tekinn, og héldt þá snotra Rædu, sem þar sjest prentud.

Þessi var Péturs Mikla seinasta Sigurhróss-innför út af strídsheillum hans, því hátídin mikla, sem eg á bls. 208 umgat ad haldin var 22ann Okt. 1721 í Pétursborg, en ítrekud í Moská þann 28da Jan. 1722, var eginlega Fridarins Fagnadar-hátíd, þó öllum hinum dýrdlegra Sigurhróss, vegna Upphefdar hans á henni til Keisara-tignar, Vidurnefnanna: Mikli og Födurlandsins Fadir! (sjá bls. 209—10).

Adrar Merkis-hátídir, sem Pétur hinn Mikli tilskipadi, vóru helzt þessar:

Júbilhátíd árid 1700, vegna Aldamótaña.

Eptir frelsun hans og hers hans vid Prúth 1711 fyrir Katrínar Rád, héldt hann heimkominn til Pétursborgar þann 19da Febr. 1712 dýrdlega hátíd til lýsingar þar, og min-

ingar hjónabands síns með henni; og þá hann fann heilsu sinni hnigna, gaf hañ út, árið 1724, Reglugjörð og Auglýsingu um Krýningu hennar, vegna sér veittrar nákilvægustu aðstoðar og frelsunar við Prúth, hvar í hann opinberlega ysirlýsti megnasta háska sínum og alls hers síns, og lét síðan, þann 18da Maji sama ár, hátíðlega kóróna hana, með frábærustu dýrð og ysirlæti, í nærveru þeirra, sem annars vóru nánast honum til Stjórnar eptir hann arfgengir. Hann skóp nýa hersylkingu, sem hañ nefndi Riddara-lið Keisarainnunnar, varð sjálfur Höfuðsmaður hennar, og gekk á hennar Krýningar-dag sjálfur fórgángandi á undan Keisarainnunni með þá sylkingu til Dómkirkjunnar, í hverri hann — undir Krýningar Ceremoníunum — sjálfur setti Kórónuna á höfuð henni, eins og hann sjálfum sér við Krýningu sína gjörði, og þar með vyrðtist opinberlega að vilja undirbúa fólk til hennar ætlaðrar Ríkisstjórnar eptir sinn Dag, þó hann þá ekkert þar um opinberlega áqvarðaði. Katrín Drottníng vildi þar í stað opinberlega faðma kné hans, en Pétur leið henni það ecki, og þegar úr Dómkirkjunni var gengið, lét hañ bera á undan henni Ríkisstjórnar-Merkin, nefnilega: Gull-veldis-sprotann og Ríkis-eplið. Um haustið gipti hann eldri Dóttur sína Aunnu Pétursdóttur (Petrowna) Hertoga Holsetulands, en — hafði lítið ysirlæti við brúðkaupið, þá orðinn mæddur og mjög lasinn.



Sérleg hendíng hafdi 12 árum áður uppkýst og sannad tignarlegt Ætterni Katrínar Drottníngar, sem henni sjálfri var ádur óljóst: Var svo til, ad Sendibodi Augústs II Pólalands Konúngs, er ferdadist um Cúrland, heyrdi til manns, sem á vertshúsi þar var illa útleikinn, og sagdi: „ad ecki mundi svo med sig „farid ad ósekju, kiæmist hann fyrir Czarinn, „vid hvers Hof hann ega konni meir málsmetandi menn ad, en margir hygdu:" Sendibodinn lét bréf um þetta berast til hirdar Péturs, sem, þegar hann feck qvis um þad og ad Sendibodinn í brèfinu qvadst h: fá fundid sérlega svipliklngu þessa manns vid Keisarainnuna, lét heimuglega leita þenna mann uppi og færa Hirdstjóra sínum Shepleff, sem daginn eptir komu hins þángad, baud Pètri Czar til middags-veitslu hjá sér. Var þá adkomu-madur sá, sem var Dáti í her Péturs, leiddur fram fyrir Czarinn og ítarlega yfirheyrdur. Hann qvadst heita Karl Scavronsky og vera Sonur Edalmanns í Lithauen, sem dáid hefdi frá sér og Systur sinni, bádum í veggu. Hafi þeim sídan verid klakid upp úr því, sinu í hverri sundrúnginni vid fátækt; um Systur sína viti hann ecki hót, nema ad hún hafi ordid Menzikoffs fángi 1704, þá Marienborg var inntekinn, og kunni þad hafa ordid henni til gæfu. Pétur fann öllum svorum hans bera vel saman vid þad, sem Katrín Drottníng hafdi honum sagt af fyrstu óheillum æfi hennar, sá gloggt

Karls Scavronsky's megná svipliking vid hana, en lét hann eckert af sér merkja. Daginn eptir baud hann Katrínu sinni ad borda med sér hjá Hirdstjóranum. Lét Pétur þá í máltídar-lok kalla á Karl, og hann koma fyrir í sömu ferda-fötunum, sem hann kom í, yfir-heyrdi hann þar á ný í áheyrn Katrínar, en sagdi sídan vid hana: „Þarna sjerdu nú Bródur þinn!" en vid Karl: „Hana nú, Karl! kysstu á hönd Drottníngar mistar — og fadmadu svo Systur þína!" Mælt er ad Katrín hafi þá fallid í ómeginn, en Pétur sagt þegar hún raknadi vid: „Allt er þetta rétt edlilegt! þessi Edalmadur er Mágur minn; sé hann til nockurs nýtur, gjöri eg eitthvad úr honum, en ella eckert." Lisdi Karl sídan um hríd med Hirdstjóranum vid áhtlega uppheldis peninga, en sídan er mælt, ad hann hafi Jarl ordid og mægst vid Tignar-fólk.

Til þess ad gjora sidi Rússa sinna mann-údlegri, héldt Pétur Mikli opt minniháttar veitslu- og gledi-samqvæmi, og eptir seinasta Fridinn 1721 í Nystad, sérlega Hátíd í minníngu skopunar síns herflota, qveikti sjálfur í holl sinni í Moskó, til merkis um, ad hann vildi hverki hann né Eptirkomendur sínir sæta framar í þeirri Borg, hvar svo margsinnis stofnud vóru sjorrád gégn honum og ill sam-bond. Skommu fyrir krýníngu Katrínar um vorid 1724 nefnil.: 1723, hafdi hañ farid

ásamt henni í hernad vid Persa, sem fyrir nockru eydt hofdu og rænt Rússa stofnada verdslunar-bygd í Stadnum Schamaki vid Caspía haf. Hann inntók strax Stadinn og Kastalann Derbent, svo ad segja orustulaust, Stadinn Bakú og Umdæmi hans, hvar uppsprettur nafnfrægustu eru af þeirri ságætu Berg-olíu (Naphta), sem er einhverr hinn dýrmætasti várningur í öllum Austurlondum, og gésur Landsherranum gepsi inntekt; — í stuttu máli: þá allt var í uppnámi í Persalandi, en uppreistar-madurinn Mahmoud tekid hafdi Persa Konúng (Schach eda Sophi) Hussein til fánga, lagt undir sig mikinn hluta veldis hans, gáfu sig fyrrnefnd umdæmi og 3 önur, sem ádur útgjordu þess nafnfræga Cyrusar Konúngs í Media Konúngs-ríki, undir Péturs Mikla Stjórn og veldi 1723. Þanninn endadi hann Vinníngar sínar, líkt og hann birjad hafdi 1689, án sverdslags ad ákoma fridi og sætt vid Chinas volduga Keisara, um beggja Velda Landamerki, og verdslunar-samníngum vid ríki hans, en gjort veldi sitt vídfrægt, margfaldt og óhult í öllum áttum.

Eg gét samt ecki svo yfirgéfid Péturs Mikla merkilegu Hernadar-sögu heldtu tilfelli, ad eg ecki renni fljótlega, nú ad loktum, auga yfir þeirra framrás, afdrif og þann augljósa þátt Forsjónin tók í leidslu þeirra til hennar vísa takmarks. Rússar vóru, sem ádur er sagt, fyrir hans daga grimm og óstýrilát, rog og sás-

vís og dáðlítil Þjóð, og herfáng allra nálægra villi- og siðaðra Þjóða, Tatara, Cosakka, Tyrkja, Pólalands, Svía og Preussa. Forsjónarinnar tími var kominn, til að upplýsa og umminda Gardaríkis inbúa, gjora þá að voldugri og siðaðri Þjóð, efla landa-rækt, íþróttir, handverk, kaupverðslun í þessu víðáttusama veldi jarðarinnar; hún lét Pétur hinn Mikla fæðast, og þó hans uppeldi af ásettu ráði Sophíu Systur hans, og hans mentan öldúngis vanrækt væri, en honum stofnuð háskalegustu fjorráð bæði í úngdæmi og síðan hvað eptir annað, verndaði Forsjónin hann þásamlega og leiddi gegnum allan þann háska, gaf honum sálar dug og hug til að menta sig sjálfur í útlöndum, sem honum var synjað um heima, til að kénna síðan allri sinni fávísu og hjátrúarfullu Þjóð, og setjast á veldisstól hennar til að fræða, siða, efla og farsæla hana. Hann ferðaðist um flest Norðurálfunnar lönd, til þess í þeim að læra, hversu hann best mátti styrkna Ríki sínu heima. Annað höfuð-atriðið var, að efla þess styrk og veldi, og gjora það óhult mót ofundsjúkra og grimmra nábúa áráfum — en — allt skorti til þess: herlið, stríðs-verkfæri og hernaðar æfíngar og mentun, öll skip, alla sjáarvorn, alla siglíngu Rússa til nauðsynja útvega, til sölu og ágóða þeirra landsnytja og handyðna og þessara sjálfra þeckíngu; allt fylgi, frelsi undirgéfinna, og alla blómgunar-von; ofdryckja, óhóf, upphlaup, morð og rán, óstjórn og ragmennska í stríðum fylgdu



ust ad. Dæmi þeirra ódygnadar mót þeim hugracka Unglíngi Carli *XII.*, þá Pétur Mikli rók vid herstjórn, í bardaganum vid Narwa, árid 1700, sjá hér bls. 190, og eins bls. 173 fyrstu miklu ófarir Rússa 1695 vid Asóws fyrri umsátur. En tjónid, árid 1700, vid Narwa af Rússa 145 fallstyckjum (mót 10 Svía) bætti Pétur Czar fljótt med 100 stórra og 143 minni Kopar-fallstyckja = steypu úr Moskás ô-þarfa kluckna fjölda, og lærdi sídan sjálfur, eins og Volter segir, af Carli *XII.* og kéndi lidi sínu, ad sigra Carl *XII.* og adra Gardaríkis óvini, en bætti heilum Konúngsríkjum af veldi þeirra vid sitt; skóp dýrdlegustu maktarborgir, og mikinn her- og kaupskipa-flota í hasti, hvar alls enginn var fyrir, festi öll lönd sín sídan óvinnandi vígjum, og feck því óstýrilátasta Strelizara lidi eydt og dreist, og med því varid Ríki sitt sídan fyrir öllum borgaralegum strídum, åkomid reglu og ró, kénnt Geistlegum og voldugum, uppivødslu-mönnum og undirokurum almúga, hlýdni og undirgéfni, hyggindi, réttindi og sidsemi í framferdi án manngreinar álits. Varla tjást dæmi þess, ad upphefd þeirra, edur velunnan hans hafi sleppt nockrum áhjærdum óhegndum, þó hann fáeinum sinnum ívægdi nockurra straffi.

En — útfall Nordurlandanna sambanda í Péturs Mikla 20 ára strídi, er samt merkilegast: Carl *XII.* kémur óvægur aptur 1714 úr, fángelsi Tyrkja til Pommern. Bragdarefs-

arnir, Barún Görtz, Holsetulands Rádherra, leggur lag sitt vid Spánar efsta Stjórnarherra Cardínálann Alberóni; þeir gánga reflega, en leynt á milli allra med rádabrugg, til ad snúa ollu upp og nidur í Nordurálfunni. Görtz fer ad sætta þá Pétur Mikla og Carl XII. til þess ad hverr veiti ödrum samfylgi, til ad skipta med sér Pólalandi, hvar Augúst Kon-úng II. átti ad affetja, en Stanislaus á veld-isstólinn; Danmörku eins, og áttu bádir, eptir unninn Norveg (í vodinni) af Carli XII., ad falla med geysi her inn í Skotland, halda þad-an til Englands og affetja Georg (Jörgin) Konúng I., á medan Alberóni bædi í Fránka-ríki og Englandi med ærnum peníngum und-irbyggi upphlaup, svo England enga adstod fengi frá hinu; á medan Jakob III. tæki Kon-úngasstjórn í Englandi, en Spánar Konúng-ur Philippus V., kjæmi med mikinn herflota mót Englandi og í úngdæmi Lodviks XV., settist ásamt á Fránkríkis Veldisstól, en Pétur fengi lönd Georgs í Þýdskalandi, og Meklen-borg fyrir Cúrland til Hertogans, sem snúdi átti af Pólalandi, en Svíar Bremen og Ver-den, sem hann þó nykeypt hafdi af Dana Kon-úngi. Til ónýtis kostadi samt Stadurinn Bre-men í árslokin 1716 uppá dýrdlegt og kunnst-ugt Skoteldaverk, Péturs Czar til æru, lík-lega í Herra-skipta von, er hann þá ferdadist þar um og batt rádin vid Görtz og Alberóni, og lét Stadurinn þá birtast í því Elda-verki

ítrekudum sinnum á 100 stødum í einu, þessi brennandi ord: „Vor Frelsari kémur ad vitja vor." En øll þeisi rád urdu ad — vindi: Bréf um þau féllu í hendur Englands vina; Svía Sendibodi þar og Barón Görz, ædsta Rád Carls *XII.* ordinn, urdu ásamt Alberóni teknir til fánga; þessi rækur úr Spán, Görz afhøfdadur í Svíaríki, hatadur mjøg, einkum fyrir myntun kopars þar, í hverjum 1 skildíngs vyrdi gylda skyldi 96 ßa. Hann 11ta Dec. 1718 flaug lítil kúla fyrir Fridrikshøll í Norvegi gégnum gagnaugu Carls Konúngs *XII*, en Enskir unnu frægan sigur á Spánar herflota. Af øllum þessum bandamønnum komst Pétur Czar einn klaklaust af; allt stód vid sama, sem ádur, nema hvad England, med fylgis fyrirheiti vid Svía, æsti þá upp mót Pétri til hefndar, en hann einn, yfirgéfinn af øllum bandamønnum, héldt úr því sjálfdt fram strídinu gégn þeim, med grimd og heift, sem ádur er fráfagt, brenndi á strendum Svía fleiri enn 15,000 hús, eyddi þar mørgum kopar- og ødrum verkum, tók fjølda herskipa og brenndi seinast (sjá bls. 208) 40 Stadi þar upp, gaf alls eckert vopnahlé á medan um Fridinn var samid, hverr loksins ákomst 10da Sept. 1721 í Nýstad.

Þessi brennu-grimd Péturs Mikla, jafnvel undir sjálfum fridar-samníngunum, finnur vart adra afsøkun enn þá: ad hann med henni hafi viljad flýta fram hans ályktun, sem

mest veikja Svía, svo ad honum sem ardsam-
astann og varanlegann frid undirgengjust. Hann
þókti annars Hardstjóri mikill um sína tíd,
hvad um aldir hafdi lodad ádur vid Garda-
ríkis Drottnara, enda hafdi hann vid grimmt,
baldid, upphlaupasamt og grófsidad fólk þar ad
sýsla, hverju vart mun annad hentad hafa enn
hardstjórn. Hann fann þad vel sjálfur og sagdi
opt: „ Veit eg ad útlendar þjódir kalla og
„ halda mig Hardstjóra, en, nú sem stendur,
„ hentar Rússum mínum ecki annad, en þeg-
„ ar þeir sídast framar, þurfa þeir minnt
„ hørku vid." Til þess ad eyda gamalli rag-
mennsku Rússa, en innblása þeim hetjumódi,
lét hann sjølda hermanna hrækja framaní alla
þá, sem í bardøgum undan runnu ádur enn þeir
skotnir urdu, baud ad skjóta hvern, sem horfadi
og eins sig, ef hann svo gjordi. Harka hans
féck álas, þegar hann lét drepa Kammerherra
Drottníngar sinnar Møns, og baud ad fleng-
ja Systur hans, sem var Hoffrú Katrínar,
11 Knúts-høggum — fyrir Mútu-tekt þeirra,
sem alla átti ad løgum ad varda lífsstraffi —
(sjá Nótu í 1ta Hefti bls. 125). Fyrirbón Kat-
rínar ávann eckert fyrir hann, en Hoffrúarinn-
ar straffi ívægdi hann 6 høggum, sem hann þó
baud í vindinn ad slá, til votts um hvad verd-
skuldad væri, en vildi ómøgulega láta Stór-
menni ødrum framar óhegnda. Degi sídar enn
Møns var hálshøggvinn, keyrdi Pétur þar hjá
med Drottníngu sína, hvar lík hans var á stegle



ur sèr, og bendti henni þángad; hún leit und-an, andvarpadi og sagdi med högværd: „raun „er ad vita, hvörsu menn leidast í freistni.“ Fyrir undirokun almúga og útsjúgur eigna þeirra vard Pétur þeim gramastur. Lét marga þeirra afhöfda, þó vildustu menn hans væru, en einn þeirra, Rikis-Cancellera sinn, nádadi hann fyrst á aftöku-pallinum, med æfilaungum þrældómi í Síberíu. Med þessum straffum allra, eins Stórmenna; vildi hann fæla þessa frá undirokun, en vernda almúgann, sem hann lét sèr annast um. Hvörju hann agadi Furst-ann Menzikoff sínir bls. 187—88. — Hans straff hans á Streligzara upphlaups-mönnum, sem umgétur á bls. 165—66 og 181, þókt hardt, mega þeir dæma um, sem vit á bera, hvört marg-ítrekud fjör- og land-rád mót sín-um Landsherra, af hvílíku óstjórnlegu herlidi, hafi hent vægar ad straffa til eptirdæmis, svo ad honum og ríkinu yrdi óhult fyrir líkum upp-hlaupum, ellegar skyldt verid framar ad þyrma hvílíkum ódádamönnum, sem nýframid höfdu ótta-legustu nídíngsverk á Náfrændum Péturs Czars og mörgum saklausum. Svo þessi ódádaverk þeckist gjörr, skal eg hèr fáein tilnefna, af þeim mörgu á bls. 164 tilbendtu, sem þetta lid framdi, eptir innblæstri Sophíu Prinsessu, Syst-ur Péturs, sem lagdi allann hug á ad fyrir-koma Pétri og allri Ætt hans, en fá stjórnad sjálf í hans stad, eda rádid öllu í nafni Jwans (Jóns) eldra Bródur þeirra, sem var hálf-blind-





ur, Kamadi, þjádist af flogum og ryckingum, og var því óduglegur til alls. Sophia hét þessu lidi, strax eptir greftrun Þórdar Alasonar, gjöfum og launa vidbót, ef þeir útrýmdu allri Módur-ætt Péturs Czars, þá 10 vetra gamals, einkum þeim æur Nariskinum, Módurbrædrum hans; uppdiktadi ad annar, ad nafni Jón, setstur væri á Konúngs-stólinn og hafi ætlad sér ad kyrkja Prins Iwan (Jón) og bætti vid, ad hollendskur Læknir, Daniel Vangad, drepid hefdi Czarinn Þórd bródur sinn med eitri. Fékk þeim sídan lista yfir 40 Stórherra Ríkisins, sem hún taldi fjandmenn þeis og þurfa ad drepast *) Strax vard Prinsunum Dolgorucki og Matthíasi (Massen) fleygt út um gluggana, en fyrir nedan þá tóku Strelitzarar vid þeim á spjóta-oddum, færdu þá út öllu og drógu svo fram á stór-torgid, vódu sídan inn í Slotid, fundu þar annann Módurbródur Péturs Czars, sem hét Athanasius Nariskin, og stúngu hann í gégn, brutu upp hurdir nálægrar kirkju, hvert 3 af þeim, er drepa átti, eptir Sophiu Lista, flúid höfdu, drógu þá burt frá altarinu, afklæddu og stúngu svo ígégn med mord-kutum. Þeir sáu úngann

Q

*) Násvipud hennar dæmi vóru ádur breytni Christjáns Konungs II., í Stockhólmi og Danmörku árin 1520—23.



Edalmann koma út úr Soltikoffs húsi, hvört þeir þó elskudu; nockrir þeirra héldu þad vera Jón Nariskin, ad hverjum þeir leitudu, og drápu hann strax í stad, en sáu ódara, ad þetta var sonur Edalmanns Soltikoffs, færdu því þessum lík sonarins til ad jarda þad. Fadirinn vogadi ecki ad qveina yfir Sonar mordinu, heldur gaf þeim peninga til, fyrir þad þeir færdu honum líkid alblódugt. Kona hans og dætur og eckja þess myrdta flódu í tárum, en brixludu Soltikoff um þenna bræ-sklecka. „Bídid — sagdi Oldúngurinn — hefndartímans!“ Einhverjir Strélizarar heyrdu þad, snéru hamodir aptur inn í húsid, drógu karlsuglinn á hárinu fram í dyrnar og drápu hann þar. Adrir Strelizarar leitudu allsstadar ad hollendska Læknirnum Vangad; þeir fundu Son hans og spurdu: hvar Fadir hans væri? Sonurinn skalf og qvadst ecki vita þad, en þeir drápu hann strax. Þeir hittu annann Læknir þýdskann; „þú ert Læknir — sögdu þeir — hafir þú ecki gefid Fédri Czari eitrid, hefir þú víst drepid adra med því móti, og átt ad deya!“ og drápu hann þar í stad. Loksins hittu þeir hollendska Læknirinn í betlara dular-klædum, og drógu hann fram fyrir höllina. Prinsessurnar unnu mjög þessu valmenni, til hvers þær báru besta traust, beiddu Strelizara grida fyrir hann, sögdu hann vera þann allrabesta Læknir, og prýdilega stundad og farid hafa med Féd Czar, en

Strelizárar sögdu: ad bædi, sem Læknir og sen Galdramadur væri hann dræpur, því hjá hönum hafi þeir fundid þurkada Engisprettu og Nadru-höfdi; og krøfdu þar hjá, ad þær framseldu þeim Jón Nariskin, hinn Péturs Mikla Módurbródur, ad hverjum þeir höfdu forgéfins leitad í 2 daga, og qvádu hann efalaust dyljast í höllinni, því ella skyldu þeir strax í henni qveikja. Eptir þessa og Prinsessurnar urdu dauphrædddar, fóru þangad, sem Jón Nariskin var falinn; Patríarchinn skriptadi honum og gaf honum, sem sálar-nesti, þá síðustu Smurningu, þreif sídan Maríu afmálun, sem þókti kraptaverka-rík, leiddi vid hönd sér þenna únga mann til Strelizara, og bar fyrir auglit þeirra Maríu lmind. Prinsessurnar flódu í tárum (og Sophía med), umkríngdu Jón Nariskin, féllu fram á kné sín fyrir Dátunum, og særdu þá um, í nafni þeirrar helgu Jómfrúr, ad þyrma lífi Módurbródur þeirra, en Strelizarar hrifu hann úr höndum þeirra, drógu ofan fyrir stigann ásamt Læknirnum Vangad, héldu þar yfir bádum nockurskonar Rétt og dæmdu þá til ad smá-brytjast nidur. Þetta framqvæmdu þeir strax og settu sídan höfud, hendur og fætur þeirra uppá járngrindaa brodda vid Slotid. Á medan nockrir í augsýn Prinsessunna svöludu þanninn heipt sinni, drápu hinir nidur hrönnum alla, sem þeir hugdu Sophíu Prinsessu



grunsama og þó miklu fleiri, og úthrópudu sídan Sophíu, sem medstjórnandi þeim Pétri og Jóni (Jwani). Hún samþyckti allt hvad þeir höfdu í frammi haft, gaf þeim drjúg verdlaun fyrir slátrid, og þessum mordíngjum eigur þeirra drepnu; leyfdi þeim ad reisa upp Minnis-varda, og á hann grafa nöfn þeirra drepnu, sem Landráda-manna, og fékk þeim loks opinbert packlætis skjal í hendur, fyrir hollustu þeirra og fylgi. Samt mun sambönd-um Módurfrænda hennar fullt svo mikid, sem henni einni, þetta grimma upphlaup eignandi.

Ad Pétur Czar 1698 minntist þessara ódæda grimmilega, þegar Strelizarar (sjá bls. 181-198) í fjærveru hans, gjördu ný sambönd honum á móti, og upphlaup til ad setja hann af, en Sophíu Systur hans á Veldis-stólinn, hefi eg nefnt á bls. 181, en ad hann sjálfur med egin hendi vard nockurra bödull, og lét nockra ædstu menn og Fursta Ríkisins verda þad med sér, vottadi hardlyndi hans. Á ferdinni heim, til undirokunar og straffunar þeirra, fann hann, sem ádur er sagt, August II. Pólglands Konúng, sem var kémpa og hraustmenni mikid, sá hann sjálfann í einu höggi snída med sverdi sínu hausinn af stóru pólsku nauti, og fékk hann til ad láta sér sverdid eptir, til ad reyna þad á Strelizurum; enda tókst honum dável med því ad afhöfda 5 þeirra, en Fursta Menzikoff þó enn betur 20. Fursti Gallizin, óvanur þeim stórf-

um, skalf og hjó opt skackt. *Le Fort* og framandi Sendibodi, hverjum Pétur baud vid sama ad reyna sig, afstúngu þad. Píntíngar miklar lét hann á hinum framsara og 2 konur qvikfetja. Sjálfur lagdi hann Knúts hogg á Prins Menzikoff, og 1 á Hoffrú Katrínar Drottníngar (sjá bls. 239), og ætladi henni þó fleiri, hefdi hún ecki þá strax ljúflega vitnad um grunnd ástar hót milli Katrínar Drottníngar og Kammerherra hennar Möns, um hver Pétur Czar hafdi bendíngu fengid af helzta vildar-Herforíngja sínum, og komst kjænlega ad, er hann um nótt hitti þau ein í Lystihúsi aldingarda sinna, þá allir hugdu hann á ferdum fjarlægann. Vard hann þá brádur og bardi Drottníngu, en sat á sér og lagdi eckert til Möns, og atyrdti hann eckert, en hugsadi honum þegjandi þörf, féck litlu seinna sannfært hann um mútutekt til frama tillagna vid Katrinu Drottníngu, sem vardadi dauda-sekt ad lögum, enda lét hann þad nægja honum til sakfellis, en duldi alla hins óvyrtu efnis fyrir tign sína, því hafdi hann nýlega auglýst vægtanlega krýningu Katrínar; en þó þessi hafi orsökin verid, hvers vegna hann, þegar hún forgéfins bad fyrir Möns grida, leiddi hana til dýrmætasta Spegils hallar sinnar, mölvadi hann í þyckju, og gaf henni þar med þá bendíngu, sem umgétur í nótu á bls. 125 (1ta Hefris) hér ad framan, tók hann samt, vid hennar skarpvitra og hógværa svar — enn þ.tt þá

máské sekrar — þeim innigróinnar ástar tilhneigíngum til hennar, ad hann alleyndi þá í bráð breiskleika hennar, en tók hana aptur í sátt, framhéldt krýníngu hennar, en — vard henni samt úr því kaldari.

Hann nú vyrdist Péturs Czars mikla sál hmist verid hafa hrifin af sjúkdóms-köstum, honum ættgengum, til grimdar, eptir einrádum hardstjóra rétti Gardarîkis Drottnara, sem á stundum leiddi hann til brædi og grimmra píntínga sekra og óvildarmanna, og sælulegs straffs med þeirra hjólbroti eda dómum til afskurdar stundum túngu og stundum nefia og eyrna, ádur enn þeir væru útlægir gjordir til Siberiu, ellegar af náttúru vidqvæmni til stillíngar, rádsvinnu, góðvildarsama mannkjærleika og vinóttu trúfesti. Þessa vottadi hann Vini sínum *Le Fort*, hvers jardarfor hann 1698 gjordi rétt furstalega, og fylgdi honum med tárum til grafar; eins Augústó Pólakands Kóngi, hverri hann aldrei brá; líka Menzikoff Fursta, hvern hann aldrei til dauda dæmdi, þó margur fyrir minna mætti lúta, en — sem Hardstjóri, er þó vildi undirskanir asmá og frama roksamlega stjórn í sínu Ríki án manngreinar-álits, agadi hann hardt afbrot hans, med opinberu sparki og barsmíd og Knúts-straffi og þúngbærustu fjársektum, og þad med óraska anlegri stjórnsemdar alvörugéfni (sjá bls. 187—88, 249). Á medan hann 1722—23 var í herför í Persalandi (bls. 234), reis í Ríkin

ráðinu megn deila upp milli Menzikoffs og Visi-Cancellerara Schaffirows; hver brigsladi þar ödrum um stór-glæpi. Pétur Czar heimkominn dæmdi hvern fyrir sig strax í 1000 Rúbla sektir, fyrir gleymda virdíngu þeirra fyrir Rádinu, hverju hann í fráveru sinni falid hefdi Stjórnarinnar hárign á hendur. Schaffirow var sídan dæmdur til ad hafa fyrirgjört æru, lífi og gótzi, en Katrín Drottníng bad honum grida og fór hann útlægur til Síberíu-lands. Fyrirbón hennar fékk þá ecki, sem ætíd ella, áunnid Menzikoff fyrirgéfníngu; Pétur lagdi sjálfur á hann Knúts-straff, setti hann frá Lénsherra stjórn í Eystlandi og Ingermanlandi og gjördi honum 200,000 Rúbla fjársektir. Litlu seinna fann Pétur Czar Menzikoffs höll svo fátæklega búna, sem aums borgaramanns og lét í ljósi furdun sína yfir því. Menzikoff qvadst ordid hafa alla hennar dýrgripi og alla búshluti ad selja í bætur nar. Pétur Czar þeckti betur efna-ástand hans, reiddist og mælti: „finni eg ecki höll þína vid „næsta mann-fund hérna svo útbúna, sem „tign þinni sómir, skaltu tvöföldum fjár„sektum sæta." — Pétur vard óstillandi jafnan, er hann komst ad undirokun almúga af Embættismanna sérplægni. Svo viddqvæmur hann var um hins vernd og rétt, svo uppvægur vard hann vid þessara rángsleitni. Árid 1724 urdu 18 efstu Embættismenn-sannfærdir um Mútu-tekt og Embætta forsómun; 9 þeirra

sætta Knúts-straffi, missu nef og eyru og vóru síðan dæmdir til Galeidu þrældóms; hinir 9 vægar straffaðir. — En — Furstinn Gagarín í Síberíu, hinn mannkjærlegasti og besti Landstjórnari, stórgjöfull Landshöfdíngi og af öllum undirgéfnum elskadur, féll í grunsemd Péturs Czars um, ad hinn vildi verda sjálfstjórnandi Drottnari Síberíu; vard kalladur til Moská's, þar á hann nockrumsinnum lagt grimmilegast Knúts-straff, en hann játadi alls eckert á sig, því hann var saklaus haldinn, en samt hengdur í gálga fyrir framan Réttvísinnar Ráds Samkomu sali, eigur hans gjördar uppnæmar, en Sonur hans vard slettur Matrós.

En — hafi Pétur Czar vottad hardstjórn sína í mörgu, ad Forfedra sinna sid, sýndi han sig einbeittann Stjórnara og Fullhuga jafnan, sem jafnframt lét sér annast um ad frama almennt gagn, sidun, framför og heill Ríkis síns og þegna sinna, þó han miskunarlaust straffadi þá, eins háa, sem lága, sem vildu hinna hneckja edur kollvarpa hans manndóms- og heillavænlegu fyrirtækjum, og vogadi óhikad og óskélfdur til þess ró og lífi sínu. Þanninn skaut Fulltrúi hans, þann 2ann Febr. 1697, ad honum, í veitslu hjá *Le Fort*, ad þad qvöld væri rádgjört ad qveikja í nockrum húsum í Moská's Stad, en — þar menn vissu venju Péturs vera vid eldsvoda sjálfur ad koma til adstodar þángad, væri af bandamönnum rádgjört þá

ad myrda hann um qvøldid. Pétur hvarf burt eina stund, kom svo aptur og sagdist hafa fengid rof vid ad hafa ordid ad fara sjálfur med 2ur hermønnum, og taka einn Herforingja, einn Kammerherra og einn af Ríkisrádinu til fánga. Vóru þeir sídan lagsóktir og dæmdir, hverr til ad þeim afhøggvin yrdu hendur og fætur og þareptir høfudin. Þarámót lá honum þúngt á hjarta rétt fødurleg umhyggja fyrir gódmenta og sidabótar útbreidslu um Ríki sitt, og vernd þegna sinna mót undirokun. Því stiptadi hann 1724 í Febrúarió þann sídan svo nafnfræga Péturs borgar Háskóla og Réttvísi-Rád til ransóknar Embættismanna breytni og hrossunar þeirra fyrir afbrot. Umbætti, jók og stiptadi fjølda Skóla um allt Ríkid, dyrmæt Munadarleysíngja-hús, Spitala, Póst- og beibergjara-hús allstadar, mylnur, vopna-smidjur, margskonar handydnar og Vef-smidjur; lét málma-grefti birja og þeim kappsamlega framhalda; rennur grafa til siglínga og stór-flutnínga á skipum úr Ladoga stórvøtnum, og renu, sem med Wolga-fljótsins hjálp sameina átti Eystra Salts og Caspía-høf, og í Gardariki innfæra grúa Saudfjár til eblíngar þess klæda-smída og annara handverka. Á breytíngu klædnadar Rússa hefi eg minnst á bls. 183—84 og á Skeggrakara þeirra og skegg-skatt Péturs Czars. Bændur vildu ad sonnu heldur sjá — sem ádur segir — vídast hvar af skegginu enn skild-

ſingunum, en geymdu þó vandlega ſitt lánga ſkégg, og fyrirlögdu ad því ſtúngid yrdi í líkkistur ſínar, ſvo þeir ecki ſkegglauſir birtuſt St. Nikuláſi, Rúſſa Verndar-godi, eptir daudann. Í Aſtrakan vildu Innbúar heldur hauſinn enn ſkéggid miſſa, og voktu út af því upphlaup. Pétur Mikli gat ſtiptad Péturs-borg, ſmídad ſjálfur forms-mind til eptirgjördar Crónuſlots kaſtala, ſtikad ſjálfur djúp-leid inn á höfn hans; eydt Strelizara óſvífna lidi; kénnt Geiſtlegum audmýkt og undirgéfni, og þeirra Patríarcha ad láta annann enn ſig lypta ſér á bak og teyma undir ſér á Pálma Sunnudag; unnid mörg Konúngeriki til veldis ſíns; ſkapad her- og kaupſkipa-flota; framad ſidun, mentir, heill, handverk, kaup-verslun, ſiálfra þegna ſinna*), en ecki komid öllum Rúſſum ſínum til ad raka ſig.

---

*) Merkileg vard Hátídin, ſem Pétur Czar héldt 1723 eptir Nýſtadar Fridinn (frá) 1721, í Minníngu ſköpunar herflota ſíns (ſiá blſ. 233). Hann lét þá flytja þann litla bát, ſem hann í fyrſtu eignadiſt og ſigldi á ſér til gamans á Wolga fljótinu, og ſem fyrſt gaf honum lyſt og hug á ad eignaſt Herflota, frá Moſká til Péturſborgar Kaſtala, og þar byggia yfir hann hús, honum til vardveitſlu og til æfinlegrar minníngar um, ad hann var allt hvad Gardariki vid Péturs Stjórnar birjun átti af ſkipum, en 1723 var þeſs Floti ordinn 26 Línuſkip, hverra þau ſtærſtu fluttu 110 fallſtycki, en minnſt 50; en 15 Fregátur og 160 Galeidur. Þeſſum herflota radadi Pét-

Og minntist á brennu grimd Péturs á Svía strendum á undan Nystadar-fridi (bls. 238), og ad hann med henni flytja vildi fram endalyktum lángs og mædusams strids, en sá fridinn Rússlandi sem haganlegastann. Þessari brennu-grimd hótadi hann Svíum fyrirfram, ef þeir ecki innan tveggja mánada tækju sínum fridarkostum, en — þá eckert vard úr því, og Pétur óttast mátti þar nefnt samfylgi Enskra med Svíum — þó hinna floti eptirá reyndist adgjördalaus — fann hann sér henta, sem mest ad veikja fjandmann sinn ádur, eins og stridandi þjódum er tamt. Þar (bls. 238)

---

ur þá (1723) svo nidur, ad hálf-túngl myndadi vid Crónstadt, fór sjálfur í bátinn, lét g. Admirála og Fursta Menzikoff róa honum undir sér, en stýrdi sjálfur, allt í kríngum flotann, sem allur lét flögg sín á medan síga nidur og heilsadi honum med fallstyckja skothrídum; báturinn svaradi og þackadi med 3ur smá-fallstyckjum, sem hann bar. Loks fór báturinn inn í midjann Flota-hrínginn, og var þá ur öllum skipa mösstrum hrópad: Vivat! og Hurra! edur fagnadar hróp. Þá vóru og fjölda mörg Kaupför komin í gáng hjá Rússum, en yfir 200 útlend heimsóktu til verdslunar árlega Pétursborg, hverra verdslan og handydnir ódum blómgudust med hér um 300,000 Stadar-búum, hvar enginn ádur fannst, heldur móra-fen eitt. Samt rédust Russar seint í leidángurs farir til China, ellegar um kríng Jardarhnöttinn, því fyrsta skip þeirra komst sudur fyrir Midjardar-línuna, þann 26ta Nóv. 1803.



nefndi eg nockrar þær eydileggíngar, en Sneedorff telur þær jafnvel enn meiri, nefnilega: 13 stór-stada brennu til øsku, 1361 bæa-þorpa, 141 herragarda, 2 Kopars- og 14 Járn-verka; budu þó Svíar 30,000 Dali til, ad einu þeirra yrdi hlíft; líka settu Rússar eld á Skóga um 20 mílna vídáttur, og drápu nidur fleiri enn 100,000 af fullordnum Naut-peníngi, en fluttu sjolda úngra Svía til Rúslands.

Ískyggilegust þókti samt harka Péturs í tilliti til dauda-dóms Sonar hans Alexíusar 1718 (sjá blf. 202—206), ecki af því, ad stofnad fjørráð Fødurs og Einvalds-Stjórnara fýndust verdskulda minna enn dauda-straff, eda Péturs Czars réttur væri minni mót Syni, sem Landrádamanni, ef hann stofnadi Fødurmords óheyrilegasta ódædi, heldur af því: ad Pétur heitid hafdi Ala forirgefníngu, kjæmi hann sjálfkrafa heim aptur, og Ali þarhjá hátídlega svarid aldrei ad kalla til Ríkis-stjórnar eptir hinn. En — þetta hafdi Ali og gjørt ádur enn Pétur ferdadist heimanad 1716, þó reyndist fljótt sá uñi eidur honum svo markslítill, ad Menzikoff fann sér skyldt strax ad fræda Pétur, þá í Kaupmannahøfn staddann, á, ad Ali sæist ecki nema umkríngdur mestu alkunnum Upprestarmønnum og Geistlegra íllþýdi, sem ósvífid útbreiddu íllt um Pétur allstadar, sem Fødur og Landstjórnara, til ad ebla og qveikja gremju og upphlaup, med

hótun kollvarpinar allra Péturs verka og það bráðlega, því Biskup nockurr, að nafni Dozitheus, dreifdi út til Ala, annara Ættíngja hans og Stórmenna, Draumvitrun sinni — segir Volter — eptir hverri St. Demetrius átti að hafa birt Biskupi heim í nafni Guds, „að Pétur Czar ætti þá eptir eina þrjá mánuði alls að lifa, og að Alexius, Eudoxia og María Systir Ala skyldu þá ríkja eptir hann." Þegar nú Pétur varð þessa vísari og að Eudoxía (hans fyrri apturræka Drottníng) hafdi lagt niður Nunnu-líf og búníng, og bjóst við þá og þá með Ala að taka til stjórnar, qvaddi hann Ala til sín til Kaupmannahafnar. Ali gégndi því ecki, enn strauk til Keisara Carls *VI.* og bað hann lidveitslu að koma sér til Rússa stjórnar, við Födur síns þá og þegar vændanlega dauda, og hafdi þar um heit fengið, þó Ali ádur hefdi hátíðlega við Gud og Födur sinn fráſvarið og afsalad sér alla Ríkisstjórn, sá Pétur sér því búin stjórráð lengd þá og þá, og vissi, ef Ali lifdi hann, að öll sín verk mundu ónýtt eptir hótun Ala, en honum lopt verda meinsærum á Veldis-stólinn af hans flocks bandamönnum; Rússar því falla í forna villidóm, grófsiði og óheill, Péturs-borg eydast, unnin lönd og veldi missast, en herflotinn að engu verda, og Gardaríki, sem fyrri, öllum nábúum að herfángi. Hjá Keisara Carli *VI.* ætladi Ali að bída loka þeirra 3gja mánada og



dauda Födur sins, en — þegar þessi brást, eptir vitrun Biskups Dozithei og Pétur kalladi Ala heim, leid Kejsari Carl VI hann ecki lengur í löndum sínum, svo Ali vard heim ad hverfa.

Vid ádurnefnda lögsókn og dóm Ala, lagdi Pétur Mikli öllum Dómurum eptirminnilega á hjarta — án nockurs tillits til sín — svo ad dæma hin Ala mál, eins og þeir vildu á sídarsta Dómi Gudi til reikníngs fyrir standa. Sannadur var á Ala, med fleiru, vidbjódur hans á gódmentum, óvild á Födur sínum og hatanir um kollvörpun verka hans; sífeld umgengni med upphlaupsmönnum, grimd vid Prinsessu sína, flótti úr Ríkinu og fjandskapur, er hann vekja vildi hjá Carli Kejsara VI. til Födur síns. Þeir Geistlegu, nefnilega: 8 Biskupar, 4 Abótar og 2 Lærimeistarar í Gudfrædi sögdu Gamla og Nya Testament anna Dóm vera fyrir Dauda-sök hess, er hölvar (hvad þá stofnar meiri óhæfu gegn) Foreldri sínu; þó væru og dæmi til í bádum um tekt barna til nádar, svo sem Absalons af David, og af Födur þess fortapada sónar, og lyktudu svo: „Hjarta Czarsins er í hendi Guds; velji þad þann veg, sem hönd Guds vísar því!" Allir dæmdu þeir Ala hiklaust dauda sekann. Hann 5ta Júlii 1718, og hann daudadaga Prinsins, sem blf. 206 tilnefnir, telur Büsching eptir mörgum Merkismönnum vissastann. Gardaríkis heill má og

skalaust halda verid hafa Ala fráfall, sem villi-sidads ónytjúngs og þrælmennis (sjá bls. 202), dryckjurúts og vellystíngs, sem inngéfid hafdi litur sinni nafnfrægu, bestu Konu, Prinsessu Charlottu, hverja Pétur Czar hafdi honum, til hans unimindunar og sida betrunar, rétt fødurlega valid, og unni Pétur henni mjøg; en — þá hún vrdi læknud af því med nauminndum, reyndi Ali optar til ad skapa henni aldur; loksins, þá hún átti einúngis einn mánud eptir af barns médgaungu-tíma, sparkadi hañ henni svo miskunarlaust í lífid, ad hann hljóp burt frá henni út á Landslot sitt, ad meningu hans daudri og fljótandi í sínu eigin blódi. Hún raknadi samt enn vid og fæddi lifandi Son, er skírdist Pétur og vard sídan Keisari, nefndur Pétur *II.*, en deydi únglíngur á 3ja Stjórnar-ári 1730. Módirinn vildi engin læknis-medøl framar þyggja, og aramdi sig í hel.

Samt beiddi Katrín Drottníng Ala grida, og ad hann vrdi innilokadur í Klaustur, en qvad þá grunsemi falla á sig saklausa — vrdi hann deyddur — ad þetta skédi til ad koma Syni hennar og Péturs fram til Stjórnar; en þad vannst ecki. Eg gat þess samt ádur á bls 204, ad þessi útnefndi Trónarfi þeirra, Pétur Pétursson, deydi 1719. Hans missir sørgdi Pétur Czar svo innilega, ad hann í 3 daga og 3 nætur lokadi sig inni og nærdist á alls engu; en — þá herdti Ríkisrádid upp hugann, klappadi uppá dyrnar, svo Pétur

lokfins lauk þeim upp. „Ega Rússar að veija sér annann Stjórnara?" — spurði Oddviti þess, Furstinn Dolgorucki — „allt stendur, sem komið er; allt í Ríkinu fellur strax í Stjórnleysu; sigradir fjendur taka sig þegar upp aptur; fær Þú séð allt Þitt verk sóona gjörfalla?" Við það ávarp seckjaði Pétur sorg sína og tók strax rösklega til Stjórnar á ný.

Þess er áður getið á bls. 206, að morgum áhángendum Ala heitins, varð eptir hans dauða grimmilega hegnt, einkum þeim, sem áttu þátt í Ala flotta til Kejsara Carls, og í Ala, Móður hans Evdoxiu og Systur Mariu Stjórnar rádagérð eptir Pétur. Biskup Dozitheus varð hálshöggvinn; Herforínginn Glebow teinstúnginn og deyði aumkunarlega; úr einum hirðmana túngan skorin, en nef og eyru af. Nunnur fengu Knúts-straff. Evdoxia Ex-Drottníng, Móðir Ala, hýdd af 2ur Nunnum opinberlega í Nunnu-klaustri. Maria Prinsessa lokuð inni í Schlüsselborgar kastala.

Pétur Czar féck opt þvílík grimm, en á stundum þau kátlegustu innföll — sem Gáfumonnum er tamt — en vald hans og tign og náttúrlegur styrugleiki lét hann sjaldan hika, við þeirra neinna framqvæmd, til hvers helzt, sem þau hneigðust. Eg hefi talið þar uppá ýmisleg dæmi hér að framan, en einna kátlegust á bls. 171, þá hann með Locka-parrukið dregið ofanfyrir andlit sér, rann út um Stjórnarsalinn í Haag; sjá (sjá bls. 183) Rakara við

Stadar-portin, raka-burt skégg Rússa, en Skraddara skélla nedan af sloppum þeirra, og lagdi Skatt á skéggin, og (bls. 186) tók frá Rússum í fylgd-hans viddbjód á Líka-skurdum, dróg úr þeim tennur til prófs, og svo frv.; bardi Menzikoff (bls. 187) grimmilega, en óskadi honum sidan til luckn og sat ad veitslu hjá honum á hans Afmælis-Dag; lét hann (sjá bls. 189) prí-drecka Dátans skál, er hrakid hafdi Menzikoff frá; hátidar-hald hans sum, til dæmis: ný-nefnd flotans, Narra Páfa valid og Narra-Páfans gipting bls. 219, og Hof-narrans brúdkaup (bls. 222) etc. Eg verd hér vid ad bæta enn einu kátlegu innfalli hans 1717, þá hann á heimleid frá Fránkaríki á seinustu ferd sinni kom til Stadarins Dantzig í Preussa-veldi. Sá Stadur hafdi þá sína egin Frístjórn, sem engum undirgéfinn Fristadur, hvers Stjórnar-vøld ædst vóru hjá Borgmeistara hans. Pétur kom þángad á helgidag um messu-tíma, þá hverr madur var í kirkju; hann lét fylgja sér þángad, og géck sá ríkjandi Borgmeistari þar, sem í kirkjunni frétti komu Péturs, á móti honum og baud til tignar-sætis hjá sér hátt uppi, hvadan Pétur féck litid yfir allann Søfnudinn og Søfnudurinn hann. Pétur hlýddi á Predikunina med mesta athygli, en — nockru seinna sókti kuldi nockurr á hans þunnhærda koll. Hann sá þann stjórnandi Borgmeistara bera stór-

R



eblis sidt og skátslegt Locka-parruk, brá því af kolli hans og uppá sinn, án þess ad tala eitt ord þar um, hlýddi sídan á Predikunina, og fécк Borgmeistaranum, sem setid hafdi med þeraň skallaň á medan, parrukid aptur í messu-lok, og þackadi honum þá kurteyslega lánid.

Med allri þeirri brædi, grimd og blód-girni, sem vid og vid brennimerktu Péturs hardstjórn, reyndist hann þess á milli vitur, rádsettur og vinfastur madur og vidqvæm-ur í lund. Af því mátti Katrín *I.* Drottn-íng hans segja, hverri hann unni mjög, ecki einúngis sem yndislegri, flug-gáfadri, gódglad-ri, blídri og hógværri, heldur honum sí-eptir-látri, lempinni og því gédþeckri konu, og af því sá mikli fjoldi manna, hverja hún opt, en þó ecki ætíd, med hennar mannkjærlegu tillög-um, fécк frelsad frá dauda, frá Knúts óttalegu flengíngu og ödrum hördum líkhams strossum eda fjársektum. Hennar einber sjón og rómur lét yndi, blídu og mildi gánga fyrir henni til ad milda brædi og óvild Péturs í sérhvert siñ; hann vyrdtist sem gagntekinn af hennar ástúd-lega inndæli, og af heppnustu medalgaungu milli Péturs og þegna hans, var hún af flest-um þessara innilega elskud, en kunni þó ecki — heldur enn Prins Menzikoff — ad lesa ne skrifa. Jafnvel nýnefndum breiskleika hennar (bls. 245) fécк Pétur gleymt, sjálfur mararfaldt breiskari; gleymt hennar lágu Stett, sem þó Volter — máske helzt Eliza-

beth, Drottningu, Dóttur hennar til Þócknunar, ad hverrar bón hann reit Péturs Czars Æfi — Þykist fengid hafa rök til, ad hún borin væri af Edalmanni (sjá bls. 232 — 33); adrir merkari Sagnaskrifarar full-herma, ad verid hafi laungétin Bónda-stúlku dóttir — hvert sem Fadirinn verid hefir þar-nefndrar Edalmanns stéttar edur ecki — fædd í Liflandi þann 5ta Apr. 1689. Vid Maríu-borgar inntöku af Rússum 1702, vard hún, eins og segir bls. 120, Fángi og Ambátt Rússa Herforingja Bauers, en géfin af þessum Prins Menzikoffs Frú, og af henni allstadar höfd med í ædri samqvæmi, hvar frábærar gáfur hennar, fegurd og blída, kénndu henni vel ad hegda sér allstadar, svo ad hún loks vard Péturs Keisarainna, sem fyrr segir, og krónud 1724. Þacklátsemi vid Furstann Menzikoff, hverjum hún átti allann grundvöll lucku sinnar og tignar ad þacka, baud henni ad leggja alla alúd fram vid Pétur Mikla, til ad verja Menzikoff föllum, hvad henni og tókst — þó þessi á stundum hördum ressingum og þúngum sektum sætti; því ætíd héldt Menzikoff samt Péturs Mikla sérlegri hylli og trausti. — Ad Pétur og lengst af unni henni hjartanlega og mátti ecki hennar án vera, vottar: ad hún fór med honum í allar lángferdir og hernad, vídarst hvar; líka svarid, sem hann gaf Furstanum Gallizin, eptir Stadarins Nótuborgar inn-



toku 1702. Hann var þá umsetinn af Rússum, en Gallizin gjördi áhlaup á Staðinn, við hvert mistist margt manna, svo Pétur Czar sendi honum skipun, að halda burt þaðan liði sínu. „Segðu Herra mínum", ansaði Gallizin, „að eg nú hafi falið mig vernd voldugari Herra, enn hann er!" héldt áhlaupinu fram og vann Staðinn og Kastalann. — Þegar Gallizin færði Pétri þá fregn, gladdist þessi svo, að hañ sagði: „bið þú mig um hvað helzt þú vilt," nema ecki um Moská's-Stað eða um hana Katrínu!" Gallizins bón varð: að fyrirgéfa sér, að ecki gegndi hann boði Péturs, og Furstanum Repnin, sem frá Herforíngja var læckaður orðinn fyrir einhverja yfirsjón, til sléttts Dáta, og veitti Pétur honum þá hverttveggja, og Repnini forna tign og vold.

Annað merki vinfesti Péturs Mikla og stillíngu þess á milli má telja: að þegar hañ í mesta háska og vandræðum staddur á Prúth-fljótsins bockum 1711 (sjá bls. 197), leitaði friðarsamnínga við Tyrkja, var honum settur, meðal annara, sá friðarkostur, að hann framselja skyldi Tyrkjum til hegníngar Moldaus Hospódara, Furstann Cantimir, sem veitt hafði Pétri lið mót Tyrkjum, en hann afstack það hreint og ansaði: „Fyrr skal eg afhenda Tyrkjum alla jarðarlóð mína allt að Eystra-Saltri, því hana hefi eg fulla von um að vinna aptur, en tryggrof mín

verda óbætanleg; þau sæ eg ecki framid. Vér egum alls eckert sjálfir ad eign, nema æru vora; ad afsala sér henni, er ad afsala sér Stjórninni." Hafdi Pétur þó reynt nídínaslegri breytni af Vini sínum Augústó Pólalands Konúngi 1706, er hann framseldi Carli *XII.* Fulltrúa Péturs, Patkúl, sem Carl lét hjólbrjóta (sjá bls. 194—95), og vard Pétur, flestum Stjórnendum framar, fyrir þúngri mótgjörd vid ílla medferd hans Fulltrúa. Þæmid á Patkúl var fælulegast, en Fulltrúa Péturs í Lundúnum, Mateof, létu Kaupmenn þar varpa í fángelsi fyrir skuldir 1708; Drottníng Anna bad hann samt þess fyrigéfníngar 1710, og gaf honum þá þegar, eins og Hollendíngar, Keisara-titil; en sama árid komst hann, sem fyrr segir, í stríd vid Tyrkja, og vard þá Fulltrúa hans vid Soldánar Hof í Miklagardi, eptir týrañalegri venju Tyrkja vid stríds-birjun, varpad þar í 7 Turna fángelsid.

Árid 1722 stiptadi Pétur Mikli þá svo nefndu Alexanders Newsky's Riddara-Ordu (til Heidurs-minníngar Rússa frægu Hetju og sídan helgum vardhalds-Engli holdnum, Alexandri, sem árid 1241 vann frægann sigur á Svenskum og á Þýdskum Riddurum vid Newá-fljótid, hvar nú er Pétursborg). Er Ordu-teiknid hárautt silkiband, borid yfir vinstri öxl, en Silfur-stjarna raudsteind med krossi, *t*, sem Gull-arnir sjást úthandar á, en á

midju ímind Alexanders. Med þeim sídustu Stjórnar-bodum (sjá blss. 215), sem Pétur Mikli undirskrifadi, var eitt þann 1ta Febr. 6 dögum fyrir dauda hans 1725, ad gjöra skyldi út danskann Sjóar-Officera, ad nafni Biering, til landa og siglandi sunda leitunar kríngum Siberíu, Kamschatka og til Ameríku, hvad þessum loksins tókst á sju leidángurs ferd sinni 1741, og bera Bieríngs-sund og Bieríngs-eyar, nordvestanverdt vid Nordur-Ameríku, sídan af honum nafn.

Um Sjúkdóma og vidskilnad Péturs Mikla skal nú ad lyktum, sem fæstum ordum fara: Adur er ávikid (sjá blss. 166, 171, 208, 219, 233), ad Pétur frá úngdæmi var mjög gésinn fyrir ölfaungum og lausíngja lífi, og, enn þótt honum ættgengt væri ad fá slög og ryckíngar og ósjálfrád köst, sem máské hafi átt hlut í nockrum hans hardstjórnar fyritækjum, hafi þau framar af ofdryckju hans leidt, enn af eitri, honum í úngdæmi optar, ad sögn, inngésnu. Enginn hafdi samt þvílík tök á og heppni med ad lina þau ryckínga köst, sem Katrín Drottníng I., hver þess vegna medfram vard honum vídarst samferda jafnan. Samt féck hún ecki aptrad ofdryckju hans og af þessari leidandi lausúng. Hann vann ákast, sem mesti framtaks-, gáfu- og áhyggju-madur í stjórnsemi og öllum útréttíngum, sem hesja máttu þjód hans upp frá fáfrædi, villusidum og vesæld, til sidadra manna

tignar og heilla, en — helzt á daginn — því af qvøldum offradi Pétur opt Ølfánganna og Ástanna Godum á víd og dreif, talsverdum hluta. Vid þad qvilladist hann og 1723 háska-lega af Herforíngja Czernichefs losta-sjúku Frú, hvad hañ fljótt launadi heñi med Knúts-straffi, en leyndi alla lengi þeirri bilun sinni, sem annars í tíma hefdi ordid hægalega læknud; sann samt krapta sína hrørna, ecki síst af láng-ri hugar-raun út af óførum Ala heitins Son-ar síns, og vyrdist því jafnvel árinu seinna hafa rádid af ad flýta krýníngu Katrínar sin-ar 1724, þá med áformi, ad hún taka skyldi vid Stjórn eptir sig, hvad og vitni merk sídan sønnudu, bædi Prins Menzikoff, Erki-biskup Theophane og Biskupinn af Nowo-gorod, ad Pétur vid krýningu hennar hefdi sagt vera sinn vilja. Séint á sama ári 1724, var hann á ferd skammt frá Péturs-borg, þeg-ar hann í rockrinu sá báti, med Dátum og Matrósum á, berast á vid grynnínga í hvass-vidri og kulda, lét strax flytja sig út til ad bjarga þeim, en bátur hans stód á eyrum, ád-ur enn hann ad skipbrots-mønnum komst. Stock Pétur þá sjálfur út, vód vída djúpt í kulda ad bátnum, og gêck heppilega fram med bjørgun manna, en veikur og biladur undir sann hann qvilla sinn úr því ótum spillast. Samt harkadi þessi Kappi svo af sér, ad hañ á Nýársdag 1725, lét halda venjuleg Lysti-samqvæmi í Pétursborg og þá nyhann

Narra-Páfa velja, en drack vid þau svo óhóf-lega Brennuvín, Øl og Mjød, ad á hans fyrri veikindi bættist fljótt úr því algjørleg þyngsla-sótt med offalegum kostum og þjáníngum. Katrín Drottning stundadi hann sjálf í þeirri þúngu legu, og veik, ad kalla, aldrei frá honum í sídustu 3 daga og nætur hans bana-legu. Hann þá hljódadi þá svo í kostunum, ad heyrdist um meiri hluta hallarinnar; ásakadi sjálfann sig þúnglega fyrir þad mikla blód, sem hann úthellt hefdi; fyrirgaf Menzikoff algjørlega; baud strax ad sleppa Sakamønnum úr fángelsum, hvad í Péturs-borg var undir eins gjørt; stóck upp úr rúminu og hljóp í gégnum 3 sali hallarinnar; lét þjónusta sig tvisvar og stødugt hughreysta af tilkølludum Erkibiskupi, og sagdi sig deya í fulltrausti á Krist, hvern hann þá lýsti vera sitt einka athvarf og styrk; misti aldúngis rænu í kostunum, en á millt þeirra hvarfladi hún ad aptur; lét hann þá kalla á Aunnu Dóttur sína, og ritadi eitthvad á blad, sem enginn gat lesid, en vard málláus ádur enn hún kom; hardist sídan vid øndina í fullar 15 klucku-stundir, og gaf hana loksins upp í fadmi Katrínar Drottningar, þann 8da Febr. 1725. Katrín lagdist þá nidur vid hlid hans og bad: „Drottinn! opna þína Paradís „þessari veglegu Sálu, og tak hana til „þín aptur!“

Eithe

Litlu ádur hafdi Prins Menzikoff med helztu Stórmennum, Katrínar Vinum, haft stútt tal vid hana og Stjórnar rádabrugg í næsta sali. Nú kom hann strax vid Péturs Mikla andlát, med vopnadar herfylkíngar ad Slotinu, en hafdi látid ádur burtflytja fjár-sjódu Ríkisins í Pétursborgar Kastala. Rík-isrádid var þar allt safnad þegar fyrir og helztu Herforíngjarnir. Menzikoff hafdi fullvissad sig um Lífvaktanna, helztu herfylkínganna og efstu Geistlegra samfylgi. Rádid var þegar tekid til ad rádgast um Stjórn eptir Pétur Mikla, og mæltu margir fram med Pétri (þá barni) Alexíussyni, Sonar-syni Péturs, en Prins Menzikoff sprengdi upp Ráds-sam-komu-sals dyrnar med hermönnum sínum: lýsti þar skorinordt Rádstøfun Péturs Mikla um Stjórn eptir sig, þó eckert skriflegt edur opinberlega auglýst finndist þar um. Sama vitnudu fyrrnefndir Biskupar, og úthrópadi svo Katrínu *I.* þar strax í stad, sem ríkjandi Keisarainnu yfir øllum Rússum. Allar Lífs-vaktanna og hermanna vopnadar fylkíngar um-hverfis høllina, endurtóku þau hróp, og bættu vid: „Fadir vor er dáinn, en Módir vor lifir og ríkir! lifi og ríki Katrín Keisarainna en Fyrsta!!!“ En Menzi-koff þeytti peníngum óspart út um gluggana til Lífvaktarinnar og herlidsins. Allt Rádid undir- og endur-tók sømu hróp, og enginn vog-adi móti ad mæla. Katrín gekk sídan fram á



loptverks útbyggíngu Slotsins, og sýndi sig Lífvaktinni og fólkinu, og heilsudu henni þar margra þúsunda fagnadar hróp, sem ríkjandi Keisara-innu. Þó urdu sídar frá nockrum mótparta hennar ýmislegir smánar sedlar uppfestir gégn henni, og þá hún vid hollustu eida töku herlidsins var á þess Samkomu vollum nálæg, flaug, vid seinustu skothríd þess, sem henni til heidurs qvedju géck med lausu púdri, ad vanda, ein byssu-kúla rétt hjá vánga hennar, og drap rússiskann Kaupmann, er stód skammt frá ad baki hennar.

Hafi Katrín I. átt Fursta Menzikoff fyrsta grundvöll til upphefdar sinnar og luckuad þacka, og dygdarlega umbúnad honum þad alla tíd, med því hjá Pétri Mikla stödugt ad verja hann sollum eptir frekasta mætti, vidurkénndi hann og vid Péturs dauda hennar vináttu trúfesti, og umbunadi, ecki einúngis med því, ad hefja hana þá upp til Stjórnartignar í því stærsta veraldar Veldi eptir hann, heldur med því ad adstoda hana eptir mætti í þess Stjórn, edur: leynilega ad ríkja med henni, til heilla og ánægju allra Rússa, allt ad hennar rósama banadægri 1727, en — hvorugt þeirra kunni þó ad lesa edur skrifa.

* * * * * * * * *

Pétur hinn Mikli deydi, en lét eptir sig Minníngu einhvers þess fáheyrdasta Stjórnara í Veröldu, hvers líka Veraldar-sagan

entamm fær sýnt. Øll Stjórn hans, allt hans líf var vottur um þad undarlegasta sam-
bland hjá honum af fyritaks dádum og stór-
brestum; þeim gagnstædustu sinnishræring-
um, sem þó yfir høfud høfdu uppgáng Rússa-
veldis hinn mesta, og um-mindun þegna hans frá villidýrum til vel- eda hálf-sid-
adra og sælli manna, til augnamids og þá afleidíngu. Einn af Merkis-Rithøfundum hans Stjórnar søgu telur hans Lagasetnínga dád draga mega skýlu yfir hans hardstjórn-
ar grimd, en Sneedorff: „ad hann, sem
„Stjórnari eda jafnvel sem madur, vart hafi
„fundid sinn líka í heiminum, því hann
„hafi verid, beint eptir ordanna merkíngu,
„Matrós og Admírál, Dáti og Herfor-
„íngi, Løggjafari og Bødull; einhverr hinn
„mesti Hardstjóri, sem drottnad hefir, en
„þar hjá sá einasti Hardstjóri, sem var und-
„ir eins Skelfir og Velgjørari þegna, sem
„lifdu undir hans Stjórn; hafi um-minda
„ad Bjarndýr (villidýr) til manna; Bát til
„Herflota; óstýriláta Strelizara til æfdra,
„sidadra og voldugra Herfylkínga; vanid
„sína Asíu-búa á Nordurálfunnar sidi, og
„komid grófsidadri þjód til ad heidra góda
„mentir, en — einkum um hans egin vyrd-
„íngu fyrir þeim, megi stiptun Peturs-
„borgar Háskóla eilífur vottur vera.“





# XIV. Scipio's yngra Edal-lyndi.

Scipio yngri Africanus, sem sídar vard Róma-veldis Consul og ædsti Herforíngi, en þeirrar nafnfrægu Carthago's Borgar Sigurvegari, var ecki þrítugur, þegar Rómverja Rádid fól honum Her-forustu í strídi þess á Spáni, hvar Carthago átti mikid veldi, 152 árum fyrir Krists burd. Hann lagdi umsátur um hennar voldugasta Stad á Spáni, er nefndist Carthagena (í þess núveranda Murciu umdæmi), og feck, eptir hardar land- og sjóar-orustur, loksins med áhlaupi hertekid þá miklu Borg, og med henni ógrynni fjár, sem herfáng; 10,000 Borgarar urdu fángar, og fleiri enn 300 heldstu karla og qvenna teknir sem Gislar. Ein þessara, þá háöldrud tignar-frú Mandonii, sem var bródir Hergeta Konúngs Indibilis, sætti lagi til ad komast fram úr mannþraunginni, féll ad fótum Scipio's og grátbændi hann ad bjóda þeim, er qvennanna gæta skyldu, ad vyrda kyn og tign þeirra, því hún bar qvídboga fyrir — eptir venju sigrandi hermanna — ad þeir veita mundi konum óskunda og frekju-ósvífni í umgengni. Scipio misskildi hana fyrst, og qvadst hafa bódid, ad þær einkis þarfnast skyldu. — Þad — ansadi Frúin — óttumst vær minnst, því hvad skulum vær ecki láta oss lynda í ástundi því, sem forlögin nú hafa oss áqvard-

ad? Margt er samt annad ad óttast, bædi végna ósvífni, sem strídum fylgir, og úngdóms fegurdar þeirra Prinsessa, sem þú nú sjer hér fánga þína, þó mínum aldurdómi sé engin hætta búin. Vóru þar þá med henni Dætur Judibilis Konúngs, og fjoldi qvenna af tignustu stigum, allar í æskunnar blóma, og fylgdu þær henni allar sem Módur. „Egin sæmd mína og Róma-fólks — ansadi Scipio — tel eg vera, ad láta ecki qvenndygd þá, hverri allstadar ber heidur, hvar helzt, sem hún finnst, sæta frekju medferd í herbúdum mínum, en bón þín vekur mig samt til aukinnar áhyggju þar um, er þú lætur þér um þettad annara, enn svo margt fleira, sem óttast er.„ Fól hann sídan umsjón þeirra qvenna rádsettustu trúnadar-monnum sínum, og baud ad veita þeim vyrdíngu jafna náfrændum Rómverja vildustu vina.

Litlu seinna komst samt Scipio's sjálfs egid stodugiyndi í harda freistíngu, þegar nockrir Hundradshofdíngja hans færdu honum í herbúdirnar únga Tignar-meyu svo fyrtaks frída, ad allra augu blíndu á hana, med gagnteknum hjortum af undrun og yndæli. Sá úngi Sigurvegari spratt upp úr sæti sínu, frá sér numinn og hissa, og vyrdtist — sem eldíngu lostinn — hálfstrubladar verda og úrrædalaus, þó Scipio þá þirfti úrskurdargérdar vid og væri af henni nafnfrægur. Hann gætti sín samt smámsaman, og frétti þessa Fridmeyu, med blídri kurteysi, um Fodurland hennar, ætt

og uppruna? Vard hann þess vísari, ad hún var Unnusta Allúsíusar Prin's, og sendi því strax eptir honum og Foreldrum hennar. Undir eins og hann Prinsinn sá, veik Scipio honum afsídis og mælti: „Vid erum bádir úngir „og megum því ödrum opinskárr vidtalast. „Þeir, sem færdu mér Unnustu þína, sögdu „mér um leid, ad þú unnir henni innilega, og „sann eg þad því framar trúlegt, sem hún „fegri reyníst, hvers vegna, hefdi eg girnst „blídu hennar, og ecki haft um annad nóg ad „hugsa, eg hefdi mátt óska, ad svo lögmæt og „heidurleg tilhnegíng mín til ástar, hefdi ást „hennar fyrirhitt. En — eg tel mig ad sæki, „í mínu núverandi ástandi, ad fá þér géd„þeckni veitt. Þó strídsheillin hafi mig nú ad „þínum Herra gjort, læt eg mér nægja ad „vera Vinur þinn. Þarna er Unnusta þín! „taktú vid henni og blessi Gudirnir þig med „henni. En um þad bid eg þig sannfærdann „vera, ad hjá oss hefir hún verid, eins og hún „væri í Foreldra húsum; því — lángt sé frá „Scipio, ad vilja kaupa lausíngja stundar„skémtun med missir dygdar sinnar og sæmd„ar, eda med þeirri heill, ad heita og vera „dánumadur. Eg geymdi þér hana í Æru„skenk þér og mér sambodinn. Sú eina þack„látsemi, sem eg af þér kýs fyrir þenna ómet„anlega Skenk, er: ad þú verdir Vinur „Rómverja." Allúsius Prins vard svo gagntekinn vid þetta Scipio's edallyndi, ad hann

kom fyrst engu ordi upp, en varpadi sér ad fótum hans og grét hástøfum, og Unnusta hans allteins. Þar láu þau bædi um hríd, uns Fadir hennar kom fram þessu ávarpi: „Guddómlegi Scipio! þér hafa Gudirnir „lént mèir enn mannlega dygd! O þú veglegi „Herforíngi! undrunarverdi úngi Herra! „mun ecki þessi, þér æfinlega skuldbundna „Meya, þegar húu hédanaf bidur Gudina „fyrir þér og heill þinni, mega inntaka þig „øllu framar med ánægju, allri gladvæid „meiri, sem þú hefdir mátt fá, med óvyrdu „haldi hennar?“

Ættíngjar þessarar tignar-meyu høfdu med sér haft stór-mikid fé henni til útlausnar úr hertekníngu, en þegar þeir sáu, ad hún vard þeim endurgéfin á svo edallundadann og tignarlegann hátt, sárbeiddu þeir Sigurvegarann ad þyggja þad lausnar-gjald í ærn-skenk og tøldu honum, ad sú nýja gódvild hans fullkomna mundi gledi þeirra og þacklátsemi. Scipio féck ecki komist undan þeirra innilegu og alvarlegu bón, og qvadst Skenkinn þyggja, en baud ad leggja hann fyrir fætur sér, og ávarpadi sídan Prins Allúsius þanninn: „Þessum Skenki bæti eg nú vid þann, hvers þú vænta mátt í heimanmund frá Tengda-fødur þínum, og bid eg þú þyggir hann, sem mína Brúdar-gáfu!“

Scipio

Scipio var þá í úngdóms besta blóma, óqvænt-ur og engum böndum tálmadur, einrádur Sigrari; því má þenna sigur hans yfir siálfum sér frægri telja, enn sídar yfir Carthago's veldi, eda þá inntöku Carthagenu Stadar. Hans dygd vard ecki heldur ólaunud; því sá úngi Prins Allúsius flaug, sem frá sér numinn af fögnudi, yfir dygd og stórhöfdinglegri rausn Scipio's heim í lönd sín, til ad vídfrægia þat losstýr svo edallundads Sigurvegara, og úthrópadi, gagntekinn af þacklátsemi: „ad á Spánar land væri úngur kappi kominn, sem, Gudunum líkur, sigradi framar allt med dygdar hans inn-dæli og stór-rausnarlegum velgiördum, enn med vopnum." Þessa vegna gaf sig allt Celtibera-land (vid Ebró-fljótid á Spáni) undir Róma-veldi, en Prins Allúsius hvarf fljótt aptur til Scipio's, med fagnadarhrópum 1400 útvalins Riddaralids, honum til styrks í epkirfylgiandi orustum. Til enn varan-legri minningar sinnar þacklátsemi, lét Allúsius grafa afmálun þessarar Sögu á Silfur-skiöld, sem hann skenkti Scipio, og mátti hann skenk miklu dýrmæt-ari og vegsamlegri telja öllum fiársiódum hans og sigurvinningum. Þenna skiöld hafdi Scipio med sér, þegar hann sídan héldt heim aptur til Róma-borgar, en misti hann med nockru af ödrum varnadi sínum í fljótid Rhone í Fránkaríki, þá yfirum þad fór. Þar lá hann, uns veidimenn árid 1665 slæddu hann upp í netum, og geymist hann nú í Dýrgripa-safni Fracka Kónungs.



